# RÓMVERSK-KAÞÓLSK MESSUBÓK

## FYRIR SUNNUDAGA OG AÐALHÁTÍÐISDAGA KIRKJUÁRSINS

---

## III.

NÍUNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

TIL

FYRSTA SUNNUDAGS Í JÓLAFÖSTU

---

Prentað og gefið út af

KAÞÓLSKU KIRKJUNNI Á ÍSLANDI

1959

# FORMÁLI

*Þessi messubók er gefin út með það fyrir augum, að auðvelda safnaðarbörnum að taka virkan þátt í heilagri messufórn á sunnudögum og helztu hátíðisdögum ársins.*

*Messutextarnir eru flestir mjög gamlir og að langmestu leyti byggðir upp af Ritningartextum. Tilgangur messubókarinnar er guðrækilegs en ekki vísindalegs eðlis. Enda þótt vitnað sé í ákveðna Ritningarstaði, er ekki ávallt um orðrétta tilvitnun að ræða, og stundum eru tilvitnanir heimfærðar upp á annað en þær eiga við á sínum stað í Ritningunni.*

*Í þessari útgáfu er latneski textinn að öllu leyti óbreyttur. Í íslenzku þýðingunni er farið eftir latneska Vulgata-textanum, en hliðsjón hefur verið höfð af endurskoðaðri útgáfu sálmanna og nýjum Biblíuútgáfum. Eftir því, sem ástæða þótti til, eru svigainnskot höfð til að benda á textamismun. Tilvitnanir i Ritningartexta eru samkvæmt skiptingu Vulgata-útgáfunnar.*

**Skipulag messubókarinnar.**

*Messubókin hefst á* « **Föstum liðum** » *messunnar. Í þeim er að finna þær bænir, sem fluttar eru í hverri messu. Því næst kemur* « **Proprium de tempore** ». *Þar eru þeir messutextar, sem skotið er inn í fasta liði messunnar á sunnudögum og vissum stórhátíðum kirkjuársins. Þessar messur hefjast á fyrsta sunnudegi í jólaföstu (sem er fyrsti dagur kirkjuársins), og þeim lýkur síðasta sunnudag eftir hvítasunnu. Síðasti hluti messubókarinnar nefnist:* « **Proprium de sanctis** », *og inniheldur hann þá messutexta, sem skotið er inn í fasta liði messunnar á aðalhátíðisdögum Drottins vors Jesú Krists, alsællar Maríu meyjar, engla og dýrlinga kirkjunnar samkvæmt dagatali ársins. Hann hefst á hátíð heilags Andrésar postula, 30. nóvember, og honum lýkur við lok kirkjuársins.*

*Þar sem sagt er í föstum liðum messunnar:* « **sjá messu dagsins** », *er átt bæði við messurnar úr Proprium de tempore og Proprium de sanctis.*

# ASPERGES [1]

Á undan hámessunni á sunnudögum stökkvir presturinn vigðu vatni á altarið, fylgdarlið sitt og söfnuðinn. Um leið er farið með eftirfarandi bænir:

**Andstef:** *Sálm. 50, 9.*

ASPÉRGES me, Dómine, hyssópo, et mundábor: lavábis me, et super nivem dealbábor.

STÖKK á mig vígðu vatni, Drottinn, með ísópi, og ég mun verða hreinn, lauga mig, og ég mun verða hvítari en mjöll.

*Ps. 50, 3.* Miserére mei, Deus, secúndum magnam misericórdiam tuam.

*Sálm. 50, 3.* Guð, vertu mér náðugur sakir mikillar miskunnar þinnar.

Glória Patri, et Filio, et Spiritui Sancto, Sicut erat in princípio, et nunc, et semper, et in sæcula sæculórum. Amen.

Dýrð sé Föðurnum og Syninum og hinum Heilaga Anda. Svo sem var í öndverðu, er enn og verður ávallt og um aldir alda. Amen.

Aspérges me . . .

Stökk á mig . . .

---

**Á páskatímanum** *er sungið:*

VIDI aquam egrediéntem de templo, a látere dextro, allelúja: et omnes, ad quos pervénit aqua ista, salvi facti sunt, et dicent: allelúja, allelúja.

ÉG sá vatn streyma út úr musterinu hægra megin. Allelúja. Og allir þeir, sem þetta vatn náði til, eru hólpnir orðnir og munu segja: Allelúja, Allelúja.

*Ps. 117, 1.* Confitémini Dómino, quóniam bonus:

*Sálm. 117, 1.* Þakkið Drottni, því að hann er góður, því að

1) Blessun með vigðu vatni er nokkurs konar hreinsunarsiður, sem megnar að veita uppgjöf smásynda, sakir árnaðarbæna kirkjunnar.

| | |
|---|---|
| quóniam in sæculum misericórdia ejus. | miskunn hans varir að eilífu. |
| Glória Patri . . . | Dýrð sé Föðurnum . . . |
| Vidi aquam . . . | Ég sá vatn . . . |
| ℣. Osténde nobis, Dómine, misericórdiam tuam. (Allelúja). | ℣. Auðsýn oss, Drottinn, miskunnsemi þína. (Allelúja). |
| ℟. Et salutáre tuum da nobis. (Allelúja). | ℟. Og veit oss hjálpræði þitt. (Allelúja). |
| ℣. Dómine, exáudi oratiónem meam. | ℣. Drottinn, hlýð á bæn mina. |
| ℟. Et clamor meus ad te véniat. | ℟. Og lát óp mitt berast til þín. |
| ℣. Dóminus vobiscum. | ℣. Drottinn sé með yður. |
| ℟. Et cum spíritu tuo. | ℟. Og með þínum anda. |
| **Orémus.** – Exáudi nos, Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: et míttere dignéris sanctum Angelum tuum de cælis; qui custódiat, fóveat, prótegat, vísitet, atque defendat omnes habitántes in hoc habitáculo. Per Christum Dóminum nostrum. | **Vér skulum biðja.** – Bænheyr þú oss, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, og þóknist þér að senda heilagan engil þinn frá himnum, sem gæti, hlífi, verndi, heimsæki og verji alla íbúa þessa húss, fyrir Krist, Drottin vorn. |
| ℟. Amen. | ℟. Amen. |

# FASTIR LIÐIR HEILAGRAR MESSU

## UPPHAFSBÆNIR

Við neðsta þrep altarisins biður presturinn:

IN nómine Patris, ✠ et Fílii, et Spíritus Sancti. Amen.

℣. [1] Introíbo ad altáre Dei.

℟. Ad Deum qui lætíficat juventútem meam.

Í nafni Föðurins ✠ og Sonarins og hins Heilaga Anda. Amen.

℣. [1] Ég mun inn ganga að altari Guðs.

℟. Til Guðs, er gleður æsku mína.

**Sálm. 42, 1-5.**

℣. Júdica me, Deus, et discérne causam meam de gente non sancta: ab hómine iníquo, et dolóso érue me.

℟. Quia tu es, Deus, fortitúdo mea: quare me repulísti, et quare tristis incédo, dum afflígit me inimícus.

℣. Emítte lucem tuam, et veritátem tuam: ipsa me deduxérunt, et adduxérunt in montem sanctum tuum, et in tabernácula tua.

℟. Et introíbo ad altáre Dei: ad Deum qui lætíficat juventútem meam.

℣. Confitébor tibi in cíthara, Deus, Deus meus: quare

℣. Lát mig ná rétti mínum, Guð, og berst fyrir málstað mínum gegn vanhelgum lýð, bjarga mér frá ranglátum mönnum og fláráðum.

℟. Því að þú, Guð, ert styrkleiki minn, hví hefur þú hrundið mér frá þér, og hvers vegna geng ég harmandi, þjakaður af óvini mínum?

℣. Send þú ljós þitt og trúfesti, svo að þau leiðbeini mér og leiði mig til þíns heilaga fjalls og í tjaldbúðir þínar.

℟. Og ég mun inn ganga að altari Guðs, til Guðs, er gleður æsku mína.

℣. Ég mun lofa þig með hörpuhljómi, þú Guð, minn

---

1) ℣. prestur.
℟. messuþjónn.

tristis es, ánima mea, et quare contúrbas me?

℟. Spera in Deo, quóniam adhuc confitébor illi: salutáre vultus mei, et Deus meus.

℣. Glória Patri, et Filio, et Spirítui Sancto.

℟. Sicut erat in princípio, et nunc, et semper: et in sæcula sæculórum. Amen.

℣. Introíbo ad altáre Dei.

℟. Ad Deum qui lætificat juventútem meam.

℣. ✠ Adjutórium nostrum in nómine Dómini.

℟. Qui fecit cælum et terram.

℣. Confíteor Deo omnipoténti . . .

℟. Misereátur tui omnípotens Deus, et, dimíssis peccátis tuis, perdúcat te ad vitam ætérnam.

℣. Amen.

℟. Confíteor Deo omnipoténti, beátæ Maríæ semper Vírgini, beáto Michaéli Archángelo, beáto Joánni Baptístæ, sanctis Apóstolis Petro et Paulo, ómnibus Sanctis, et tibi, pater: quia peccávi nimis cogitatióne verbo et

Guð; hví ert þú beygð, sál mín, og ólgar í mér?

℟. Vona á Guð, því að ég mun enn lofa hann, hjálpræði auglitis míns og Guð minn.

℣. Dýrð sé Föðurnum og Syninum og hinum Heilaga Anda.

℟. Svo sem var í öndverðu, er enn og verður ávallt og um aldir alda. Amen.

℣. Ég mun inn ganga að altari Guðs.

℟. Til Guðs, er gleður æsku mína.

℣. ✠ Hjálp vor er í nafni Drottins.

℟. Sem gjörði himin og jörð.

℣. Ég játa fyrir almáttugum Guði . . .

℟. Almáttugur Guð miskunni þér og fyrirgefi þér syndir þínar og leiði þig til eilífs lífs.

℣. Amen.

℟. Ég játa fyrir almáttugum Guði, alsælli Maríu, ætíð meyju, sælum Mikael höfuðengli, sælum Jóhannesi skirara, heilögum postulum, Pétri og Páli, öllum heilögum og þér, faðir, að ég hef syndgað mjög í hugsun, orði og athöfn; *(hann ber sér*

ópere: mea culpa, mea culpa, mea máxima culpa. Ideo precor beátam Maríam semper Vírginem, beátum Michaélem Archángelum, beátum Joánnem Baptístam, sanctos Apóstolos Petrum et Paulum, omnes Sanctos, et te, pater, oráre pro me ad Dóminum Deum nostrum.

℣. Misereátur vestri omnípotens Deus, et, dimíssis peccátis vestris, perdúcat vos ad vitam ætérnam.

℟. Amen.

℣. Indulgéntiam, ✠ absolutiónem, et remissiónem peccatórum nostrórum tríbuat nobis omnípotens et miséricors Dóminus.

℟. Amen.

℣. Deus, tu convérsus vivificábis nos.

℟. Et plebs tua lætábitur in te.

℣. Osténde nobis, Dómine, misericórdiam tuam.

℟. Et salutáre tuum da nobis.

℣. Dómine, exáudi oratiónem meam.

℟. Et clamor meus ad te véniat.

℣. Dóminus vobíscum.

℟. Et cum spíritu tuo.

*þrisvar á brjóst og segir um leið:)* mín sök, mín sök, mín mikla sök. Fyrir því bið ég alsæla Maríu, ætíð meyju, sælan Mikael höfuðengil, sælan Jóhannes skírara, heilaga postula Pétur og Pál, alla heilaga og þig, faðir, að biðja fyrir mér við Guð, Drottin vorn.

℣. Almáttugur Guð miskunni yður og fyrirgefi yður syndir yðar og leiði yður til eilífs lífs.

℟. Amen.

℣. ✠ Almáttugur og miskunnsamur Drottinn veiti oss vægð, aflausn og uppgjöf synda vorra.

℟. Amen.

℣. Guð, lít þú til vor og lífga oss.

℟. Og lýður þinn mun gleðjast í þér.

℣. Auðsýn oss, Drottinn, miskunnsemi þína.

℟. Og veit oss hjálpræði þitt.

℣. Drottinn, hlýð á bæn mína.

℟. Og lát óp mitt berast til þín.

℣. Drottinn sé með yður.

℟. Og með þínum anda.

Presturinn gengur upp að altarinu og biður:

**Orémus.** – Aufer a nobis, quæsumus, Dómine, iniquitátes nostras: ut ad Sancta sanctórum puris mereámur méntibus introíre. Per Christum Dóminum nostrum. Amen.

**Vér skulum biðja.** – Vér biðjum þig, Drottinn, létt þú af oss misgjörðum vorum, svo að vér verðum þess verðugir að ganga inn í hið allrahelgasta með hreinum huga. Fyrir Krist Drottin vorn. Amen.

Hann kyssir altarið í virðingarskyni við Krist, en altarið táknar hann, og til að heiðra helga dóma dýrlinga, sem geymdir eru í altarissteininum, og biður:

Orámus te, Dómine, per mérita Sanctórum tuórum, quorum reliquiæ hic sunt, et ómnium Sanctórum: ut indulgére dignéris ómnia peccáta mea. Amen.

Vér biðjum þig, Drottinn, sakir verðleika þeirra dýrlinga þinna, sem þessar helgu minjar stafa frá, og allra annarra dýrlinga, að þér þóknist að fyrirgefa mér allar syndir mínar. Amen.

Sé reykelsi notað, blessar presturinn það og segir um leið:

Ab illo bene✠dicáris, in cujus honóre cremáberis. Amen.

Megir þú hljóta blessun ✠ hans, sem þú skalt brenna til dýrðar. Amen.

**INNGÖNGUVERS** *(Sjá messu dagsins).*

**KYRIE**

℣. Kýrie, eléison.
℟. Kýrie, eléison.
℣. Kýrie, eléison.
℟. Christe, eléison.
℣. Christe, eléison.
℟. Christe, eléison.
℣. Kýrie, eléison.
℟. Kýrie, eléison.
℣. Kýrie, eléison.

℣. Drottinn, miskunna þú oss.
℟. Drottinn, miskunna þú oss.
℣. Drottinn, miskunna þú oss.
℟. Kristur, miskunna þú oss.
℣. Kristur, miskunna þú oss.
℟. Kristur, miskunna þú oss.
℣. Drottinn, miskunna þú oss.
℟. Drottinn, miskunna þú oss.
℣. Drottinn, miskunna þú oss.

## GLORIA [1]

GLÓRIA in excélsis Deo. Et in terra pax homínibus bonæ voluntátis.

Laudámus te.

Benedícimus te.

Adorámus te.

Glorificámus te.

Grátias ágimus tibi propter magnam glóriam tuam.

Dómine Deus, Rex cæléstis, Deus Pater omnípotens.

Dómine Fili unigénite, Jesu Christe.

Dómine Deus, Agnus Dei, Fílius Patris.

Qui tollis peccáta mundi, miserére nobis.

Qui tollis peccáta mundi, súscipe deprecatiónem nostram.

Qui sedes ad déxteram Patris, miserére nobis.

Quóniam tu solus Sanctus.

Tu solus Dóminus.

Tu solus Altíssimus, Jesu Christe.

Cum Sancto Spíritu, ✠ in glória Dei Patris. Amen.

DÝRÐ sé Guði í upphæðum, og friður á jörðu með þeim mönnum, sem hafa góðan vilja.

Vér vegsömum þig.

Vér blessum þig.

Vér tilbiðjum þig

Vér tignum þig.

Vér þökkum þér vegna mikillar dýrðar þinnar.

Drottinn Guð, konungur himnanna, Guð Faðir almáttugur.

Drottinn, Sonurinn eingetni, Jesús Kristur.

Drottinn Guð, lamb Guðs, Sonur Föðurins.

Þú, sem ber burt syndir heimsins, miskunna þú oss.

Þú, sem ber burt syndir heimsins, tak við bæn vorri.

Þú, sem situr Föðurnum til hægri handar, miskunna þú oss.

Því að þú einn ert heilagur.

Þú einn Drottinn.

Þú einn æðstur, Jesús Kristur.

Ásamt með Heilögum Anda ✠ í dýrð Guðs Föður. Amen.

1) Gloria er ekki sögð, þegar presturinn er í fjólubláum eða svörtum messuskrúða.

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.
Orémus.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.
Vér skulum biðja.

**KOLLEKTA** *(Sjá messu dagsins).*

Kollektunni lýkur með orðunum: . . . *um aldir alda.* ℟. Amen.

**PISTILL** *(Sjá messu dagsins).*

Eftir pistlinum:

℟. Deo Grátias.

℟. Guði séu þakkir.

**ÞREPSÖNGUR** *(Sjá messu dagsins).*

Þrepsöngnum fylgir stundum: Allelúja með versi, aukaþrepsöngur og einstöku sinnum sekventía.

Sé reykelsi notað, *sjá bls. 14.*

Áður en presturinn syngur guðspjallið, les hann með þessa bæn:

Munda cor meum, ac lábia mea, omnípotens Deus, qui lábia Isaiæ Prophétæ cálculo mundásti ignito: ita me tua grata miseratióne dignáre mundáre, ut sanctum Evangélium tuum digne váleam nuntiáre. Per Christum Dóminum nostrum. Amen.

Hreinsa hjarta mitt og varir, almáttugi Guð, sem hreinsaðir varir Jesaja spámanns með glóandi steinvölu. Þóknist þér að hreinsa mig svo með náð þinni, að ég geti flutt með sæmd helgan gleðiboðskap þinn. Fyrir Krist, Drottin vorn. Amen.

Jube, Domine, benedícere. Dóminus sit in corde meo, et in lábiis meis: ut digne et competénter annúntiem Evangélium suum. Amen.

Drottinn, veit mér blessun þína. Drottinn sé í hjarta mínu og á vörum mínum, svo að ég flytji gleðiboðskap hans með sómasamlegum og tilhlýðilegum hætti. Amen.

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spiritu tuo.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.

## GUÐSPJALL *(Sjá messu dagsins).*

℣. Sequéntia (Inítium) sancti ✠ Evangélii secúndum . . .
℟. Glória tibi Dómine.

℣. Framhald (*eða* Upphaf) hins ✠ heilaga . . . guðspjalls.
℟. Dýrð sé þér, Drottinn.

Að guðspjallinu loknu:

℟. Laus tibi, Christe.
℣. Per evangélica dicta deleántur nostra delícta.

℟. Lof sé þér, Kristur.
℣. Megi syndir vorar afmást fyrir lestur Guðs orðs.

## CREDO [1]

Á öllum sunnudögum og allmörgum hátíðisdögum.

CREDO in unum Deum. Patrem omnipoténtem, factórem cæli et terræ, visibílium ómnium, et invisibílium.

Et in unum Dóminum Jesum Christum, Fílium Dei unigénitum.

Et ex Patre natum ante ómnia sæcula.

Deum de Deo, lumen de lúmine, Deum verum de Deo vero.

Génitum, non factum, consubstantiálem Patri: per quem ómnia facta sunt.

Qui propter nos hómines, et propter nostram salútem descéndit de cælis.

ÉG trúi á einn Guð, Föður almáttugan, skapara himins og jarðar, alls hins sýnilega og ósýnilega.

Og á einn Drottin Jesúm Krist, Guðs Son eingetinn.

Og af Föðurnum fæddan fyrir allar aldir.

Guð af Guði, ljós af ljósi; sannan Guð af sönnum Guði.

Getinn, ekki gjörðan, sameðlis Föðurnum, sem hefur gjört allt.

Sem vegna vor mannanna og vegna sáluhjálpar vorrar sté niður af himnum.

1) Trúarjátning.

*Hér er knékropið.*

**Et incarnátus est de Spíritu Sancto ex María Vírgine: Et homo factus est.**

Crucifíxus étiam pro nobis: sub Póntio Piláto passus, et sepúltus est.

Et resurréxit tértia die, secúndum Scriptúras.

Et ascéndit in cælum: sedet ad déxteram Patris.

Et iterum ventúrus est cum glória judicáre vivos, et mórtuos: cujus regni non erit finis.

Et in Spíritum Sanctum, Dóminum, et vivificántem: qui ex Patre, Filióque procédit.

Qui cum Patre, et Fílio simul adorátur, et conglorificátur: qui locútus est per Prophétas.

Et unam sanctam cathólicam et apostólicam Ecclésiam.

Confíteor unum baptísma in remissiónem peccatórum.

Et exspécto resurrectiónem mortuórum.

✠ Et vitam ventúri sæculi. Amen.

**Og fyrir Heilagan Anda íklæddist holdi af Maríu meyju og gjörðist maður.**

Hann var einnig krossfestur vor vegna, píndur undir valdi Pontíusar Pílatusar og grafinn.

Og reis upp á þriðja degi samkvæmt ritningunum.

Sté upp til himna og situr Föðurnum til hægri handar.

Og mun koma aftur í dýrð til þess að dæma lifendur og dauða, og á hans ríki mun enginn endir verða.

Og á Heilagan Anda, Drottin og lífgara, sem útgengur frá Föðurnum og Syninum.

Og er tilbeðinn og dýrkaður ásamt Föðurnum og Syninum og hefur talað fyrir munn spámannanna.

Og á eina, heilaga, kaþólska og postullega kirkju.

Ég játa eina skírn til fyrirgefningar syndanna.

Og vænti upprisu dauðra.

Og ✠ lífs um ókomnar aldir. Amen.

## FÓRNUN

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.
Orémus.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.
Vér skulum biðja.

**FÓRNUNARVERS** *(Sjá messu dagsins).*

Presturinn lyftir patínunni með hostíunni og biður:

SÚSCIPE, sancte Pater, omnípotens, ætérne Deus, hanc immaculátam hóstiam, quam ego indígnus fámulus tuus óffero tibi Deo meo vivo, et vero, pro innumerabílibus peccátis, et offensiónibus, et negligéntiis meis, et pro ómnibus circumstántibus, sed et pro ómnibus fidélibus christiánis vivis atque defúnctis: ut mihi, et illis profíciat ad salútem in vitam ætérnam. Amen.

ÞIGG þú, heilagi Faðir, almáttugi og eilífi Guð, þessa óflekkuðu hostíu, sem ég, óverðugur þjónn þinn, færi þér, lifandi og sönnum Guði mínum, fyrir óteljandi syndir mínar, yfirsjónir og vanrækslur, einnig fyrir alla viðstadda og fyrir alla trúaða menn kristna, lífs og liðna, svo að það verði mér og þeim til sáluhjálpar til eilífs lífs. Amen.

Presturinn hellir víni í kaleikinn, bætir nokkrum vatnsdropum við og segir:

DEUS, qui humánæ substántiæ dignitátem mirabíliter condidísti, et mirabílius reformásti: da nobis per hujus aquæ et vini mystérium, ejus divinitátis esse consórtes, qui humanitátis nostræ fíeri dignátus est párticeps, Jesus Christus Fílius tuus Dóminus noster: Qui tecum vivit et regnat in uni-

GUÐ, þú sem undursamlega gafst manneðlinu tign sína og með ennþá undursamlegri hætti endurbættir hana, veit oss, að með leyndardómi þessa vatns og víns verðum vér hluttakendur í guðdómi hans, sem þóknaðist að gjörast hluttakandi í mannlegu eðli voru, Jesú Krists, Sonar þíns, Drottins vors, sem með þér lifir og ríkir

táte Spíritus Sancti Deus: per ómnia sæcula sæculórum. Amen.

i einingu Heilags Anda, Guð, um aldir alda. Amen.

Hann lyftir kaleiknum og biður:

OFFÉRIMUS tibi, Dómine, cálicem salutáris, tuam deprecántes cleméntiam: ut in conspéctu divinæ majestátis tuæ, pro nostra, et totíus mundi salúte cum odóre suavitátis ascéndat. Amen.

VÉR fórnum þér, Drottinn, kaleik hjálpræðisins og áköllum miskunn þina, að hann hefjist með sætum ilmi fram fyrir auglit þinnar guðlegu hátignar, sjálfum oss og öllum heiminum til hjálpræðis. Amen.

Hann setur kaleikinn á altarið, lýtur niður og biður:

IN spíritu humilitátis, et in ánimo contríto suscipiámur a te, Dómine: et sic fiat sacrifícium nostrum in conspéctu tuo hódie, ut pláceat tibi, Dómine Deus.

LEYF þú, Drottinn, að í anda auðmýktar og með sundurkrömdu hjarta hljótum vér viðtöku hjá þér. Þannig verði fórn vor í dag framborin fyrir augliti þinu, Drottinn Guð, að hún sé þér velþóknanleg.

Hann gerir krossmark yfir kaleik og hostíu, um leið og hann segir:

VENI, sanctificátor omnípotens, ætérne Deus: et béne✠dic hoc sacrifícium, tuo sancto nómini præparátum.

KOM þú, helgari, alvaldi og eilífi Guð, og ✠ blessa þessa fórn, sem búin er þínu heilaga nafni.

---

Sé reykelsi notað, blessar presturinn það með þessum orðum:

Per intercessiónem beáti Michaélis Archángeli, stantis a dextris altáris incénsi, et ómnium electórum suórum, incénsum istud dignétur Dó-

Megi Drottni, fyrir meðalgöngu heilags Mikaels höfuðengils, sem stendur til hægri handar við reykelsisaltarið, og allra sinna útvöldu, þóknast að

minus bene✠dícere, et in odórem suavitátis accípere. Per Christum Dóminum nostrum. Amen.

✠ blessa þetta reykelsi og þiggja það, sem velþóknanlegan ilm. Fyrir Krist Drottin vorn. Amen.

Meðan presturinn veifar reykelsiskerinu að brauðinu og víninu og síðan að altarinu, biður hann:

Incénsum istud ad te benedíctum, ascéndat ad te, Dómine: et descéndat super nos misericórdia tua.

Megi reykelsið, sem þú hefur blessað, stíga upp til þín, Drottinn, og miskunn þín koma yfir oss.

**Sálm. 140, 2-4.**

Dirigátur, Dómine, orátio mea, sicut incénsum, in conspéctu tuo: elevátio mánuum meárum sacrifícium vespertínum. Pone, Dómine, custódiam ori meo, et óstium circumstántiæ lábiis meis: ut non declínet cor meum in verba malítiæ, ad excusándas excusatiónes in peccátis.

Bæn mín sé framborin sem ilmfórn fyrir auglit þitt, upplyfting handa minna sem kvöldfórn. Set þú, Drottinn, vörð fyrir munn minn, gæzlu fyrir dyr vara minna. Lát eigi hjarta mitt hneigjast að illum orðum, til að afsaka syndir mínar.

Hann réttir djáknanum reykelsiskerið og segir:

Accéndat in nobis Dóminus ignem sui amóris, et flammam ætérnæ caritátis. Amen.

Drottinn tendri í oss eld ástar sinnar og bál eilífs kærleika. Amen.

---

Presturinn þvær hendur sínar og les á meðan þessi sex vers úr

**25. sálmi Davíðs, 6-12.**

LAVÁBO inter innocéntes manus meas: et circúm-

ÉG mun þvo hendur mínar meðal hinna saklausu og

dabo altáre tuum, Dómine:

Ut áudiam vocem laudis, et enárrem univérsa mirabília tua.

Dómine, diléxi decórem domus tuæ, et locum habitatiónis glóriæ tuæ.

Ne perdas cum ímpiis, Deus, ánimam meam, et cum viris sánguinum vitam meam:

In quorum mánibus iniquitátes sunt: déxtera eórum repléta est munéribus.

Ego autem in innocéntia mea ingréssus sum: rédime me, et miserére mei.

Pes meus stetit in dirécto: in ecclésiis benedícam te, Dómine.

Glória Patri, et Fílio, et Spirítui Sancto.

Sicut erat in princípio, et nunc, et semper: et in sæcula sæculórum. Amen. [1]

ganga í kringum altari þitt, Drottinn.

Svo að ég heyri lofsönginn hljóma og segi frá öllum dásemdarverkum þínum.

Drottinn, ég elskaði fegurð húss þíns og bústað dýrðar þinnar.

Guð minn, lát ekki sál mína farast með hinum óguðlegu né líf mitt með hinum blóðþyrstu.

Þeir fremja ranglæti; hægri hönd þeirra er full af mútum.

En ég hef gengið fram í grandvarleik, frelsa þú mig og líkna mér.

Fótur minn var á réttri leið; í söfnuðum dásama ég þig, Drottinn.

Dýrð sé Föðurnum og Syninum og hinum Heilaga Anda.

Svo sem var í öndverðu, er enn og verður ávallt og um aldir alda. Amen. [1]

Gengur hann nú fyrir mitt altari, lýtur niður og biður Heilaga Þrenningu að meðtaka fórnina.

SUSCIPE, sancta Trinitas, hanc oblatiónem, quam tibi offérimus ob memóriam passiónis, resurrectiónis, et

MEÐTAK þú, Heilaga Þrenning, þessa fórn, sem vér færum þér til minningar um pínu, upprisu og uppstigningu

1) Gloria Patri . . . fellur niður á Passiutímanum og í sálumessum.

ascensiónis Jesu Christi Dómini nostri: et in honórem beátæ Maríæ semper Vírginis, et beáti Joánnis Baptístæ, et sanctórum Apostolórum Petri et Pauli, et istórum, et ómnium Sanctórum: ut illis profíciat ad honórem, nobis autem ad salútem: et illi pro nobis intercédere dignéntur in cælis, quorum memóriam ágimus in terris. Per eúmdem Christum Dóminum nostrum. Amen.

Jesú Krists, Drottins vors, og til heiðurs alsælli Mariu, ætíð meyju, sælum Jóhannesi skírara, heilögum postulum Pétri og Páli, þessum hérna og öllum heilögum, svo að hún verði þeim til heiðurs, en oss til hjálpræðis, og að þeim, sem vér höldum minningu um á jörðinni, þóknist að tala máli voru á himnum. Fyrir hinn sama Krist, Drottin vorn. Amen.

Nú snýr presturinn sér að fólkinu og segir:

ORÁTE, fratres: ut meum ac vestrum sacrifícium acceptábile fiat apud Deum Patrem omnipoténtem.

℟. Suscípiat Dóminus sacrifícium de mánibus tuis ad laudem, et glóriam nóminis sui, ad utilitátem quoque nostram, totiúsque Ecclésiæ suæ sanctæ.

℣. Amen.

BIÐJIÐ, bræður, að fórn mín og yðar þóknist Guði Föður almáttugum.

℟. Drottinn þiggi fórnina af höndum þínum, nafni sínu til lofs og dýrðar, en oss til gagns og allri sinni heilögu kirkju.

℣. Amen.

## LÁGABÆN

Nú biður presturinn bæn, sem kölluð er Secreta eða Lágabæn *(sjá messu dagsins)*, og lýkur hann henni með því að segja:

℣. Per ómnia sæcula sæculórum.

℟. Amen.

℣. Um aldir alda.

℟. Amen.

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.
℣. Sursum corda.
℟. Habémus ad Dóminum.
℣. Grátias agámus Dómino Deo nostro.
℟. Dignum et justum est.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.
℣. Hefjum upp hjörtun.
℟. Vér hefjum þau til Drottins.
℣. Færum Drottni, Guði vorum, þakkir.
℟. Verðugt er það og rétt.

## PREFATÍA

### Prefatía hins heilaga kross.

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: Qui salútem humáni géneris in ligno crucis constituísti: ut unde mors oriebátur, inde vita resúrgeret: et qui in ligno vincébat, in ligno quoque vincerétur: per Christum Dóminum nostrum. Per quem majestátem tuam laudant Angeli, adórant Dominatiónes, tremunt Potestátes. Cæli, cælorúmque Virtútes ac beáta Séraphim, sócia exsultatióne concélebrant. Cum quibus et nostras voces, ut admítti júbeas, deprecámur, súpplici confessióne dicéntes: Sanctus . . . *p. 28.*

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, sem hefur veitt mannkyninu hjálpræði fyrir krosstréð, til þess að þaðan, sem dauðinn kom, rísi lífið upp aftur; og til þess að sá, sem sigraði fyrir tréð, yrði og sigraður fyrir tréð, fyrir Krist Drottin vorn. Fyrir hann lofsyngja englarnir hátign þína, herradómarnir veita henni lotningu, völdin skjálfa fyrir henni, himnarnir og mættir himnanna og hinir sælu serafar sameinast í lofsöngnum. Vér biðjum þig, að raddir vorar megi sameinast þeim í auðmjúkri játningu og segja: Heilagur . . . *bls. 28.*

## Prefatía heílagrar Þrenningar.

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: Qui cum unigénito Fílio tuo, et Spíritu sancto, unus es Deus, unus es Dóminus: non in uníus singularitáte persónæ, sed in uníus Trinitáte substántiæ. Quod enim de tua glória, revelánte te, crédimus, hoc de Fílio tuo, hoc de Spíritu Sancto, sine differéntia discretiónis sentímus. Ut in confessióne veræ sempiternæque Deitátis, et in persónis propríetas, et in esséntia únitas, et in majestáte adorétur æquálitas. Quam laudant Angeli atque Archángeli, Chérubim quoque ac Séraphim: qui non cessant clamáre quotídie, una voce dicéntes: Sanctus . . . *p. 28.*

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, sem ásamt eingetnum Syni þínum og Heilögum Anda ert einn Guð, einn Drottinn, ekki að einstaklingshætti einnar persónu, heldur í þrenningu eins eðlis, vegna þess að því, sem vér trúum um dýrð þína, samkvæmt opinberun þinni, trúum vér einnig um Son þinn og um Heilagan Anda, án mismunar eða aðgreiningar. Þannig séu í játningu hins sanna og eilífa guðdóms tilbeðnar séreigindir í persónum, eining í verund og jöfnuður í tign, sem flutt er lofgjörð af englum og höfuðenglum, kerúbum og seröfum, er vegsama þig án afláts og segja einum rómi: Heilagur . . . *bls. 28.*

## Prefatía alsællar Maríu meyjar.

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne De-

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, og lofum þig,

us: Et te in Festivitáte (Conceptióne immaculáta, Annuntiatióne, Visitatióne, Assumptióne, Nativitáte, Præsentatióne, Transfixióne) beátæ Maríæ semper Vírginis collaudáre, benedícere et prædicáre. Quæ et Unigénitum tuum Sancti Spíritus obumbratióne concépit: et virginitátis glória permanénte, lumen ætérnum mundo effúdit, Jesum Christum Dóminum nostrum. Per quem majestátem tuam laudant Angeli, adórant Dominatiónes, tremunt Potestátes. Cæli, cælorúmque Virtútes, ac beáta Séraphim, sócia exsultatióne concélebrant. Cum quibus et nostras voces, ut admítti júbeas, deprecámur, súpplici confessióne. dicéntes: Sanctus . . . *p. 28*

blessum og vegsömum á hátíð (hins óflekkaða getnaðar, boðunar, vitjunar, uppnumningar, fæðingar, nístingar sálar) alsællar Maríu, ætíð meyjar, sem gat fyrir yfirskyggingu Heilags Anda Son þinn eingetinn, og hélt jafnframt óspilltri dýrð meydóms síns og færði heiminum ljósið eilífa, Jesúm Krist, Drottin vorn. Fyrir hann lofsyngja englarnir hátign þína, herradómarnir veita henni lotningu, völdin skjálfa fyrir henni, himnarnir og mættir himnanna og hinir sælu serafar sameinast í lofsöngnum. Vér biðjum þig, að raddir vorar megi sameinast þeim í auðmjúkri játningu og segja: Heilagur . . . *bls. 28.*

## Prefatía heilags Jósefs.

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: Et te in Festivitáte beáti Joseph débitis magnificáre præcóniis, benedícere et prædicáre. Qui et vir justus, a te Deíparæ Vírgini Sponsus est

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, og tignum þig með tilhlýðilegum lofsöngvum, blessum þig og vegsömum á hátíð heilags Jósefs. Hann er sá réttvísi maður, er þú gafst Guðs-

datus: et fidélis servus ac prudens, super Famíliam tuam est constitútus: ut Unigénitum tuum, Sancti Spíritus obumbratióne concéptum, patérna vice custodíret, Jesum Christum Dóminum nostrum. Per quem majestátem tuam laudant Angeli, adórant Dominatiónes, tremunt Potestátes. Cæli, cælorúmque Virtútes, ac beáta Séraphim, sócia exsultatióne concélebrant. Cum quibus et nostras voces, ut admítti júbeas, deprecámur, súpplici confessióne dicéntes: Sanctus . . . *p. 28.*

móðurinni og meyjunni sem brúðguma, og var settur yfir fjölskyldu þína sem trúr og hygginn þjónn, til þess að varðveita með föðurlegri umhyggju eingetinn Son þinn, sem getinn var fyrir yfirskyggingu Heilags Anda, Jesúm Krist, Drottin vorn. Fyrir hann lofsyngja englarnir hátign þína, herradómarnir veita henni lotningu, völdin skjálfa fyrir henni, himnarnir og mættir himnanna og hinir sælu serafar sameinast í lofsöngnum. Vér biðjum þig, að raddir vorar megi sameinast þeim í auðmjúkri játningu og segja: Heilagur . . . *bls. 28.*

## Prefatía postulanna.

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre: Te Dómine supplíciter exoráre, ut gregem tuum pastor ætérne non déseras: sed per beátos Apóstolos tuos, contínua protectióne custódias: Ut iísdem rectóribus gubernétur, quos óperis tui vicários eídem contulísti præésse pastóres. Et ídeo cum Angelis et Archángelis, cum Thronis, et Dominatiónibus, cumque omni milítia cæléstis exércitus, hymnum gló-

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að sárbæna þig, Drottinn, eilífi hirðir, að yfirgefa ekki hjörð þína, heldur varðveita hana fyrir atbeina heilagra postula þinna, undir stöðugri vernd þinni, til þess að henni verði stjórnað af þeim sömu leiðtogum, er þú hefur sett sem hirða yfir hana, sem staðgengla í starfi þínu. Því lofsyngjum vér dýrð þína ásamt englunum og höfuðenglunum, hásætunum og herradómunum og öll-

riæ tuæ cánimus, sine fine dicéntes: Sanctus . . .

um hinum himnesku hersveitum og segjum án afláts: Heilagur . . . *Sjá neðar á bls.*

**Almenn prefatía.**

VERE dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: per Christum Dóminum nostrum. Per quem majestátem tuam laudant Angeli, adórant Dominatiónes, tremunt Potestátes. Cæli cælorúmque Virtútes, ac beáta Séraphim, sócia exsultatióne concélebrant. Cum quibus et nostras voces, ut admítti júbeas, deprecámur, súpplici confessióne dicéntes:

SANNARLEGA er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, fyrir Krist Drottin vorn. Fyrir hann lofsyngja englarnir hátign þína, herradómarnir veita henni lotningu, völdin skjálfa fyrir henni, himnarnir og mættir himnanna og hinir sælu serafar sameinast í lofsöngnum. Vér biðjum þig, að raddir vorar megi sameinast þeim í auðmjúkri játningu og segja:

SANCTUS, Sanctus, Sanctus Dóminus Deus Sábaoth. Pleni sunt cæli, et terra glória tua. Hosánna in excélsis. ✠ Benedíctus qui venit in nómine Dómini. Hosánna in excélsis.

HEILAGUR, heilagur, heilagur ert þú, Drottinn, Guð hersveitanna. Himinn og jörð eru full dýrðar þinnar. Hósanna í upphæðum. ✠ Blessaður er sá, sem kemur í nafni Drottins. Hósanna í upphæðum.

Klukkuhringingin er merki til fólksins um að krjúpa, þar sem helgasta stund messunnar er í nánd.

Presturinn kyssir altarið og gerir krossmark þrisvar sinnum yfir brauðinu og víninu og biður:

TE ígitur, clementíssime Pater, per Jesum Christ-

ÞESS vegna, mildasti Faðir: Sakir Jesú Krists, Sonar

um Fílium tuum Dóminum nostrum, súpplices rogámus, ac pétimus, uti accépta hábeas, et benedicas, hæc ✠ dona, hæc ✠ múnera, hæc ✠ sancta sacrifícia illibáta, in primis, quæ tibi offérimus pro Ecclésia tua sancta cathólica: quam pacificáre, custodíre, adunáre, et régere dignéris toto orbe terrárum: una cum fámulo tuo Papa nostro N. et Antístite nostro N. et ómnibus orthodóxis, atque cathólicæ, et apostólicæ fidei cultóribus.

þíns, Drottins vors, áköllum vér þig auðmjúkir og biðjum, að þú þiggir og blessir þessar ✠ gjafir, þessa ✠ heilögu, óspilltu ✠ fórn, sem vér færum þér fyrst og fremst vegna þinnar heilögu, kaþólsku kirkju, til þess að þér þóknist að friða, vernda, sameina hana og stjórna henni um gjörvalla jörðu, einnig vegna þjóns þíns N., páfa vors, og N., biskups vors, og allra rétttrúaðra, er lifa í hinni kaþólsku, postullegu trú.

MEMÉNTO, Dómine, famulórum, famularúmque tuárum N. et N. et ómnium circumstántium, quorum tibi fides cógnita est, et nota devótio, pro quibus tibi offérimus: vel qui tibi ófferunt hoc sacrifícium laudis, pro se, suísque ómnibus: pro redemptióne animárum suárum, pro spe salútis, et incolumitátis suæ: tibíque reddunt vota sua ætérno Deo, vivo et vero.

MINNZTU, Drottinn, þjóna þinna og þerna, N. og N. og allra viðstaddra. Þú þekkir trú þeirra, og um guðrækni þeirra er þér kunnugt. Vér færum þér þeirra vegna eða þeir færa þér þessa lofgjörðarfórn fyrir sér og sínum, fyrir frelsun sálna sinna, fyrir von sinni um heill og velfarnað og færa þér heitgjafir sínar, lifandi og sönnum, eilífum Guði.

COMMUNICÁNTES,[1] et memóriam venerántes, in

Í samfélagi[1] við hina heilögu heiðrum vér minning-

1) Í örfáum messum, þar sem þess er getið, verður lítilsháttar breyting á þessari bæn.

primis gloriósæ semper Vírginis Maríæ, Genitrícis Dei et Dómini nostri Jesu Christi: sed et beatórum Apostolórum ac Mártyrum tuórum, Petri et Pauli, Andréæ, Jacóbi, Joánnis, Thomæ, Jacóbi, Philíppi, Bartholomæi, Matthæi, Simónis et Thaddæi: Lini, Cleti, Cleméntis, Xysti, Cornélii, Cypriáni, Lauréntii, Chrysógoni, Joánnis et Pauli, Cosmæ et Damiáni: et ómnium Sanctórum tuórum; quorum méritis, precibúsque concédas, ut in ómnibus protectiónis tuæ muniámur auxílio. Per eúmdem Christum Dóminum nostrum. Amen.

una, fyrst og fremst um hina dýrlegu Maríu, ætíð meyju, móður Guðs og Drottins vors Jesú Krists; en einnig um sæla postula þína og píslarvotta, Pétur og Pál, Andrés, Jakob, Jóhannes, Tómas, Jakob, Filippus, Bartólómeus, Matteus, Símon og Taddeus; Línus, Kletus, Klemenz, Xystus, Kornelíus, Kýpríanus, Lárentíus, Krýsógónus, Jóhannes og Pál, Kosmas og Damíanus og alla dýrlinga þína. Veit oss fyrir verðleika þeirra og bænir, að vér njótum í öllu verndar og hjálpar þinnar. Fyrir hinn sama Krist, Drottin vorn. Amen.

Presturinn leggur hendur yfir brauðið og vínið og biður:

HANC [1] ígitur oblatiónem servitútis nostræ, sed et cunctæ famíliæ tuæ, quæsumus, Dómine, ut placátus accípias: diésque nostros in tua pace dispónas, atque ab ætérna damnatióne nos éripi, et in electórum tuórum júbeas grege numerári. Per Christum Dóminum nostrum. Amen.

ÞVÍ [1] biðjum vér, að þér þóknist að þiggja þessa fórn vora, þjóna þinna og alls safnaðar þíns, Drottinn, og að þú látir lífdaga vora líða í þínum friði, frelsir oss frá eilífri fordæmingu og skipir oss í hóp þinna útvöldu. Fyrir Krist, Drottin vorn. Amen.

---

1) Á páskum og hvítasunnu verður smábreyting á þessari bæn.

Aftur gerir hann krossmark yfir brauðinu og víninu og biður:

QUAM oblatiónem tu, Deus, in ómnibus, quæsumus, bene✠díctam, ad✠scríptam, ra✠tam, rationábilem, acceptabilémque fácere dignéris: ut nobis Cor✠pus, et San✠guis fiat dilectíssimi Fílii tui Dómini nostri Jesu Christi.

VÉR biðjum þig, Guð, að þessa fórn þóknist þér að öllu leyti að ✠ blessa, ✠ taka til greina, ✠ staðfesta, gjöra andlegs eðlis og móttakanlega, svo að hún verði oss ✠ líkami og ✠ blóð þíns ástkæra Sonar, Drottins vors Jesú Krists.

## GJÖRBREYTINGIN

QUI prídie quam paterétur, accépit panem in sanctas, ac venerábiles manus suas, et elevátis óculis in cælum ad te Deum Patrem suum omnipoténtem, tibi grátias agens, bene✠díxit, fregit, dedítque discípulis suis, dicens: Accípite, et manducáte ex hoc omnes.

**Hoc est enim Corpus meum.**

SEM daginn áður en hann var píndur, tók brauðið í heilagar og göfugar hendur sínar og um leið og hann hóf upp augu sín til himins, til þín, Guðs Föður síns almáttugs, færði þér þakkir, ✠ blessaði það, braut það og gaf það lærisveinum sínum og sagði: Takið og etið af þessu allir,

**Því að þetta er Líkami minn.**

Hann krýpur í tilbeiðslu frammi fyrir hostíunni og lyftir henni, svo að hinir trúuðu megi tilbiðja Frelsara sinn. Því næst heldur hann áfram:

SÍMILE modo postquam cœnátum est, accípiens et hunc præclárum Cálicem in sanctas, ac venerábiles manus suas: item tibi grátias agens, bene✠díxit, dedítque discipulis suis, dicens: Accipite, et bíbite ex eo omnes.

SÖMULEIÐIS, eftir máltíðina, tók hann einnig hinn dýrlega kaleik í heilagar og göfugar hendur sínar, færði þér og þakkir, ✠ blessaði hann og gaf lærisveinum sínum og sagði: Takið og drekkið af þessu allir,

**Hic est enim Calix Sánguinis mei, novi et ætérni testaménti: mystérium fídei: qui pro vobis et pro multis effundétur in remissiónem peccatórum.**

Hæc quotiescúmque fecéritis, in mei memóriam faciétis.

**Því að þetta er kaleikur Blóðs míns, hins nýja og eilífa Sáttmála, leyndardómur trúarinnar, sem fyrir yður og fyrir marga verður úthellt til fyrirgefningar syndanna.**

Í hvert sinn, er þér gjörið þetta, þá gjörið það í mína minningu.

Presturinn krýpur aftur í lotningu fyrir blóði Krists og lyftir kaleiknum, svo að söfnuðurinn geti sýnt því lotningu.

Þá heldur hann áfram að biðja:

UNDE et mémores, Dómine, nos servi tui, sed et plebs tua sancta, ejúsdem Christi Fílii tui Dómini nostri tam beátæ passiónis, nec non et ab ínferis resurrectiónis, sed et in cælos gloriósæ ascensiónis: offérimus præcláræ majestáti tuæ de tuis donis, ac datis, hóstiam ✠ puram, hóstiam ✠ sanctam, hóstiam ✠ immaculátam, Panem ✠ sanctum vitæ ætérnæ, et Cálicem ✠ salútis perpétuæ.

DROTTINN, um leið og vér, þjónar þínir, þinn heilagi lýður, minnumst heilagrar þjáningar hins sama Krists, Sonar þíns, Drottins vors, og bæði upprisu hans frá dauðum og dýrlegrar uppstigningar hans til himna, færum vér af gjöfum þínum þinni dýrlegu hátign hreina ✠ hostíu, heilaga ✠ hostíu, óflekkaða ✠ hostíu, heilagt ✠ brauð eilífs lífs og kaleik ✠ ævarandi hjálpræðis.

SUPRA quæ propítio ac seréno vultu respícere dignéris: et accépta habére, sícuti accépta habére dignátus es múnera púeri tui justi Abel, et sacrifícium Patriárchæ nostri Abrahæ: et quod

ÞÓKNIST þér að líta líknsamlega og með mildri ásjónu á þessar fórnargjafir og veita þeim viðtöku eins og þér þóknaðist að þiggja gjafir réttláts þjóns þíns, Abels, og fórn ættföður vors, Abrahams, og hina

tibi óbtulit summus sacérdos tuus Melchísedech, sanctum sacrifícium, immaculátam hóstiam.

helgu fórn, hina flekklausu hostíu, sem æðsti prestur þinn, Melkísedek, frambar þér.

Hann lýtur niður í auðmýkt og biður:

SUPPLICES te rogámus, omnípotens Deus: jube hæc perférri per manus sancti Angeli tui in sublíme altáre tuum, in conspéctu divínæ majestátis tuæ: ut quotquot, ex hac altáris participatióne sacrosánctum Fílii tui, Cor✠pus, et Sán✠guinem sumpsérimus, omni benedictióne cælésti et grátia repleámur. Per eúmdem Christum Dóminum nostrum. Amen.

Í auðmýkt biðjum vér þig, almáttugi Guð, að þú látir heilagan engil þinn flytja þessa fórn á höndum sér til altaris þíns í hæðum fyrir auglit guðlegrar hátignar þinnar, svo að allir vér, sem neytum háheilags ✠ líkama og ✠ blóðs Sonar þíns af þessu altari, mettumst allri himneskri blessun og náð. Fyrir hinn sama Krist, Drottin vorn. Amen.

Presturinn biður fyrir hinum trúuðu, sem látizt hafa.

MEMENTO étiam, Dómine, famulórum, famularúmque tuárum N. et N. qui nos præcessérunt cum signo fídei, et dórmiunt in somno pacis.

Ipsis, Dómine, et ómnibus in Christo quiescéntibus, locum refrigérii, lucis et pacis, ut indúlgeas, deprecámur. Per eúmdem Christum Dóminum nostrum. Amen.

MINNZT þú einnig, Drottinn, þjóna þinna og þerna, N. og N., sem farin eru á undan oss með merki trúarinnar og sofa svefni friðarins. Vér biðjum þig, Drottinn: Öllum þeim, er hvíla í Kristi, unn þú stað hugsvölunar, ljóss og friðar. Fyrir hinn sama Krist, Drottin vorn. Amen.

Aftur minnist hann hinna mörgu píslarvotta og dýrlinga og biður Guð að gefa oss hlutdeild með þeim:

NOBIS quoque peccatóribus fámulis tuis, de multitúdine miseratiónum tuárum sperántibus, partem áliquam, et societátem donáre dignéris, cum tuis sanctis Apóstolis et Martýribus: cum Joánne, Stéphano, Matthía, Bárnaba, Ignátio, Alexándro, Marcellíno, Petro, Felicitáte, Perpétua, Agatha, Lúcia, Agnéte, Cæcília, Anastásia, et ómnibus Sanctis tuis: intra quorum nos consórtium, non æstimátor mériti, sed véniæ, quæsumus, largítor admítte. Per Christum Dóminum nostrum.

EINNIG oss syndurum, þjónum þínum, sem vonast eftir mikilleik miskunnar þinnar, veit þú nokkra hlutdeild og samfélag með þínum heilögu postulum og píslarvottum, með Jóhannesi, Stefáni, Matthíasi, Barnabasi, Ignatíusi, Alexander, Marcellínusi, Pétri, Felicitas, Perpetúu, Agötu, Lúcíu, Agnesi, Sesselju, Anastasíu og öllum dýrlingum þínum. Vér biðjum þig að taka oss af miskunnsemi þinni í samfélag þeirra, ekki vegna verðleika vorra, heldur af náð. Fyrir Krist, Drottin vorn.

PER quem hæc ómnia, Dómine, semper bona creas, sanctí✠ficas, viví✠ficas, bene✠dícis, et præstas nobis.

FYRIR milligöngu hans skapar þú, Drottinn, ávallt þessi gæði, ✠ helgar þau, ✠ lífgar, ✠ blessar og veitir oss.

Presturinn gerir þrisvar krossmark yfir kaleiknum með hostíunni og tvisvar milli sín og kaleiksins um leið og hann segir:

PER ip✠sum, et cum ip✠so, et in ip✠so, est tibi Deo Patri ✠ omnipoténti, in unitáte Spíritus ✠ Sancti, omnis honor, et glória.

℣. Per ómnia sæcula sæculórum. ℟. Amen.

FYRIR ✠ hann og með ✠ honum og í ✠ honum ber þér, Guði Föður ✠ almáttugum í einingu Heilags ✠ Anda, allur heiður og dýrð.

℣. Um aldir alda.

℟. Amen.

**FAÐIR VOR**

℣. Orémus.

Præcéptis salutáribus mó-

℣. Vér skulum biðja.

Áminntir af sáluhjálplegum

niti, et divína institutióne formáti, audémus dícere:

PATER noster, qui es in cælis:

Sanctificétur nomen tuum:

Advéniat regnum tuum:

Fiat volúntas tua, sicut in cælo, et in terra.

Panem nostrum quotidiánum da nobis hódie:

Et dimítte nobis débita nostra, sicut et nos dimíttimus debitóribus nostris.

Et ne nos indúcas in tentatiónem.

℟. Sed líbera nos a malo.

℣. Amen.

fyrirmælum, og leiddir af guðlegri tilsögn, dirfumst vér að segja:

FAÐIR vor, þú sem ert á himnum,

Helgist þitt nafn,

Komi þitt ríki,

Verði þinn vilji svo á jörðu sem á himni;

Gef oss í dag vort daglegt brauð,

Og fyrirgef oss vorar skuldir svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum,

Og eigi leið þú oss í freistni.

℟. Heldur frelsa oss frá illu.

℣. Amen.

Presturinn biður áfram:

LIBERA nos, quæsumus, Dómine, ab ómnibus malis, prætéritis, præséntibus, et futúris: et intercedénte beáta, et gloriósa semper Vírgine Dei Genitríce María, cum beátis Apóstolis tuis Petro et Paulo, atque Andréa, et ómnibus Sanctis, da propítius pacem in diébus nostris: ut ope misericórdiæ tuæ adjúti, et a peccáto simus semper líberi, et ab omni perturbatióne secúri.

VÉR biðjum þig, Drottinn, frelsa oss frá öllu illu, umliðnu, núverandi og komandi. Fyrir milligöngu blessaðrar og dýrlegrar Maríu Guðsmóður, ætíð meyjar, og heilagra postula þinna, Péturs og Páls og Andrésar, og allra heilagra, gef þú miskunnsamlega frið um vora daga, svo að vér njótum hjálpar miskunnarverka þinna og séum ávallt lausir við synd og öruggir fyrir mótlæti.

Presturinn brýtur hostíuna í þrjá hluta og segir:

Per eúmdem Dóminum nostrum Jesum Christum Fílium tuum: Qui tecum vivit et regnat in unitáte Spíritus Sancti Deus.

℣. Per ómnia sæcula sæculórum.

℟. Amen.

Fyrir hinn sama Drottin vorn Jesúm Krist, Son þinn, sem með þér lifir og ríkir í einingu Heilags Anda, Guð.

℣. Um aldir alda.

℟. Amen.

Hann gerir krossmark yfir kaleiknum með minnsta hluta hostíunnar og segir:

℣. Pax ✠ Dómini sit ✠ semper vobís✠cum.

℟. Et cum spíritu tuo.

℣. Friður ✠ Drottins sé ✠ ávallt með ✠ yður.

℟. Og með þínum anda.

Nú lætur hann minnsta hlutann falla niður í kaleikinn og les þessa bæn:

HÆC commíxtio, et consecrátio Corporis et Sánguinis Dómini nostri Jesu Christi, fiat accipiéntibus nobis in vitam ætérnam. Amen.

SAMRUNI þessi og fórnarvígsla líkama og blóðs Drottins vors Jesú Krists verði oss, sem neytum þeirra, hjálp til eilífs lífs. Amen.

## AGNUS DEI

AGNUS Dei, qui tollis peccáta mundi: miserére nobis.

Agnus Dei, qui tollis peccáta mundi: miserére nobis.

Agnus Dei, qui tollis peccáta mundi: dona nobis pacem. [1]

GUÐS lamb, sem ber burt syndir heimsins, miskunna þú oss.

Guðs lamb, sem ber burt syndir heimsins, miskunna þú oss.

Guðs lamb, sem ber burt syndir heimsins, veit þú oss frið. [1]

1) Í sálumessum er ekki sagt: . . . miskunna þú oss, heldur: **veit þeim hvíld,** og í þriðja skipti: . . . **eilífa hvíld.**

Presturinn lýtur niður að altarinu og biður þessar þrjár bænir: [1]

DOMINE Jesu Christe, qui dixísti Apóstolis tuis: Pacem relínquo vobis, pacem meam do vobis: ne respícias peccáta mea, sed fidem Ecclésiæ tuæ: eámque secúndum voluntátem tuam pacificáre et coadunáre dignéris: Qui vivis et regnas Deus per ómnia sæcula sæculórum. Amen.

DROTTINN Jesús Kristur, sem sagðir við postula þína: Frið eftirlæt ég yður, minn frið gef ég yður; lít þú ekki á syndir mínar, heldur á trú kirkju þinnar. Þóknist þér að varðveita hana í friði og eindrægni samkvæmt vilja þínum; þú, sem lifir og ríkir, Guð, um aldir alda. Amen.

DOMINE Jesu Christe, Fili Dei vivi, qui ex voluntáte Patris, cooperánte Spíritu Sancto, per mortem tuam mundum vivificásti: líbera me per hoc sacrosánctum Corpus et Sánguinem tuum ab ómnibus iniquitátibus meis, et univérsis malis: et fac me tuis semper inhærére mandátis, et a te numquam separári permíttas: Qui cum eódem Deo Patre, et Spíritu Sancto vivis et regnas Deus in sæcula sæculórum. Amen.

DROTTINN Jesús Kristur, Sonur hins lifanda Guðs, sem að vilja Föðurins og fyrir meðverknað Heilags Anda lífgaðir heiminn með dauða þínum, frelsa mig með þessum háheilaga líkama þínum og blóði frá öllum misgjörðum mínum og frá öllu illu. Lát mig ávallt fylgja boðum þínum og leyf þú aldrei, að ég skiljist við þig; þú, sem með hinum sama Guði Föður og Heilögum Anda lifir og ríkir, Guð, um aldir alda. Amen.

PERCEPTIO Corpóris tui, Dómine Jesu Christe, quod ego indígnus súmere præsúmo, non mihi provéniat in judícium et condemnatió-

DROTTINN Jesús Kristur, óverðugur dirfist ég að neyta líkama þíns. Lát það ekki verða mér til dóms og sakfellingar, heldur verði það sakir

1) Fyrsta bænin fellur niður í sálumessum.

nem: sed pro tua pietáte prosit mihi ad tutaméntum mentis et córporis, et ad medélam percipiéndam: Qui vivis et regnas cum Deo Patre in unitáte Spíritus Sancti Deus, per ómnia sæcula sæculórum. Amen.

mildi þinnar mér til andlegrar og líkamlegrar verndar og lækningar; þú, sem lifir og ríkir með Guði Föður í einingu Heilags Anda, Guð, um aldir alda. Amen.

Presturinn tekur hostíuna og segir:

PANEM cæléstem accípiam, et nomen Dómini invocábo.

ÉG mun meðtaka brauðið himneska og ákalla nafn Drottins.

Presturinn ber sér á brjóst og biður þrisvar:

DOMINE, non sum dignus, ut intres sub tectum meum: sed tantum dic verbo, et sanábitur ánima mea.

DROTTINN, ég er þess ekki verðugur, að þú komir undir þak mitt, en seg þú eitt orð, og sál mín mun heilbrigð verða.

Um leið er bjöllunni hringt þrisvar sinnum.
Presturinn segir:

CORPUS Dómini nostri Jesu Christi custódiat ánimam meam in vitam ætérnam. Amen.

LÍKAMI Drottins vors Jesú Krists varðveiti sál mína til eilífs lífs. Amen.

Presturinn neytir hostíunnar, hugleiðir svolitla stund, tekur kaleikinn og segir:

QUID retríbuam Dómino pro ómnibus quæ retríbuit mihi? Cálicem salutáris accípiam, et nomen Dómini invocábo. Laudans invocábo Dóminum, et ab inimícis meis salvus ero.

HVERNIG fæ ég endurgoldið Drottni allt það, sem hann hefur veitt mér? Ég mun taka kaleik hjálpræðisins og ákalla nafn hans. Ég mun ákalla Drottin og vegsama hann og verða óhultur fyrir óvinum mínum.

SANGUIS Dómini nostri Jesu Christi custódiat ánimam meam in vitam ætérnam. Amen.

BLÓÐ Drottins vors Jesú Krists varðveiti sál mína til eilífs lífs. Amen.

Presturinn drekkur af kaleiknum.
Áður en fólkið fer til altaris, er beðin þessi syndajátning:

CONFITEOR Deo omnipoténti, beátæ Maríæ semper Vírgini, beáto Michaéli Archángelo, beáto Joánni Baptístæ, sanctis Apóstolis Petro et Paulo, ómnibus Sanctis, et tibi, pater: quia peccávi nimis cogitatióne verbo et ópere: mea culpa, mea culpa, mea máxima culpa. Ideo precor beátam Maríam semper Vírginem, beátum Michaélem Archángelum, beátum Joánnem Baptístam, sanctos Apóstolos Petrum et Paulum, omnes Sanctos, et te, pater, oráre pro me ad Dóminum Deum nostrum.

ÉG játa fyrir almáttugum Guði, alsælli Maríu ætíð meyju, sælum Mikael höfuðengli, sælum Jóhannesi skírara, heilögum postulum, Pétri og Páli, öllum heilögum og þér, faðir, að ég hef syndgað mjög í hugsun, orði og athöfn; mín sök, mín sök, mín mikla sök. Fyrir því bið ég alsæla Maríu, ætíð meyju, sælan Mikael höfuðengil, sælan Jóhannes skírara, heilaga postula Pétur og Pál, alla heilaga og þig, faðir, að biðja fyrir mér við Guð, Drottin vorn.

℣. Misereátur vestri omnípotens Deus, et, dimíssis peccátis vestris, perdúcat vos ad vitam ætérnam.

℟. Amen.

℣. Almáttugur Guð miskunni yður og fyrirgefi yður syndir yðar og leiði yður til eilífs lífs.

℟. Amen.

℣. Indulgéntiam, ✠ absolutiónem, et remissiónem peccatórum vestrórum tríbuat vobis omnipotens et miséricors Dóminus. ℟. Amen.

℣. ✠ Almáttugur og miskunnsamur Drottinn veiti yður vægð, aflausn og uppgjöf synda yðar.

℟. Amen.

Presturinn snýr sér að fólkinu og endurtekur orð Jóhannesar skírara:

ECCE Agnus Dei, ecce qui tollit peccáta mundi.

SJÁ Guðs lambið, sjá þann, sem ber burt syndir heimsins.

Síðan segir hann þrisvar sinnum:

DOMINE, non sum dignus, ut intres sub tectum meum: sed tantum dic verbo, et sanábitur ánima mea.

DROTTINN, ég er þess ekki verðugur, að þú komir undir þak mitt, en seg þú eitt orð, og sál mín mun heilbrigð verða.

Hann leggur hostíu á tungu hvers altarisgests og segir í hvert sinn:

CORPUS Dómini nostri Jesu Christi custódiat ánimam tuam in vitam ætérnam. Amen.

LÍKAMI Drottins vors Jesú Krists varðveiti sál þína til eilífs lífs. Amen.

Þegar lokið er útdeilingunni, snýr presturinn aftur til altarisins og hreinsar kaleikinn um leið og hann segir:

QUOD ore súmpsimus, Dómine, pura mente capiámus: et de múnere temporáli fiat nobis remédium sempitérnum.

ÞAÐ, sem vér, Drottinn, höfum neytt með munninum, lát þú oss meðtaka með hreinum huga; lát þessa tímanlegu gjöf verða oss læknisdómur til eilífs lífs.

CORPUS tuum, Dómine, quod sumpsi, et Sanguis, quem potávi, adhæreat viscéribus meis: et præsta; ut in me non remáneat scélerum mácula, quem pura et sancta refecérunt sacraménta: Qui vivis et regnas in sæcula sæculórum. Amen.

DROTTINN, lát líkama þinn, sem ég hef neytt, og blóð þitt, sem ég hef drukkið, vera með mínum innra manni, og veit þú, að engin synd verði eftir í mér, sem hrein og heilög sakramenti hafa endurnært; þú, sem lifir og ríkir um aldir alda. Amen.

**KOMMÚNÍUVERS** *(Sjá messu dagsins).*

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.

**KOMMÚNÍUBÆN** *(Sjá messu dagsins).*

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.
℣. Ite, Missa est *(eða)*
Benedicámus Dómino.
℟. Deo Grátias. [1]

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.
℣. Farið, messunni er lokið.
*eða* Vegsömum Guð.
℟. Guði séu þakkir. [1]

Presturinn snýr sér að altarinu, lýtur niður og biður:

PLACEAT tibi, sancta Trínitas, obséquium servitútis meæ: et præsta; ut sacrifícium, quod óculis tuæ majestátis indígnus óbtuli, tibi sit acceptábile, mihíque, et ómnibus, pro quibus illud óbtuli, sit, te miseránte, propitiábile. Per Christum Dóminum nostrum. Amen.

MEGI þér, Heilaga Þrenning, geðjast auðmjúkleg þjónusta mín. Veit mér, að fórnin, sem ég óverðugur hef borið fram fyrir auglit hátignar þinnar, sé þér velþóknanleg, og megi hún fyrir miskunn þína verða til friðþægingar mér og öllum þeim, sem ég frambar hana fyrir. Fyrir Krist, Drottin vorn. Amen.

Hann kyssir altarið, snýr sér að fólkinu og gerir krossmark um leið og hann segir:

BENEDICAT vos omnípotens Deus, Pater, et Fílius, ✠ et Spíritus Sanctus.
℟. Amen. [2]

BLESSI yður almáttugur Guð, Faðirinn og Sonurinn ✠ og hinn Heilagi Andi.
℟. Amen. [2]

1) Í sálumessum er sagt:

℣. Requiéscant in pace.
℟. Amen.

℣. Þeir hvili í friði.
℟. Amen.

2) Í sálumessum fellur þessi blessun niður.

## LOKAGUÐSPJALL

℣. Dóminus vobíscum.
℟. Et cum spíritu tuo.
℣. ✠ Inítium sancti Evangélii secúndum Joánnem. *I, 1-14.*
℟. Glória tibi, Dómine.

In princípio erat Verbum, et Verbum erat apud Deum, et Deus erat Verbum. Hoc erat in princípio apud Deum. Omnia per ipsum facta sunt: et sine ipso factum est nihil, quod factum est: in ipso vita erat, et vita erat lux hóminum: et lux in ténebris lucet, et ténebræ eam non comprehendérunt. Fuit homo missus a Deo, cui nomen erat Joánnes. Hic venit in testimónium, ut testimónium perhibéret de lúmine, ut omnes créderent per illum. Non erat ille lux, sed ut testimónium perhibéret de lúmine. Erat lux vera, quæ illúminat omnem hóminum veniéntem in hunc mundum. In mundo erat, et mundus per ipsum factus est, et mundus eum non cognóvit. In própria venit, et sui eum non recepérunt.

℣. Drottinn sé með yður.
℟. Og með þínum anda.
℣. ✠ Upphaf heilags guðspjalls eftir Jóhannes. *I, 1-14.*
℟. Dýrð sé þér, Drottinn.

Í upphafi var Orðið, og Orðið var hjá Guði, og Orðið var Guð. Það var í upphafi hjá Guði. Allir hlutir eru gjörðir fyrir það, og án þess varð ekkert til, sem til er orðið; í því var líf, og lífið var ljós mannanna; og ljósið skín í myrkrinu, og myrkrið tók ekki á móti því. Maður kom fram, sendur af Guði, hann hét Jóhannes. Þessi maður kom til vitnisburðar, til þess að vitna um ljósið, svo að allir tryðu fyrir hann. Ekki var hann ljósið, heldur átti hann að vitna um ljósið. Til var hið sanna ljós, er upplýsir sérhvern mann, sem í heiminn kemur. Hann var í heiminum, og heimurinn var til orðinn fyrir hann, og heimurinn þekkti hann ekki. Hann kom til eignar sinnar, og hans eigið fólk tók ekki við honum. En öllum, sem tóku við honum, gaf hann mátt til að verða

Quotquot autem recepérunt eum, dedit eis potestátem fílios Dei fíeri, his, qui credunt in nómine ejus: qui non ex sanguínibus, neque ex voluntáte carnis, neque ex voluntáte viri, sed ex Deo nati sunt. *(Genuflectit dicens:)* **Et Verbum caro factum est,** *(et surgens prosequitur:)* et habitávit in nobis: et vídimus glóriam ejus, glóriam quasi Unigéniti a Patre, plenum grátiæ et veritátis.

℟. Deo grátias.

Guðs börn, þeim, sem trúa á nafn hans, sem ekki eru af blóði, né af holds vilja, né af manns vilja, heldur eru af Guði fæddir. *(Hér er knékropið).* **Og orðið varð hold** og bjó meðal vor; og vér sáum dýrð hans, dýrð sem eingetins Sonar frá Föður, og hann var fullur náðar og sannleika.

℟. Guði séu þakkir.

---

## BÆNIR EFTIR LÁGMESSU

Ave María, grátia plena; Dóminus tecum: benedícta tu in muliéribus et benedíctus fructus ventris tui, Jesus.

℟. Sancta María, Mater Dei, ora pro nobis peccatóribus, nunc et in hora mortis nostræ. Amen. *(ter).*

Heil sért þú María, full náðar, Drottinn er með þér, blessuð ert þú meðal kvenna, og blessaður er ávöxtur þíns lífs, Jesús.

℟. Heilaga María, Guðs móðir, bið þú fyrir oss syndugum mönnum, nú og á dauðastundu vorri. Amen *(þrisvar).*

Salve, Regína, Mater Misericórdiæ. Vita, dulcédo et spes nostra, salve. Ad te clamámus, éxsules fílii Evæ. Ad te suspirámus, geméntes et flentes in hac lacrymárum valle. Eia ergo, advocáta nostra, illos tuos misericórdes óculos ad nos con-

Heil sért þú, drottning, móðir miskunnarinnar, líf vort, unun og von, heil sért þú. Til þín hrópum vér, útlæg börn Evu. Til þín andvörpum vér, stynjandi og grátandi í þessum táradal. Talsmaður vor, lít þú miskunnarríkum augum þínum til vor, og sýn þú oss eftir

vérte. Et Jesum, benedíctum fructum ventris tui, nobis post hoc exsílium osténde. O clemens! O pia! O dulcis Virgo María!

℣. Ora pro nobis, sancta Dei Génitrix.

℟. Ut digni efficiámur promissiónibus Christi.

**Orémus.**

Deus refúgium nostrum et virtus, pópulum ad te clamántem propítius réspice; et intercedénte gloriósa et immaculáta Vírgine Dei Genitríce María, cum beáto Joseph ejus Sponso, ac beátis Apóstolis tuis Petro et Paulo et ómnibus Sanctis, quas pro conversióne peccatórum, pro libertáte et exaltatióne sanctæ Matris Ecclésiæ, preces effúndimus, miséricors et benígnus exáudi. Per eumdem Christum Dóminum nostrum.

℟. Amen.

Sancte Míchaël Archángele, defénde nos in prælio; contra nequítiam et insídias diáboli esto præsídium. Imperet illi Deus, súpplices deprecámur: tuque, Princeps milítiæ cæléstis, Sátanam

þennan útlegðartíma, Jesúm, hinn blessaða ávöxt lífs þíns. Ó, þú milda, ástríka og ljúfa María mey!

℣. Bið þú fyrir oss, heilaga Guðsmóðir.

℟. Svo að vér verðum maklegir fyrirheita Krists.

**Vér skulum biðja.**

Guð, þú athvarf vort og styrkur, lít þú náðarsamlega til lýðs þíns, er hrópar til þín; og sakir fyrirbæna hinnar dýrðlegu og óflekkuðu meyjar og Guðsmóður Maríu, hins heilaga Jósefs, brúðguma hennar, þinna heilögu postula Péturs og Páls og allra heilagra, heyr þú í líkn þinni og góðvild þær bænir, sem vér flytjum fyrir afturhvarfi syndaranna, fyrir frelsi og upphefð hinnar heilögu móður, kirkjunnar. Fyrir hinn sama Krist, Drottin vorn.

℟. Amen.

Heilagi höfuðengill, Mikael, vernda þú oss í baráttunni, ver þú vörn vor gegn illsku og vélráðum djöfulsins. Guð yfirbugi hann, um það biðjum vér auðmjúklega, og þú, höfðingi hinna himnesku hersveita,

aliósque spíritus malígnos, qui ad perditiónem animárum pervagántur in mundo, divína virtúte in inférnum detrúde.

℟. Amen.

℣. Cor Jesu sacratissimum.

℟. Miserére nobis *(ter)*.

steyp þú niður til vítis fyrir kraft Guðs djöflinum og hinum vondu öndunum, sem eru á sveimi til þess að spilla sálum mannanna.

℟. Amen.

℣. Allrahelgasta hjarta Jesú.

℟. Miskunna þú oss *(þrisvar)*.

## NÍUNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Ecce, Deus ádjuvat me, et Dóminus suscéptor est ánimæ meæ: avérte mala inimícis meis, et in veritáte tua dispérde illos, protéctor meus, Dómine. *Ps.* Deus, in nómine tuo salvum me fac: et in virtúte tua líbera me. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers,** *Sálm. 53, 6-7.* Sjá, Guð kemur mér til hjálpar, Drottinn, sem viðheldur lífi mínu; lát ógæfuna bitna á fjandmönnum mínum, eyð þeim af trúfesti þinni, (þú, Drottinn, verndari minn). *Sálm. 53. 3.* Frelsa mig, Guð, fyrir nafn þitt, rétt hlut minn fyrir mátt þinn. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Páteant aures misericórdiæ tuæ, Dómine, précibus supplicántium: et, ut peténtibus desideráta concédas; fac eos, quæ tibi sunt plácita, postuláre. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Drottinn, megi eyru miskunnar þinnar vera móttækileg fyrir bænir þeirra, sem leita til þín í auðmýkt, og til þess að þú uppfyllir óskir biðjenda, lát þá biðja um það, sem þér er velþóknanlegt. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 10, 6-13.*

FRATRES: Non simus concupiscéntes malórum, sicut et illi concupiérunt. Neque idolólatræ efficiámini, sicut quidam ex ipsis: quemádmodum scriptum est: Sedit pópulus manducáre et bíbere, et surrexérunt lúdere. Neque fornicémur, sicut quidam ex ipsis forni-

BRÆÐUR: Ekki séum vér sólgnir í það, sem illt er, eins og þeir [1] voru sólgnir í það. Og verðið ekki heldur skurðgoðadýrkendur, eins og nokkrir þeirra, eins og ritað er: Lýðurinn settist niður til að eta og drekka, og þeir stóðu upp til að skemmta sér [2]. Drýgjum ekki heldur hórdóm, eins og nokkrir

1) þ.e. Gyðingarnir í eyðimörkinni.
2) þ.e. færa gullkálfinum fórnir.

cáti sunt, et cecidérunt una die vigínti tria míllia. Neque tentémus Christum, sicut quidam eórum tentavérunt, et a serpéntibus periérunt. Neque murmuravéritis, sicut quidam eórum murmuravérunt, et periérunt ab exterminatóre. Hæc autem ómnia in figúra contingébant illis: scripta sunt autem ad correptiónem nostram, in quos fines sæculórum devenérunt. Itaque qui se exístimat stare, vídeat ne cadat. Tentátio vos non apprehéndat, nisi humána: fidélis autem Deus est, qui non patiétur vos tentári supra id, quod potéstis, sed fáciet étiam cum tentatióne provéntum, ut possítis sustinére.

**Graduale.** Dómine, Dóminus noster, quam admirábile est nomen tuum in univérsa terra! ℣. Quóniam eleváta est magnificéntia tua super cælos.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Eripe me de inimícis meis, Deus meus: et ab insurgéntibus in me líbera me. Allelúja.

þeirra drýgðu hórdóm, og tuttugu og þrjár þúsundir féllu á einum degi. Freistum ekki heldur Drottins (Krists), eins og nokkrir þeirra freistuðu hans og biðu bana af höggormum. Möglið ekki heldur, eins og nokkrir þeirra mögluðu og fórust fyrir eyðandanum. En allt þetta kom yfir þá sem fyrirboði, og það er ritað til viðvörunar oss, sem endir aldanna er kominn til[1]. Því gæti sá, er hyggst standa, vel að sér, að hann falli ekki. Yfir yður hefur ekki komið nema mannleg freisting, en Guð er trúr, sem ekki mun leyfa, að þér freistist yfir megn fram, heldur mun hann ásamt freistingunni einnig sjá um, að þér komizt út úr henni og fáið staðizt.

**Þrepsöngur.** *Sálm.8,2.* Drottinn, Herra vor, hve dásamlegt er nafn þitt um alla jörðina, ℣. því að hátign þín er hafin yfir himnana.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm 58, 2.* ℣. Frelsa mig frá óvinum mínum, Guð minn, vernda mig fyrir þeim, sem á mig ráðast. Allelúja.

1) þ.e. tímabilið, þegar það rætist, sem fyrirboðað var.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 19, 41-47.*

In illo témpore: Cum appropinquáret Jesus Jerúsalem, videns civitátem, flevit super illam, dicens: Quia si cognovísses et tu, et quidem in hac die tua, quæ ad pacem tibi, nunc autem abscóndita sunt ab óculis tuis. Quia vénient dies in te: et circúmdabunt te inimíci tui vallo, et circúmdabunt te: et coangustábunt te úndique: et ad terram prostérnent te, et fílios tuos, qui in te sunt, et non relínquent in te lápidem super lápidem: eo quod non cognóveris tempus visitatiónis tuæ. Et ingréssus in templum, cœpit ejícere vendéntes in illo et eméntes, dicens illis: Scriptum est: Quia domus mea domus oratiónis est. Vos autem fecístis illam spelúncam latrónum. Et erat docens quotídie in templo. – **Credo.**

**Offertorium.** Justítiæ Dómini rectæ, lætificántes corda, et judícia ejus dulcióra super mel et favum: nam et servus tuus custódit ea.

Á þeim tíma, er Jesús kom nær og sá borgina (Jerúsalem), grét hann yfir henni og mælti: Ef einnig þú hefðir á þessum degi vitað, hvað er þér til friðar, en nú er það hulið sjónum þínum. Því að þeir dagar munu koma yfir þig, að óvinir þínir munu gjöra hervirki um þig og setjast um þig og þröngva þér á alla vegu; og þeir munu leggja þig að velli og börn þín, sem í þér eru, og ekki skilja eftir stein yfir steini í þér, vegna þess, að þú þekktir ekki þinn vitjunartíma. Og hann gekk inn í helgidóminn og tók að reka út þá, er voru að selja, og sagði við þá: Ritað er: Og hús mitt á að vera bænahús; en þér hafið gjört það að ræningjabæli. Og daglega var hann að kenna í helgidóminum.

**Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 18, 9-12.* Fyrirmæli Drottins eru rétt, gleðja hjartað, og ákvæði hans eru sætari en hunang og hunangsseimur, og þjónn þinn varðveitir þau.

**Secreta.** Concéde nobis, quæsumus, Dómine, hæc digne frequentáre mystéria: quia, quóties hujus hóstiæ commemorátio celebrátur, opus nostræ redemptiónis exercétur. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit oss að taka iðulega með virðingu þátt í þessum leyndardómum, því að svo oft, sem þessi minningarfórn er færð, gjörist verk endurlausnar vorrar. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Qui mandúcat meam carnem et bibit meum sánguinem, in me manet et ego in eo, dicit Dóminus.

**Kommúníuvers.** *Jóh. 6, 57.* Sá, sem etur hold mitt og drekkur blóð mitt, er í mér og ég í honum (segir Drottinn).

**Postcommunio.** Tui nobis, quæsumus, Dómine, commúnio sacraménti, et purificatiónem cónferat, et tríbuat unitátem. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi þátttaka vor í sakramenti þínu hreinsa oss og færa oss einingu. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## TÍUNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Cum clamárem ad Dóminum, exaudívit vocem meam, ab his, qui appropínquant mihi: et humiliávit eos, qui est ante sæcula et manet in ætérnum: jacta cogitátum tuum in Dómino, et ipse te enútriet. *Ps.* Exáudi, Deus, oratiónem meam, et ne despéxeris deprecatiónem meam: inténde mihi et exáudi me. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 54, 17, 18, 20 og 23.* Ég mun hrópa til Drottins, og hann mun bjarga mér frá þeim, sem ráðast gegn mér; hann mun auðmýkja þá, hann, sem er frá eilífð til eilífðar; varpa áhyggjum þínum upp á Drottin, og hann mun sjá fyrir þér. *Sálm. 54, 2.* Guð, hlýð á bæn mína, fel þig ekki fyrir grátbeiðni minni, gef mér gaum og svara mér. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui omnipoténtiam tuam parcéndo máxime et miserándo maniféstas: multíplica super nos misericórdiam tuam; ut, ad tua promíssa curréntes, cæléstium bonórum fácias esse consórtes. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem opinberar almætti þitt helzt með því að þyrma og miskunna, auðsýn oss miskunn þína í ríkari mæli, svo að vér, sem keppum eftir heitum þínum, megum verða hluttakendur í hinum himnesku gæðum. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna.* 12, 2-11.

FRATRES: Scitis, quóniam, cum gentes essétis, ad simulácra muta prout ducebámini eúntes. Ideo notum vobis fácio, quod nemo in Spíritu Dei loquens, dicit anáthema Jesu. Et nemo potest dícere, Dóminus Jesus, nisi in Spíritu Sancto. Divisiónes vero gratiárum sunt, idem autem Spíritus. Et divisiónes ministratiónum sunt, idem autem Dóminus. Et divisiónes operatiónum sunt, idem vero Deus, qui operátur ómnia in ómnibus. Unicuique autem datur manifestátio Spíritus ad utilitátem. Alii quidem per Spíritum datur sermo sapiéntiæ: álii autem sermo sciéntiæ secúndum eúndem Spíritum: álteri fides in eódem

BRÆÐUR: Þér vitið, að þegar þér voruð heiðingjar, þá létuð þér leiða yður til mállausra skurðgoðanna rétt eins og verkast vildi. Fyrir því læt ég yður vita, að enginn, sem talar af Guðs Anda, segir: Bölvaður sé Jesús; og enginn getur sagt: Drottinn Jesús, nema af Heilögum Anda. Mismunur er á náðargáfum, en Andinn hinn sami; og mismunur er á embættum, en Drottinn hinn sami; og mismunur er á framkvæmdum, en Guð hinn sami, sem öllu kemur til leiðar í öllum. En opinberun Andans er gefin sérhverjum til þess, sem gagnlegt er. Því að einum veitist fyrir Andann að mæla af speki, en öðrum að mæla af þekkingu, samkvæmt sama Anda; öðrum trú í hinum sama

Spíritu: álii grátia sanitátum in uno Spíritu: álii operátio virtútum, álii prophetía, álii discrétio spiríituum, álii génera linguárum, álii interpretátio sermónum. Hæc autem ómnia operátur unus atque idem Spíritus, dívidens síngulis, prout vult.

Anda; öðrum lækningagáfur í einum og sama Anda; öðrum framkvæmdir kraftaverka; öðrum spámannleg gáfa; öðrum greining anda; öðrum tungutalsgáfa; en öðrum útlegging tungna. En öllu þessu kemur til leiðar eini og sami Andinn, sem úthlutar hverjum einum út af fyrir sig eftir vild sinni.

**Graduale.** Custódi me, Dómine, ut pupíllam óculi: sub umbra alárum tuárum prótege me. ℣. De vultu tuo judícium meum pródeat: óculi tui vídeant æquitátem.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 16, 8 og 2.* Varðveit mig sem sjáaldur augans, fel mig í skugga vængja þinna. ℣. Lát rétt minn út ganga frá augliti þínu, augu þín sjá það, sem rétt er.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Te decet hymnus, Deus, in Sion: et tibi reddétur votum in Jerúsalem. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 64, 2.* ℣. Þér, Guð, ber lofsöngur í Síon, og við þig sé heitið efnt (í Jerúsalem). Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 18, 9-14.*

In illo témpore: Dixit Jesus ad quosdam, qui in se confidébant tamquam justi et aspernabántur céteros, parábolam istam: Duo hómines ascendérunt in templum, ut orárent: unus pharisæus, et alter publicánus. Pharisæus stans, hæc apud se orábat: Deus, grátias ago tibi, quia non sum sicut céteri

Á þeim tíma mælti Jesús til nokkurra, sem treystu sjálfum sér, að þeir væru réttlátir, og fyrirlitu aðra, þessa dæmisögu: Tveir menn gengu upp í helgidóminn til að biðjast fyrir; annar var Farísei og hinn tollheimtumaður. Faríseinn stóð og baðst þannig fyrir með sjálfum sér: Guð, ég þakka þér, að ég er ekki eins og aðrir menn:

hóminum: raptóres, injústi, adúlteri: velut étiam hic publicánus. Jejúno bis in sábbato: décimas do ómnium, quæ possídeo. Et publicánus a longe stans nolébat nec óculos ad cælum leváre: sed percutiébat pectus suum, dicens: Deus, propítius esto mihi peccatóri. Dico vobis: descéndit hic justificátus in domum suam ab illo: quia omnis qui se exáltat, humiliábitur: et qui se humíliat, exaltábitur. – **Credo.**

ræningjar, ranglætismenn, hórkarlar eða þá eins og þessi tollheimtumaður. Ég fasta tvisvar í viku og geld tíund af öllu, sem ég eignast. En tollheimtumaðurinn stóð langt frá og vildi ekki einu sinni hefja augu sín til himins, heldur barði sér á brjóst og sagði: Guð, vertu mér syndugum líknsamur. Ég segi yður: Þessi maður fór réttlættur heim til sín, en hinn ekki, því að sérhver, sem upphefur sjálfan sig, mun niðurlægjast, en sá, sem niðurlægir sjálfan sig, mun upphafinn verða. – **Credo.**

**Offertorium.** Ad te, Dómine, levávi ánimam meam: Deus meus, in te confído, non erubéscam: neque irrídeant me inimíci mei: étenim univérsi, qui te exspéctant, non confundéntur.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 24, 1-3.* Til þín, Drottinn, hef ég sál mína, Guð minn, á þig set ég traust mitt, lát mig hvorki þurfa að fyrirverða mig né óvini mína draga dár að mér, því að enginn, sem festir von sína á þig, mun forsmán hljóta.

**Secreta.** Tibi, Dómine, sacrifícia dicáta reddántur: quæ sic ad honórem nóminis tui deferénda tribuísti, ut éadem remédia fíeri nostra præstáres. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, helgist þér þessar fórnargjafir, sem þú hefur veitt oss að bera fram, nafni þínu til heiðurs, þannig, að þær mættu verða oss að læknisdómi. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar,* *sjá bls. 25.*

**Communio.** Acceptábis sacrifícium justítiæ, oblatió-

**Kommúníuvers.** *Sálm. 50, 21.* Þú munt hafa þóknun á

nes et holocáusta, super altáre tuum, Dómine.

réttum fórnum, á brennifórn og alfórn á altari þínu, Drottinn.

**Postcommunio.** Quæsumus, Dómine, Deus noster: ut, quos divínis reparáre non désinis sacraméntis, tuis non destítuas benígnus auxíliis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, Guð vor, að af miskunnsemi þinni sviptir þú ekki hjálp þinni þá, sem þú lætur ekki af að endurnýja með guðlegum sakramentum. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## ELLEFTI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Deus in loco sancto suo: Deus qui inhabitáre facit unánimes in domo: ipse dabit virtútem et fortitúdinem plebi suæ. *Ps.* Exsúrgat Deus, et dissipéntur inimíci ejus: et fúgiant, qui odérunt eum, a fácie ejus. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 67, 6-7 og 36.* Guð er í sínum heilaga bústað. Guð býr hinum einmana dvalarstað, hann veitir lýðnum mátt og megin. *Sálm. 67, 2.* Guð rís upp, óvinir hans tvístrast, og hatursmenn hans flýja fyrir augliti hans. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui, abundántia pietátis tuæ, et mérita súpplicum excédis et vota: effúnde super nos misericórdiam tuam; ut dimíttas quæ consciéntia métuit, et adjícias quod orátio non præsúmit. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Almáttugi eilífi Guð, þú, sem af gnægð föðurelsku þinnar veitir þeim, er biðja til þín með auðmýkt, meira en þeir verðskulda eða biðja um, úthell yfir oss miskunn þinni, svo að þú nemir burt það, sem hrjáir samvizkuna, og veitir þar að auki það, sem vér áræðum ekki að biðja um. Fyrir Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 15, 1-10.*

FRATRES: Notum vobis fácio Evangélium, quod prædicávi vobis, quod et accepístis, in quo et statis, per quod et salvámini: qua ratióne prædicáverim vobis, si tenétis, nisi frustra credidístis. Trádidi enim vobis in primis, quod et accépi: quóniam Christus mórtuus est pro peccátis nostris secúndum Scriptúras: et quia sepúltus est, et quia resurréxit tértia die secúndum Scriptúras: et quia visus est Cephæ, et post hoc úndecim. Deínde visus est plus quam quingéntis frátribus simul, ex quibus multi manent usque adhuc, quidam autem dormiérunt. Deínde visus est Jacóbo, deínde Apóstolis ómnibus: novíssime autem ómnium tanquam abortívo, visus est et mihi. Ego enim sum mínimus Apostolórum, qui non sum dignus vocári Apóstolus, quóniam persecútus sum Ecclésiam Dei. Grátia autem Dei sum id quod sum, et grátia ejus in

BRÆÐUR: Ég minni yður á fagnaðarerindið, sem ég boðaði yður, sem þér og veittuð viðtöku, sem þér einnig standið stöðugir í, sem þér og verðið hólpnir fyrir, ef þér haldið fast við það, eins og ég hef boðað yður það, nema svo skyldi vera, að þér hafið ófyrirsynju trúna tekið. Því að það boðaði ég yður fyrst og fremst, sem ég einnig hef meðtekið, að Kristur dó vegna synda vorra, samkvæmt Ritningunum, og að hann var grafinn, og að hann er upprisinn á þriðja degi, samkvæmt Ritningunum, og að hann birtist Kefasi[1], síðan þeim tólf; síðan birtist hann meira en fimm hundruð bræðrum í einu, sem flestir eru á lífi allt til þessa, en nokkrir eru sofnaðir. Síðan birtist hann Jakobi, því næst postulunum öllum. En síðast allra birtist hann einnig mér eins og ótímaburði, því að ég er síztur postulanna og er ekki þess verður að kallast postuli, vegna þess að ég ofsótti kirkju Guðs. En af Guðs náð er ég það, sem ég er, og náð hans

1) þ.e. Pétri.

me vácua non fuit.

við mig hefur ekki orðið til ónýtis.

**Graduale.** In Deo sperávit cor meum, et adjútus sum: et reflóruit caro mea, et ex voluntáte mea confitébor illi. ℣. Ad te, Dómine, clamávi: Deus meus, ne síleas, ne discédas a me.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 27, 7 og 1.* Guði treysti hjarta mitt, og ég hlaut hjálp; því fagnar hjarta mitt, og með ljóðum mínum lofa ég hann. ℣. Til þín, Drottinn, hrópa ég, þú, bjarg mitt, ver eigi hljóður gagnvart mér.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Exsultáte Deo, adjutóri nostro, jubiláte Deo Jacob: súmite psalmum jucúndum cum cíthara. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 80, 2-3.* ℣. Fagnið Guði, hjálpara vorum, lofsyngið Guði Jakobs með fagnaðarópum. Hefjið lofsöng, og knýið hinar hugljúfu hörpur. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Markúsarguðspjalls. 7, 31-37.*

In illo témpore: Exiens Jesus de fínibus Tyri, venit per Sidónem ad mare Galilææ, inter médios fines Decapóleos. Et addúcunt ei surdum et mutum, et deprecabántur eum, ut impónat illi manum. Et apprehéndens eum de turba seórsum, misit dígitos suos in aurículas ejus: et éxspuens, tétigit linguam ejus: et suspíciens in cælum, ingémuit, et ait illi: Ephphetha, quod est adaperíre. Et statim apértæ sunt aures ejus, et solútum est

Á þeim tíma fór Jesús burt frá Týrusarbyggðum og fór um Sídon til Galíleuvatns, um miðjar Dekapólisbyggðir. Og þeir færa honum mann, daufan og málhaltan, og þeir biðja hann að leggja hönd sína yfir hann. Og hann vék honum afsíðis frá mannfjöldanum, stakk fingrum sínum í eyru honum og vætti tungu hans með munnvatni sínu. Og hann leit upp til himins, andvarpaði og segir við hann: Effata. Það er: opnist þú. Og eyru hans opnuðust, og haft tungu hans losnaði, og hann

vínculum linguæ ejus, et loquebátur recte. Et præcépit illis, ne cui dícerent. Quanto autem eis præcipiébat, tanto magis plus prædicábant: et eo ámplius admirabántur, dicéntes: Bene ómnia fecit: et surdos fecit audíre et mutos loqui. – **Credo.**

**Offertorium.** Exaltábo te, Dómine, quóniam suscepísti me, nec delectásti inimícos meos super me: Dómine, clamávi ad te, et sanásti me.

**Secreta.** Réspice, Dómine, quæsumus, nostram propítius servitútem: ut, quod offérimus, sit tibi munus accéptum, et sit nostræ fragilitátis subsídium. Per Dóminum nostrum . . .

talaði rétt. Og hann bannaði þeim að segja nokkrum frá því; en því meir, sem hann bannaði þeim það, því meir báru þeir það út. Og þeir undruðust næsta mjög og sögðu: Allt hefur hann gjört vel, daufa lætur hann heyra og mállausa mæla. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 29, 2-3.* Ég mun vegsama þig, Drottinn, því að þú hefur upphafið mig og eigi látið óvini mína hlakka yfir mér. Drottinn, ég hrópaði til þín, og þú hefur læknað mig.

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum þig, lít þú náðarsamlega á þjónustu vora, svo að fórn vor sé þér velþóknanleg og oss til stuðnings í breyskleika vorum. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Honóra Dóminum de tua substántia, et de primítiis frugum tuárum: et implebúntur hórrea tua saturitáte, et vino torculária redundábunt.

**Postcommunio.** Sentiámus, quæsumus, Dómine, tui perceptióne sacraménti, subsídium mentis et córporis: ut, in utróque salváti,

**Kommúníuvers.** *Orðskv. 3, 9-10.* Tigna Drottin með eigum þínum og með frumgróða allrar uppskeru þinnar, þá munu hlöður þínar verða nægtafullar og vínberjalögurinn flóa út af vínlagarþróm þínum.

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, lát oss fyrir meðtöku sakramentis þíns kenna hjálpar á sál og líkama, svo að þegar hvorttveggja er

cæléstis remédii plenitúdine gloriémur. Per Dóminum nostrum . . .

heilt orðið, megum vér fagna yfir gnægð þessa himneska læknisdóms. Fyrir Drottin vorn . . .

## TÓLFTI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus**. Deus, in adjutórium meum inténde: Dómine, ad adjuvándum me festína: confundántur et revereántur inimíci mei, qui quærunt ánimam meam. *Ps.* Avertántur retrórsum et erubéscant: qui cógitant mihi mala. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio**. Omnípotens et miséricors Deus, de cujus múnere venit, ut tibi a fidélibus tuis digne et laudabíliter serviátur: tríbue, quæsumus, nobis; ut ad promissiónes tuas sine offensióne currámus. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers**. *Sálm. 69, 2-3.* Guð, lát þér þóknast að frelsa mig, skunda, Drottinn, mér til hjálpar. Lát þá verða til skammar og hljóta kinnroða, er sitja um líf mitt. *Sálm. 69, 4.* Lát þá hörfa undan með skömm, sem óska mér ógæfu. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta**. Almáttugi og miskunnsami Guð, það er náðargjöf þín, að þínir trúuðu þjóni þér verðuglega og lofsamlega; vér biðjum þig, veit oss, að vér sækjumst eftir fyrirheitum þínum án þess að hrasa. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr síðara bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 3, 4-9.*

FRATRES: Fidúciam talem habémus per Christum ad Deum: non quod sufficiéntes simus cogitáre áliquid a nobis, quasi ex nobis: sed sufficiéntia nostra ex Deo est: qui et idóneos nos fecit minístros novi testaménti: non

BRÆÐUR: Þetta traust höfum vér til Guðs fyrir hinn Smurða. Ekki svo, að vér af sjálfum oss séum hæfir til að kveða upp nokkurn úrskurð eins og af sjálfum oss, heldur er hæfileiki vor frá Guði, honum, sem og hefur gjört oss hæfa til að

líttera, sed spíritu: líttera enim occídit, spíritus autem vivíficat. Quod si ministrátio mortis, lítteris deformáta in lapídibus, fuit in glória; ita ut non possent inténdere fílii Israel in fáciem Móysi, propter glóriam vultus ejus, quæ evacuátur: quómodo non magis ministrátio Spíritus erit in glória? Nam si ministrátio damnatiónis glória est: multo magis abúndat ministérium justítiæ in glória.

**Graduale.** Benedícam Dóminum in omni témpore: semper laus ejus in ore meo. ℣. In Dómino laudábitur ánima mea: áudiant mansuéti, et læténtur.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Dómine, Deus salútis meæ, in die clamávi et nocte coram te. Allelúja.

vera þjóna nýs sáttmála, ekki bókstafs, heldur anda; því að bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar. En ef þjónusta dauðans, sem letruð var og höggvin á steina, kom fram í dýrð, svo að Ísraelsmenn gátu ekki horft framan í Móse, vegna ljómans af ásýnd hans, sem var forgengileg, hversu miklu fremur mun þá þjónusta andans koma fram í dýrð? Því að ef þjónusta fyrirdæmingarinnar var dýrleg, þá er þjónusta réttlætisins ennþá miklu auðugri að dýrð.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 33, 2-3.* Ég mun vegsama Drottin alla tíma; ætíð sé lof hans mér í munni. ℣. Sál mín hrósar sér af Drottni, hinir lítillátu heyri það og fagni.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 87, 2.* ℣. Drottinn, Guð (hjálpræðis míns), ég kalla um daga, um nætur kveina ég frammi fyrir þér. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 10, 23-37.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis: Beáti óculi, qui vident quæ vos vidétis. Dico enim vobis, quod multi prophétæ et reges vo-

Á þeim tíma mælti Jesús til lærisveina sinna: Sæl eru þau augu, er sjá það, sem þér sjáið. Því að ég segi yður, að margir spámenn og konungar

luérunt vidére quæ vos vidétis, et non vidérunt: et audíre quæ audítis, et non audiérunt. Et ecce, quidam legisperítus surréxit, tentans illum, et dicens: Magíster, quid faciéndo vitam ætérnam possidébo? At ille dixit ad eum: In lege quid scriptum est? quómodo legis? Ille respóndens, dixit: Díliges Dóminum, Deum tuum, ex toto corde tuo, et ex tota ánima tua, et ex ómnibus víribus tuis, et ex omni mente tua: et próximum tuum sicut teípsum. Dixítque illi: Recte respondísti: hoc fac, et vives. Ille autem volens justificáre seípsum, dixit ad Jesum: Et quis est meus próximus? Suscípiens autem Jesus, dixit: Homo quidam descendébat ab Jerúsalem in Jéricho, et íncidit in latrónes, qui étiam despoliavérunt eum: et plagis impósitis abiérunt, semivívo relícto. Accidit autem, ut sacérdos quidam descénderet eádem via: et viso illo prætérivit. Simíliter et levíta, cum esset secus locum et vidéret eum, pertránsiit. Samaritánus autem quidam

hafa viljað sjá það, sem þér sjáið, og sáu það ekki, og heyra það, sem þér heyrið, og heyrðu það ekki. Og sjá, lögvitringur nokkur stóð upp til að freista hans og mælti: Meistari, hvað á ég að gjöra, til þess að eignast eilíft líf? En hann sagði við hann: Hvað er skrifað í lögmálinu? Hvernig lest þú þar? Hann svaraði og sagði: Elska skalt þú Drottin, Guð þinn, af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og af öllum mætti þínum og af öllum huga þínum, og náunga þinn eins og sjálfan þig. En hann sagði við hann: Þú svaraðir rétt; gjör þú þetta, og þú munt lifa. En þar sem hann vildi réttlæta sjálfan sig, sagði hann við Jesúm; Hver er þá náungi minn? Jesús svaraði og sagði: Maður nokkur ferðaðist frá Jerúsalem niður til Jeríkó og féll í hendur ræningjum, sem flettu hann klæðum og börðu hann og fóru síðan burt og skildu hann eftir hálfdauðan. En af hendingu fór prestur nokkur niður veg þennan, og er hann sá hann, vék hann úr vegi og gekk fram hjá. Sömuleiðis kom og Levíti þar að og sá hann, en vék einnig úr vegi og gekk fram hjá. En Samverji

iter fáciens, venit secus eum: et videns eum, misericórdia motus est. Et appropians, alligávit vúlnera ejus, infúndens óleum et vinum: et impónens illum in juméntum suum, duxit in stábulum, et curam ejus egit. Et áltera die prótulit duos denários et dedit stabulário, et ait: Curam illíus habe: et quodcúmque supererogáveris, ego cum rediero, reddam tibi. Quis horum trium vidétur tibi próximus fuísse illi, qui íncidit in latrónes? At ille dixit: Qui fecit misericórdiam in illum. Et ait illi Jesus: Vade, et tu fac simíliter. – **Credo.**

nokkur, er var á ferð, kom að honum, og er hann sá hann, kenndi hann í brjósti um hann; og hann gekk til hans og batt um sár hans og hellti í þau olíu og víni; og hann setti hann upp á sinn eigin eyk og flutti hann til gistihúss og bar umhyggju fyrir honum. Og daginn eftir tók hann upp tvo denara og fékk gestgjafanum og mælti: Al þú önn fyrir honum, og það, sem þú kostar meiru til, skal ég endurgjalda þér, þegar ég kem aftur. Hver af þessum þremur sýnist þér hafa reynzt náungi manninum, sem féll í hendur ræningjunum? En hann mælti: Sá, sem miskunnarverkið gjörði á honum. Og Jesús sagði við hann: Far þú og gjör þú slíkt hið sama. – **Credo.**

**Offertorium.** Precátus est Móyses in conspéctu Dómini, Dei sui, et dixit: Quare, Dómine, irásceris in pópulo tuo? Parce iræ ánimæ tuæ: meménto Abraham, Isaac et Jacob, quibus jurásti dare terram fluéntem lac et mel. Et placátus factus est Dóminus de malignitáte, quam dixit fácere pópulo suo.

**Fórnunarvers.** *Sbr. 2. Mós. 32, 11, 13 og 14.* Móse grátbað Drottin, Guð sinn, og sagði: Hví skal, Drottinn, reiði þín upptendrast í gegn fólki þínu? Snú þér frá þinni brennandi reiði. Minnztu Abrahams, Ísaks og Jakobs, sem þú hefur svarið að gefa landið, sem flýtur í mjólk og hunangi. Og Drottinn blíðkaðist og lét af því illa, sem hann hafði hótað að gjöra fólki sínu.

**Secreta.** Hóstias, quæsumus, Dómine, propítius inténde, quas sacris altáribus exhibémus: ut, nobis indulgéntiam largiéndo, tuo nómini dent honórem. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum þig, lít náðarsamlega þær fórnargjafir, sem vér berumfram á heilögum ölturum þínum, svo að með því að ávinna oss fyrirgefningu, verði þær nafni þínu til heiðurs. Fyrir Drottin vorn...

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** De fructu óperum tuórum, Dómine, satiábitur terra: ut edúcas panem de terra, et vinum lætíficet cor hóminis: ut exhílaret fáciem in óleo, et panis cor hóminis confírmet.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 103, 13, og 14-15.* Jörðin mettast af ávexti verka þinna, Drottinn, þar sem þú framleiðir brauð af jörðunni og vín, sem gleður hjarta mannsins, og olíu, sem gjörir andlitið ljómandi, og brauð, sem hressir hjarta mannsins.

**Postcommunio.** Vivíficet nos, quæsumus, Dómine, hujus participátio sancta mystérii: et páriter nobis expiatiónem tríbuat et munímen. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi heilög hluttaka í þessum leyndardómi lífga oss og einnig veita oss vernd og uppgjöf syndanna. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## ÞRETTÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Respice, Dómine, in testaméntum tuum, et ánimas páuperum tuórum ne derelínquas in finem: exsúrge, Dómine, et júdica causam tuam, et ne obliviscáris voces quæréntium te. *Ps.* Ut quid, Deus, repulísti in finem: irátus est furor tuus

**Inngönguvers.** *Sálm. 73, 20, 19 og 23.* Gef gætur, Drottinn, að sáttmála þínum, og gleym eigi um aldur lífi þinna voluðu. Rís upp, Drottinn, og ver málstað þinn. Gleym eigi ópum andstæðinga þinna. *Sálm. 73 ,1.* Hví hefur þú, Guð, vísað frá um eilífð, hví tendrast reiði þín

super oves páscuæ tuæ? ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Omnipotens sempitérne Deus, da nobis fidei, spei et caritátis augméntum: et, ut mereámur ássequi quod promittis, fac nos amáre quod præcipis. Per Dóminum nostrum . . .

gegn sauðum haga þins? ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, auk i oss trú, von og kærleika, og lát oss elska það, sem þú fyrirskipar, til þess að vér verðskuldum að öðlast það, sem þú gefur fyrirheit um. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Galatamanna. 3, 16-22.*

FRATRES: Abrahæ dictæ sunt promissiónes, et sémini ejus. Non dicit: Et seminibus, quasi in multis; sed quasi in uno: Et sémini tuo, qui est Christus. Hoc autem dico: testaméntum confirmátum a Deo, quæ post quadringéntos et trigínta annos facta est lex, non írritum facit ad evacuándam promissiónem. Nam si ex lege heréditas, jam non ex promissióne. Abrahæ autem per repromissiónem donávit Deus. Quid ígitur lex? Propter transgressiónes pósita est, donec veníret semen, cui promiserat, ordináta per Angelos in manu mediatóris. Mediátor autem uníus non est: Deus autem unus est. Lex ergo advérsus

BRÆÐUR: Fyrirheitin voru gefin Abraham og afkvæmi hans. Hann (Guð) segir ekki: og afkvæmum, eins og margir ættu i hlut, heldur: og afkvæmi þínu, eins og þegar um einn er að ræða, og það er Kristur. Með þessu vildi ég sagt hafa: sáttmála, sem fyrirfram var staðfestur af Guði, getur lögmálið, sem kom fjögur hundruð og þrjátíu árum siðar, ekki ónýtt, svo að það felli fyrirheitið úr gildi. Sé þvi þá svo farið, að arfurinn fáist með lögmáli, þá fæst hann ekki framar með fyrirheiti, en Guð veitti Abraham náð sina með fyrirheiti. Hvað er þá lögmálið? Vegna afbrotanna var því bætt við, þangað til afkvæmið kæmi, sem fyrirheitið hljóðaði um. Fyrir umsýslan engla er það

promíssa Dei? Absit. Si enim data esset lex, quæ posset vivificáre, vere ex lege esset justítia. Sed conclúsit Scriptúra ómnia sub peccáto, ut promíssio ex fide Jesu Christi darétur credéntibus.

boðað fyrir hönd meðalgangara. En meðalgangara gjörist ekki þörf, þar sem einn á í hlut, en Guð er einn. Er þá lögmálið gegn fyrirheitum Guðs? Fjarri fer því. Því að ef það lögmál hefði verið gefið, sem hefði getað lífgað, þá fengist réttlætið vissulega með lögmáli. En Ritningin hefur innilokað allt undir synd, til þess að fyrirheitið veitist fyrir trú á Jesúm Krist, þeim, sem trúa.

**Graduale.** Réspice, Dómine, in testaméntum tuum: et ánimas páuperum tuórum ne obliviscáris in finem. ℣. Exsúrge, Dómine, et júdica causam tuam: memor esto oppróbrii servórum tuórum.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 73, 20 og 22.* Gef gætur, Drottinn, að sáttmála þínum, og gleym eigi um aldur lífi þinna voluðu. ℣. Rís upp, Drottinn, og ver málstað þinn. Minnzt þú háðungar þeirrar, er þú sætir af þjónum þínum.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Dómine, refúgium factus es nobis a generatióne et progénie. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 89, 1.* ℣. Drottinn, þú hefur gjörzt athvarf vort frá kyni til kyns. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 17, 11-19.*

In illo témpore: Dum iret Jesus in Jerúsalem, transíbat per médiam Samaríam et Galilæam. Et cum ingrederétur quoddam castéllum, occurrérunt ei decem viri leprósi, qui stetérunt a longe; et levavérunt vocem dicéntes: Jesu præcéptor, miserére

Á þeim tíma, er Jesús var á ferðinni til Jerúsalem, fór hann um miðja Samaríu og Galíleu. Og er hann kom inn í þorp nokkurt, mættu honum tíu menn líkþráir, er stóðu langt frá. Og þeir hófu upp raust sína og sögðu: Jesús, meistari, miskunna þú oss. Og

nostri. Quos ut vidit, dixit: Ite, osténdite vos sacerdótibus. Et factum est, dum irent, mundáti sunt. Unus autem ex illis, ut vidit quia mundátus est, regréssus est, cum magna voce magníficans Deum, et cécidit in fáciem ante pedes ejus, grátias agens: et hic erat Samaritánus. Respóndens autem Jesus, dixit: Nonne decem mundáti sunt? et novem ubi sunt? Non est invéntus, qui redíret et daret glóriam Deo, nisi hic alienígena. Et ait illi: Surge, vade; quia fides tua te salvum fecit. – **Credo.**

er hann leit þá, sagði hann við þá: Farið og sýnið yður prestunum. Og svo bar við, er þeir fóru, að þeir urðu hreinir. En einn af þeim sneri aftur, er hann sá, að hann var heill orðinn, og lofaði Guð með hárri raustu og féll á ásjónu sína að fótum hans (Jesú) og þakkaði honum, og hann var Samverji. En Jesús svaraði og sagði: Urðu ekki þeir tíu hreinir: Hvar eru þeir níu? Voru engir, sem sneru aftur, til þess að gefa Guði dýrðina, nema þessi útlendingur? Og hann sagði við hann; Statt upp og far leiðar þinnar; trú þín hefur gjört þig heilan.

**Credo.**

**Offertorium.** In te sperávi, Dómine; dixi: Tu es Deus meus, in mánibus tuis témpora mea.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 30, 15-16.* Ég treysti þér, Drottinn, ég segi: Þú ert Guð minn, í þinni hendi eru örlög mín.

**Secreta.** Propitiáre, Dómine, pópulo tuo, propitiáre munéribus: ut, hac oblatióne placátus, et indulgéntiam nobis tríbuas et postuláta concédas. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, lít náðarsamlega lýð þinn, lít náðarsamlega þessar gjafir; svo að þú veitir oss, sáttur vegna þessarar fórnar, fyrirgefningu og bænheyrir oss. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Panem de cælo dedísti nobis, Dómine, habéntem omne delecta-

**Kommúníuvers.** *Spek. Sal. 16, 20.* Drottinn, þú gafst oss brauð af himni (englafæðu), sem

méntum et omnem sapórem suavitátis.

**Postcommunio.** Sumptis, Dómine, cæléstibus sacraméntis: ad redemptiónis ætérnæ, quæsumus, proficiámus augméntum. Per Dóminum nostrum . . .

felur í sér alla unaðssemd og allt ljúffengi.

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér höfum neytt hinna himnesku leyndardóma og biðjum þig, að oss megi hlotnast að stuðla í ríkari mæli að eilífri endurlausn vorri. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## FJÓRTÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Protector noster, áspice, Deus, et réspice in fáciem Christi tui: quia mélior est dies una in átriis tuis super míllia. *Ps.* Quam dilécta tabernácula tua, Dómine virtútum! concupíscit, et déficit ánima mea in átria Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 83, 10-11.* Guð, skjöldur vor, sjá og lít ásjónu þíns smurða[1], því að einn dagur í forgörðum þínum er betri en þúsund aðrir. *Sálm. 83, 2-3.* Hversu yndislegir eru bústaðir þínir, Drottinn hersveitanna. Sál mína langar til forgarða Drottins, já, hún örmagnast af þrá. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Custódi, Dómine, quæsumus Ecclésiam tuam propitiatióne perpétua: et quia sine te lábitur humána mortálitas; tuis semper auxíliis et abstrahátur a nóxiis et ad salutária dirigátur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, varðveit kirkju þína fyrir stöðuga gæzku, og þar eð mannlegur vanmáttur örmagnast án þín, megi hjálp þín ávallt firra hana öllu skaðlegu og beina henni að því, sem heillavænlegt er. Fyrir Drottin vorn...

---

1) æðsta prestsins.

## Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Galatamanna. 5, 16-24.*

FRATRES: Spíritu ambuláte, et desidéria carnis non perficiétis. Caro enim concupíscit advérsus spíritum, spíritus autem advérsus carnem: hæc enim sibi ínvicem adversántur, ut non quæcúmque vultis, illa faciátis. Quod si spíritu ducímini, non estis sub lege. Manifésta sunt autem ópera carnis, quæ sunt fornicátio, immundítia, impudicítia, luxúria, idolórum sérvitus, venefícia, inimicítiæ, contentiónes, æmulatiónes, iræ, rixæ, dissensiónes, sectæ, invídiæ, homicídia, ebrietátes, comessatiónes, et his simília: quæ prædíco vobis, sicut prædíxi: quóniam, qui tália agunt, regnum Dei non consequéntur. Fructus autem Spíritus est: cáritas, gáudium, pax, patiéntia, benígnitas, bónitas, longanímitas, mansuetúdo, fides, modéstia, continéntia, cástitas. Advérsus hujúsmodi non est lex. Qui autem sunt Christi, carnem suam crucifixérunt cum vítiis et concupiscéntiis.

BRÆÐUR: Framgangið í andanum, og þá munuð þér ekki fullnægja girnd holdsins. Því að holdið girnist gegn andanum, og andinn gegn holdinu, því að þetta stendur hvort gegn öðru, svo að þér gjörið ekki það, sem þér vilduð. En ef þér leiðist af andanum, þá eruð þér ekki undir lögmálinu. En holdsins verk eru augljós, og þau eru: frillulífi, óhreinleikur, saurlífi, óskírlífi, skurðgoðadýrkun, fjölkynngi, fjandskapur, deilur, afbrýðissemi, reiði (rifrildi), tvídrægni, flokkadráttur, öfund (manndráp), ofdrykkja, svall og annað þessu líkt; og um það segi ég yður fyrir, eins og ég hef áður sagt fyrir, að þeir, sem slíkt gjöra, munu ekki erfa Guðsríki, En ávöxtur andans er: kærleikur, gleði, friður, þolinmæði, gæzka, góðvild, langlyndi, hógværð (trúmennska, hófsemi), bindindi, (hreinlífi); gegn slíku er ekkert lögmál. En þeir, sem eru Krists, hafa krossfest holdið með ástríðum þess og girndum.

**Graduale.** Bonum est confídere in Dómino, quam confídere in hómine. ℣. Bonum est speráre in Dómino, quam speráre in princípibus.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 117, 8-9.* Betra er að leita hælis hjá Drottni, en að treysta mönnum. ℣. Betra er að leita hælis hjá Drottni, en að treysta höfðingjum.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Veníte, exsultémus Dómino, jubilémus Deo, salutári nostro. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 94, 1.* ℣. Komið, fögnum fyrir Drottni, látum gleðióp gjalla fyrir kletti hjálpræðis vors (fyrir Guði, hjálpræði voru). Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 6, 24-33.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis: Nemo potest duóbus dóminis servíre: aut enim unum ódio habébit, et álterum díliget: aut unum sustinébit, et álterum contémnet. Non potéstis Deo servíre et mammónæ. Ideo dico vobis, ne sollíciti sitis ánimæ vestræ, quid manducétis, neque córpori vestro, quid induámini. Nonne ánima plus est quam esca: et corpus plus quam vestiméntum? Respícite volatília cæli, quóniam non serunt neque metunt neque cóngregant in hórrea: et Pater vester cæléstis pascit illa. Nonne vos magis pluris estis illis?

Á þeim tíma mælti Jesús til lærisveina sinna: Enginn getur þjónað tveimur herrum, því að annaðhvort mun hann hata annan og elska hinn, eða aðhyllast annan og lítilsvirða hinn. Þér getið ekki þjónað Guði og mammoni. Þess vegna segi ég yður: Verið ekki áhyggjufullir um líf yðar, hvað þér eigið að eta, ekki heldur um líkama yðar, hverju þér eigið að klæðast. Er ekki lífið meira en fæðan og líkaminn meira en klæðnaðurinn? Lítið til fugla himinsins, þeir sá ekki né uppskera, og þeir safna ekki heldur í hlöður, og yðar himneski Faðir fæðir þá, eruð þér ekki miklu fremri en þeir? En hver

Quis autem vestrum cógitans potest adjícere ad statúram suam cúbitum unum? Et de vestiménto quid sollíciti estis? Consideráte lília agri, quómodo crescunt: non labórant neque nent. Dico autem vobis, quóniam nec Sálomon in omni glória sua coopértus est sicut unum ex istis. Si autem fœnum agri, quod hódie est et cras in clíbanum míttitur, Deus sic vestit; quanto magis vos módicæ fídei? Nolíte ergo sollíciti esse, dicéntes: Quid manducábimus aut quid bibémus aut quo operiémur? Hæc enim ómnia gentes inquírunt. Scit enim Pater vester, quia his ómnibus indigétis. Quærite ergo primum regnum Dei et justítiam ejus: et hæc ómnia adjiciéntur vobis. – **Credo.**

**Offertorium.** Immíttet Angelus Dómini in circúitu timéntium eum, et erípiet eos: gustáte et vidéte, quóniam suávis est Dóminus.

**Secreta.** Concéde nobis, Dómine, quæsumus, ut hæc hóstia salutáris et nostrórum fiat purgátio delictórum, et

af yður getur með áhyggjum aukið einni alin við hæð sína? Og hví eruð þér áhyggjufullir um klæðnað? Gefið gaum að liljum vallarins, hversu þær vaxa; þær vinna ekki og þær spinna ekki heldur, en ég segi yður, að jafnvel Salómon í allri dýrð sinni var ekki svo búinn sem ein þeirra. Fyrst Guð nú skrýðir svo gras vallarins, sem í dag stendur, en á morgun verður í ofn kastað, skyldi hann þá ekki miklu fremur klæða yður, þér lítiltrúaðir? Segið því ekki áhyggjufullir: Hvað eigum vér að eta? eða: Hvað eigum vér að drekka? eða: Hverju eigum vér að klæðast? Því að eftir öllu þessu sækjast heiðingjarnir. Og yðar himneski Faðir veit, að þér þarfnist alls þessa. En leitið fyrst ríkis hans (Guðs) og réttlætis hans, og þá mun allt þetta veitast yður að auki. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 33, 8-9.* Engill Drottins setur vörð kringum þá, er óttast hann, og frelsar þá. Kennið þess og sjáið, að Drottinn er góður.

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit, að þessi heillavænlega fórn hreinsi oss af misgjörðum vorum og sætti

tuæ propitiátio potestátis. Per Dóminum nostrum . . .

oss við hátign þína. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Primum quærite regnum Dei, et ómnia adjiciéntur vobis, dicit Dóminus.

**Postcommunio.** Purífícent semper et múniant tua sacraménta nos, Deus: et ad perpétuæ ducant salvatiónis efféctum. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníuvers.** *Matt. 6, 33.* Leitið fyrst ríkis hans (Guðs), segir Drottinn, og allt mun veitast yður að auki.

**Kommúníubæn.** Guð, megi sakramenti þín ávallt hreinsa oss og styrkja og leiða oss til eilífrar sáluhjálpar. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## FIMMTÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Inclina, Dómine, aurem tuam ad me, et exáudi me: salvum fac servum tuum, Deus meus, sperántem in te: miserére mihi, Dómine, quóniam ad te clamávi tota die. *Ps.* Lætífica ánimam servi tui: quia ad te, Dómine, ánimam meam levávi. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Ecclésiam tuam, Dómine, miserátio continuáta mundet et múniat: et quia sine te non potest salva consístere; tuo semper múnere gubernétur. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 85, 1 og 2-3.* Hneig eyra þitt, Drottinn, og bænheyr mig. Frelsa þú, Guð minn, þjón þinn, er treystir þér. Ver mér náðugur, Drottinn, því að þig ákalla ég liðlangan daginn. *Sálm. 85, 4.* Gleð þú sál þjóns þíns, því að til þín, Drottinn, hef ég sál mína. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Drottinn, megi ævarandi miskunn þín hreinsa og vernda kirkju þína, megi henni ávallt verða stjórnað af náð þinni, þar sem hún getur ekki þrifizt án þín. Fyrir Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Galatamanna. 5, 25-26: 6,1-10.*

FRATRES: Si spíritu vívimus, spíritu et ambulémus. Non efficiámur inánis glóriæ cúpidi, ínvicem provocántes, ínvicem invidéntes. Fratres, et si præoccupátus fúerit homo in áliquo delicto, vos, qui spirituáles estis, hujúsmodi instrúite in spíritu lenitátis, consíderans teípsum, ne et tu tentéris. Alter alterius ónera portáte, et sic adimplébitis legem Christi. Nam si quis exístimat se áliquid esse, cum nihil sit, ipse se sedúcit. Opus autem suum probet unusquísque, et sic in semetípso tantum glóriam habébit, et non in áltero. Unusquisque enim onus suum portábit. Commúnicet autem is, qui catechizátur verbo, ei, qui se catechízat, in ómnibus bonis. Nolíte erráre: Deus non irridétur. Quæ enim semináverit homo, hæc et metet. Quóniam qui séminat in carne sua, de carne et metet corruptiónem: qui autem séminat in spíritu, de spíritu metet vitam ætérnam. Bo-

BRÆÐUR: Ef vér lifum fyrir andann, þá framgöngum einnig í andanum. Verum ekki hégómagjarnir, svo að vér áreitum hver annan og öfundum hver annan. Bræður, ef einhver misgjörð kann að henda mann, þá leiðréttið þér, sem andlegir eruð, þann mann með hógværðaranda, og haf gát á sjálfum þér, að þú freistist ekki líka. Berið hver annars byrðar, og uppfyllið þannig lögmál Krists. Því að þykist nokkur vera nokkuð, þar sem hann þó er ekkert, þá dregur hann sjálfan sig á tálar. En sérhver rannsaki verk sjálfs sín, og þá mun hann hafa hrósunarefni einungis fyrir sjálfan sig, en ekki fyrir aðra; því að sérhver mun bera sína eigin byrði. En sá, sem uppfræðist í orðinu, veiti þeim, sem uppfræðir, hlutdeild með sér í öllum gæðum. Villist ekki, Guð lætur ekki að sér hæða; því að það, sem maður sáir, það mun hann og uppskera. Því að sá, sem sáir í hold sjálfs sín, mun af holdinu uppskera glötun; en sá, sem sáir í andann, mun af andanum uppskera

num autem faciéntes, non deficiámus: témpore enim suo metémus, non deficiéntes. Ergo, dum tempus habémus, operémur bonum ad omnes, máxime autem ad domésticos fídei.

eilíft líf. En þreytumst ekki að gjöra það, sem gott er, því að á sínum tíma munum vér uppskera, ef vér gugnum ekki. Þess vegna skulum vér gjöra öllum gott og einkum trúbræðrum vorum, eftir því, sem oss vinnst tími til.

**Graduale.** Bonum est confitéri Dómino: et psállere nómini tuo, Altíssime. ℣. Ad annuntiándum mane misericórdiam tuam, et veritátem tuam per noctem.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 91, 2-3.* Gott er að vegsama Drottin og lofsyngja nafni þínu, þú hinn æðsti. ℣. Til þess að boða miskunn þína að morgni og trúfesti þína um nætur.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Quóniam Deus magnus Dóminus, et Rex magnus super omnem terram. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 94, 3.* ℣. Því að Drottinn er mikill Guð og mikill konungur yfir allri jörðunni. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 7, 11-16.*

In illo témpore: Ibat Jesus in civitátem, quæ vocátur Naim: et ibant cum eo discípuli ejus et turba copiósa. Cum autem appropinquáret portæ civitátis, ecce, defúnctus efferebátur fílius únicus matris suæ: et hæc vídua erat: et turba civitátis multa cum illa. Quam cum vidísset Dóminus, misericórdia motus super eam, dixit illi: Noli flere. Et accéssit et tétigit lóculum. (Hi autem, qui

Á þeim tíma fór Jesús til borgar, Nain að nafni; voru þá í ferð með honum lærisveinar hans og mikill mannfjöldi. En er hann nálgaðist borgarhliðið, sjá, þá var borinn út dauður maður, einkasonur móður sinnar, og hún var ekkja, og mikill fjöldi úr bænum var með henni. Og er Drottinn sá hana, kenndi hann í brjósti um hana og sagði við hana: Grát þú eigi. Og hann gekk að og snart líkbörurnar,

portábant, stetérunt). Et ait: Adoléscens, tíbi dico, surge. Et resédit, qui erat mórtuus, et cœpit loqui. Et dedit illum matri suæ. Accépit autem omnes timor: et magnificábant Deum, dicéntes: Quia Prophéta magnus surréxit in nobis: et quia Deus visitávit plebem suam. **Credo.**

en þeir, sem báru, námu staðar. Og hann sagði: Ungi maður, ég segi þér, rís þú upp. Og settist þá upp sá, er dauður var, og tók að mæla; og hann gaf móður hans hann. En ótti greip alla; og vegsömuðu þeir Guð og sögðu: Spámaður mikill er risinn upp meðal vor, og: Guð hefur vitjað lýðs síns. – **Credo.**

**Offertorium.** Exspéctans exspectávi Dóminum, et respéxit me: et exaudívit deprecatiónem meam: et immísit in os meum cánticum novum, hymnum Deo nostro.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 39, 2,3 og 4.* Ég hef vonað og vonað á Drottin, og hann laut niður að mér og heyrði óp mitt. Hann lagði mér ný ljóð í munn, lofsöng til Guðs vors.

**Secreta.** Tua nos, Dómine, sacraménta custódiant: et contra diabólicos semper tueántur incúrsus. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, megi sakramenti þín varðveita oss og vernda oss ávallt fyrir árásum djöfulsins. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Panis, quem ego dédero, caro mea est pro sæculi vita.

**Kommúníuvers.** *Jóh. 6, 52.* Það brauð, sem ég mun gefa, er hold mitt, heiminum til lífs.

**Postcommunio.** Mentes nostras et córpora possídeat, quæsumus, Dómine, doni cæléstis operátio: ut non noster sensus in nobis, sed júgiter ejus prævéniat efféctus. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi áhrif hinnar himnesku gjafar gagntaka sálir vorar og líkama, til þess að þau verði ávallt yfirsterkari í oss, en ekki hneigðir vorar. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## SEXTÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Miserére mihi, Dómine, quóniam ad te clamávi tota die: quia tu, Dómine, suávis ac mitis es, et copiósus in misericórdia ómnibus invocántibus te. *Ps.* Inclína, Dómine, aurem tuam mihi, et exáudi me: quóniam inops, et pauper sum ego. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 85, 3 og 5.* Ver mér náðugur, Drottinn, því að þig ákalla ég liðlangan daginn; því að þú, Drottinn, ert góður og líknsamur og fullur miskunnar við alla þá, sem ákalla þig. *Sálm. 85, 1.* Hneig eyra þitt, Drottinn, og bænheyr mig, því að ég er volaður og aumur. ℣. Dýrð sé Föðurnum...

**Oratio.** Tua nos, quæsumus, Dómine, grátia semper et prævéniat et sequátur: ac bonis opéribus júgiter præstet esse inténtos. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Drottinn, vér biðjum þig, megi náð þín ávallt veitast oss fyrirfram og eftir á og láta oss ætíð kosta kapps um að gjöra góðverk. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 3, 13-21.*

FRATRES: Obsecro vos, ne deficiátis in tribulatiónibus meis pro vobis: quæ est glória vestra. Hujus rei grátia flecto génua mea ad Patrem Dómini nostri Jesu Christi, ex quo omnis patérnitas in cælis et in terra nominátur, ut det vobis secúndum divítias glóriæ suæ, virtúte corroborári per Spíritum ejus in interiórem hóminem, Christum habitáre per fidem in córdibus vestris: in caritáte radicáti et fundáti, ut

BRÆÐUR: Ég sárbið yður, að þér látið eigi hugfallast út af þrengingum mínum yðar vegna, en þær eru yður til vegsemdar. Þess vegna er það, að ég beygi kné mín fyrir Föðurnum (Föður Drottins vors Jesú Krists), sem hvert faðerni fær nafn af á himni og jörðu, að hann gefi yður samkvæmt ríkdómi dýrðar sinnar að styrkjast fyrir Anda sinn, hinum innri manni til handa, til þess að Kristur megi fyrir trúna búa í hjörtum yðar, og þér verða rót-

possítis comprehéndere cum ómnibus sanctis, quæ sit latitúdo et longitúdo et sublímitas et profúndum: scire étiam supereminéntem sciéntiæ caritátem Christi, ut impleámini in omnem plenitúdinem Dei. Ei autem, qui potens est ómnia fácere superabundánter, quam pétimus aut intellígimus, secúndum virtútem, quæ operátur in nobis: ipsi glória in Ecclésia et in Christo Jesu, in omnes generatiónes sæculi sæculórum. Amen.

**Graduale**. Timébunt gentes nomen tuum, Dómine, et omnes reges terræ glóriam tuam. ℣. Quóniam ædificávit Dóminus Sion, et vidébitur in majestáte sua.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Cantáte Dómino cánticum novum: quia mirabília fecit Dóminus. Allelúja.

festir og grundvallaðir í kærleika, svo að þér fáið, ásamt öllum heilögum, skilið, hver sé breiddin, lengdin, hæðin og dýptin, og komist að raun um kærleika Krists, sem yfirgnæfir þekkinguna, og náið að fyllast allri Guðs fyllingu. En honum, sem eftir þeim krafti, sem í oss verkar, megnar að gjöra langsamlega fram yfir allt það, sem vér biðjum eða skynjum, honum sé dýrð í söfnuðinum og í Kristi Jesú um öll æviskeið, öld eftir öld. Amen.

**Þrepsöngur**. *Sálm. 101, 16-17.* Heiðingjarnir munu óttast nafn þitt, Drottinn, og allir konungar jarðarinnar dýrð þína. ℣. Því að Drottinn mun endurbyggja Síon og birtast í tign sinni.

**Allelúja,** allelúja. *Salm. 97, 1.* ℣. Syngið Drottni nýjan söng, því að Drottinn hefur gjört dásemdarverk. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 14, 1-11.*

In illo témpore: Cum intráret Jesus in domum cujúsdam príncipis pharisæórum sábbato manducáre panem, et ipsi observábant

Á þeim tíma kom Jesús á hvíldardegi í hús eins af höfðingjum Faríseanna til máltíðar, og þeir höfðu gætur á honum. Og sjá, frammi fyrir

eum. Et ecce, homo quidam hydrópicus erat ante illum. Et respóndens Jesus dixit ad legisperítos et pharisæos, dicens: Si licet sábbato curáre? At illi tacuérunt. Ipse vero apprehénsum sanávit eum ac dimísit. Et respóndens ad illos, dixit: Cujus vestrum ásinus aut bos in púteum cadet, et non contínuo éxtrahet illum die sábbati? Et non póterant ad hæc respondére illi. Dicébat autem et ad invitátos parábolam, inténdens, quómodo primos accúbitus elígerent, dicens ad illos: Cum invitátus fúeris ad núptias, non discúmbas in primo loco, ne forte honorátior te sit invitátus ab illo, et véniens is, qui te et illum vocávit, dicat tibi: Da huic locum: et tunc incípias cum rubóre novíssimum locum tenére. Sed cum vocátus fúeris, vade, recúmbe in novíssimo loco: ut, cum vénerit, qui te invitávit, dicat tibi: Amíce, ascénde supérius. Tunc erit tibi glória coram simul discumbéntibus: quia omnis, qui se exáltat, humiliábitur: et qui se humíliat, exaltábitur. – **Credo.**

honum stóð maður nokkur vatnssjúkur. Og Jesús tók til máls og talaði til lögvitringanna og Faríseanna og sagði: Er leyfilegt að lækna á hvíldardegi (eða ekki?). En þeir þögðu. Og hann tók á honum og læknaði hann og lét hann burt fara. Og hann (svaraði og) sagði þeim: Nú fellur asni eða naut einhvers yðar í brunn, mun hann ekki jafnskjótt draga það upp úr á hvíldardegi? Og þeir gátu engu svarað til þessa. Og hann sagði þeim, er boðnir voru, líkingu, er hann tók eftir, hvernig þeir völdu sér hefðarsætin, og mælti til þeirra: Þegar þér er boðið af einhverjum til brúðkaups, þá set þig ekki í hefðarsæti, til þess að ekki fari svo, ef maður fremri þér að virðingu skyldi vera boðinn af honum, að sá komi, sem bauð þér og honum, og segi við þig: Gef þú þessum manni rúm, og verður þú þá með kinnroða að taka hið yzta sæti. Heldur far þú, er þér er boðið, og set þig í hið yzta sæti, svo að sá, sem bauð þér, segi við þig, þegar hann kemur: Vinur, flyt þig hærra upp. Mun þér þá virðing veitast frammi fyrir öllum þeim, er sitja til borðs með þér. Því að sérhver,

sem upphefur sjálfan sig, mun niðurlægjast, og sá, sem niðurlægir sjálfan sig, mun upphafinn verða. – **Credo.**

**Offertorium.** Dómine, in auxílium meum réspice: confundántur et revereántur, qui quærunt ánimam meam, ut áuferant eam: Dómine, in auxílium meum réspice.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 39, 14 og 15.* Skunda, Drottinn, mér til hjálpar. Lát þá verða til skammar og hljóta kinnroða, alla þá, er sitja um líf mitt, til þess að svipta mig því; (skunda, Drottinn, mér til hjálpar).

**Secreta.** Munda nos, quæsumus, Dómine, sacrifícii præséntis efféctu: et pérfice miserátus in nobis; ut ejus mereámur esse partícipes. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, hreinsa þú oss fyrir kraft þessarar fórnar, og kom miskunnsamlega því til leiðar í oss, að vér verðskuldum að fá hlutdeild í henni. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar,* *sjá bls. 25.*

**Communio.** Dómine, memorábor justítiæ tuæ solíus: Deus, docuísti me a juventúte mea: et usque in senéctam et sénium, Deus, ne derelínquas me.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 70, 16-17 og 18.* Drottinn, réttlæti þitt vil ég kunngjöra, einungis þitt. Guð, þú hefur kennt mér frá æsku, og yfirgef mig eigi, Guð, þegar ég er gamall orðinn og grár fyrir hærum.

**Postcommunio.** Purífica, quæsumus, Dómine, mentes nostras benígnus, et rénova cæléstibus sacraméntis: ut consequénter et córporum præsens páriter et futúrum capiámus auxílium. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, hreinsa náðarsamlega sálir vorar og endurnýja þær með hinum himnesku leyndardómum, svo að fyrir það öðlumst vér hjálp á líkama vorum nú og um ókomna tíð. Fyrir Drottin vorn . . .

## SAUTJÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Justus es, Dómine, et rectum judícium tuum: fac cum servo tuo secúndum misericórdiam tuam. ℣. Beáti immaculáti in via: qui ámbulant in lege Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 118, 137 og 124.* Réttlátur ert þú, Drottinn, og réttvísir dómar þínir. Far með þjón þinn eftir miskunn þinni. *Sálm. 118, 1.* Sælir eru þeir, sem fara hreina lífsbraut, þeir, sem fara eftir lögmáli Drottins. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Da, quæsumus, Dómine, pópulo tuo diabólica vitáre contágia: et te solum Deum pura mente sectári. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Drottinn, vér biðjum þig, veit þú lýð þínum að forðast hin skaðvænlegu áhrif djöfulsins og sækjast með hreinu hugarfari eftir þér, Guði einum. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 4, 1-6.*

FRATRES: Obsecro vos ego vinctus in Dómino, ut digne ambulétis vocatióne, qua vocáti estis, cum omni humilitáte et mansuetúdine, cum patiéntia, supportántes ínvicem in caritáte, sollíciti serváre unitátem spíritus in vínculo pacis. Unum corpus et unus spíritus, sicut vocáti estis in una spe vocatiónis vestræ. Unus Dóminus, una fides, unum baptísma. Unus Deus et Pater ómnium, qui est super omnes et per ómnia et in ómnibus nobis.

BRÆÐUR: Ég, bandinginn vegna Drottins, áminni yður um að hegða yður svo sem samboðið er kölluninni, sem þér voruð kallaðir með; umberið hver annan í kærleika með öllu lítillæti og hógværð og langlyndi; og kappkostið að varðveita einingu andans í bandi friðarins. Einn er líkaminn og einn andinn, eins og þér líka voruð kallaðir til einnar vonar, köllunar yðar. Einn Drottinn, ein trú, ein skírn, einn Guð og Faðir allra, sem er yfir öllum og með öllum og í öllum, (sem

Qui est benedíctus in sæcula sæculórum. Amen.

**Graduale.** Beáta gens, cujus est Dóminus Deus eórum: pópulus, quem elégit Dóminus in hereditátem sibi. ℣. Verbo Dómini cæli firmáti sunt: et spíritu oris ejus omnis virtus eórum.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Dómine, exáudi oratiónem meam, et clamor meus ad te pervéniat. Allelúja.

er blessaður um aldir alda. Amen).

**Þrepsöngur.** *Sálm. 32, 12 og 6.* Sæl er sú þjóð, sem á Drottin að Guði, sá lýður, er hann (Drottinn) hefur kjörið sér til eignar. ℣. Fyrir orð Drottins voru himnarnir gjörðir og allur her þeirra fyrir anda munns hans.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 101, 2.* ℣. Drottinn, heyr þú bæn mína og hróp mitt berist til þín. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 22, 34-46.*

In illo témpore: Accessérunt ad Jesum pharisæi: et interrogávit eum unus ex eis legis doctor, tentans eum: Magíster, quod est mandátum magnum in lege? Ait illi Jesus: Díliges Dóminum, Deum tuum, ex toto corde tuo et in tota ánima tua et in tota mente tua. Hoc est máximum et primum mandátum. Secúndum autem símile est huic: Díliges próximum tuum sicut teípsum. In his duóbus mandátis univérsa lex pendet et prophétæ. Congregátis autem pha-

Á þeim tíma komu Farísearnir til Jesú, og einn af þeim, lögvitringur, freistaði hans og spurði: Meistari, hvert er hið mikla boðorð í lögmálinu? En Jesús sagði við hann: Þú skalt elska Drottin, Guð þinn, af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og af öllum huga þínum. Þetta er hið mikla og fyrsta boðorð. En hið annað er líkt, þetta: Þú skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig. Á þessum tveimur boðorðum byggist allt lögmálið og spámennirnir. En er Farísearnir voru saman komnir, spurði

risæis, interrogávit eos Jesus, dicens: Quid vobis vidétur de Christo? cujus fílus est? Dicunt ei: David. Ait illis: Quómodo ergo David in spíritu vocat eum Dóminum, dicens: Dixit Dóminus Dómino meo, sede a dextris meis, donec ponam inimícos tuos scabéllum pedum tuórum? Si ergo David vocat eum Dóminum, quómodo fílius ejus est? Et nemo póterat ei respondére verbum: neque ausus fuit quisquam ex illa die eum ámplius interrogáre. - **Credo.**

Jesús þá og sagði: Hvað virðist yður um hinn Smurða? Hvers son er hann? Þeir segja við hann: Davíðs. Hann segir við þá: Hvernig kallar þá Davíð af andanum hann Drottin, er hann segir: Drottinn sagði við minn Drottin: Set þig mér til hægri handar, þangað til ég legg óvini þína (sem fótskör) undir fætur þér? Ef nú Davíð kallar hann Drottin, hvernig getur hann þá verið sonur hans? Og enginn gat svarað honum orði, né heldur þorði neinn upp frá þeim degi framar að spyrja hann nokkurs. – **Credo.**

**Offertorium.** Orávi Deum ego Dániel, dicens: Exáudi, Dómine, preces servi tui: illúmina fáciem tuam super sanctuárium tuum: et propítius inténde pópulum istum, super quem invocátum est nomen tuum, Deus.

**Fórnunarvers.** *Dan. 9, 17-18-19.* Ég, Daníel, bað Guð minn og sagði; Heyr, Drottinn, bænir þjóns þíns; lát ásjónu þína lýsa yfir helgidóm þinn; lít náðarsamlega þennan lýð, sem falinn er nafni þínu, Guð.

**Secreta.** Majestátem tuam, Dómine, supplíciter deprecámur: ut hæc sancta, quæ gérimus, et a prætéritis nos delíctis éxuant et futúris. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum auðmjúklega hátign þína, að þessir helgu leyndardómar, sem vér förum með, megi leysa oss undan liðnum misgjörðum svo og hinum komandi. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar,* *sjá bls. 25.*

**Communio.** Vovéte et réddite Dómino, Deo vestro,

**Kommúníuvers.** *Sálm. 75, 12-13.* Vinnið heit og efnið þau

omnes, qui in circúitu ejus affértis múnera: terríbili, et ei qui aufert spíritum príncipum: terríbili apud omnes reges terræ.

við Drottin, Guð yðar; allir þeir, sem eru umhverfis hann, skulu færa gjafir hinum óttalega, honum, sem lægir ofstopa höfðingjanna, sem ógurlegur er konungum jarðarinnar.

**Postcommunio.** Sanctificatiónibus tuis, omnípotens Deus, et vitia nostra curéntur, et remédia nobis ætérna provéniant. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Almáttugi Guð, megi hinir heilögu leyndardómar lækna ódyggðir vorar og verða oss að læknisdómi til eilífrar sáluhjálpar. Fyrir Drottin vorn . . .

## ÁTJÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Da pacem, Dómine, sustinéntibus te, ut prophétæ tui fidéles inveniántur: exáudi preces servi tui et plebis tuæ Israel. *Ps.* Lætátus sum in his, quæ dicta sunt mihi: in domum Dómini íbimus. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sír. 36, 18.* Drottinn, veit þeim frið (laun), er treysta þér, svo að sannorðir reynist spámenn þínir; heyr þú bænir þjóna þinna og lýðs þíns, Ísraels. *Sálm. 121, 1.* Ég gladdist, er sagt var við mig: Göngum í hús Drottins. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Dírigat corda nostra, quæsumus, Dómine, tuæ miseratiónis operátio: quia tibi sine te placére non póssumus. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Drottinn, vér biðjum þig, megi miskunn þín stjórna hjörtum vorum, því að án þín fáum vér ekki þóknazt þér. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 1, 4-8.*

FRATRES: Grátias ago Deo meo semper pro vobis in grátia Dei, quæ data est

BRÆÐUR: Ávallt þakka ég Guði mínum yðar vegna fyrir þá náð Guðs, sem yður er gef-

vobis in Christo Jesu: quod in ómnibus dívites facti estis in illo, in omni verbo et in omni sciéntia: sicut testimónium Christi confirmátum est in vobis: ita ut nihil vobis desit in ulla grátia, exspectántibus revelatiónem Dómini nostri Jesu Christi, qui et confirmábit vos usque in finem sine crímine, in die advéntus Dómini nostri Jesu Christi.

in í Kristi Jesú, að þér í honum eruð auðgaðir orðnir í öllu, i hvers konar ræðu og hvers konar þekkingu, eins og lika vitnisburðurinn um Krist er staðfestur orðinn á meðal yðar, svo að yður brestur ekki neina náðargjöf, og væntið opinberunar Drottins vors Jesú Krists, hans, sem og mun gjöra yður staðfasta allt til enda, óásakanlega á degi (komu) Drottins vors Jesú Krists.

**Graduale.** Lætátus sum in his, quæ dicta sunt mihi: in domum Dómini ibimus. ℣. Fiat pax in virtúte tua: et abundántia in túrribus tuis.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 121, 1 og 7.* Ég gladdist, er sagt var við mig: Göngum í hús Drottins. ℣. Friður sé innan við múra þína, öryggi í höllum þínum.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Timébunt gentes nomen tuum, Dómine, et omnes reges terræ glóriam tuam. Allelúja.

**Allelúja**, allelúja. *Sálm. 101, 16.* ℣. Heiðingjarnir munu óttast nafn þitt, Drottinn, og allir konungar jarðarinnar dýrð þína. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 9, 1-8.*

In illo témpore: Ascéndens Jesus in navículam, transfretávit et venit in civitátem suam. Et ecce, offerébant ei paralýticum jacéntem in lecto. Et videns Jesus fidem

Á þeim tíma steig Jesús út í bát og fór yfir um og kom í sína eigin borg[1]. Og sjá, menn færðu til hans lama mann, sem lá í rekkju. Og er Jesús sá trú þeirra, sagði hann við lama

1) Kapernaum.

illórum, dixit paralýtico: Confíde, fili, remittúntur tibi peccáta tua. Et ecce, quidam de scribis dixérunt intra se: Hic blasphémat. Et cum vidísset Jesus cogitatiónes eórum, dixit: Ut quid cogitátis mala in córdibus vestris? Quid est facílius dícere: Dimittúntur tibi peccáta tua; an dícere: Surge et ámbula? Ut autem sciátis, quia Fílius hóminis habet potestátem in terra dimitténdi peccáta, tunc ait paralýtico: Surge, tolle lectum tuum, et vade in domum tuam. Et surréxit et ábiit in domum suam. Vidéntes autem turbæ timuérunt, et glorificavérunt Deum, qui dedit potestátem talem homínibus. – **Credo.**

**Offertorium.** Sanctificávit Móyses altáre Dómino, ófferens super illud holocáusta et ímmolans víctimas: fecit sacrifícium vespertínum in odórem suavitátis Dómino Deo, in conspéctu filiórum Israel.

**Secreta.** Deus, qui nos, per hujus sacrifícii veneránda commércia, uníus summæ divinitátis partícipes éfficis: præsta, quæsumus; ut,

mannninn: Vertu hughraustur, barnið mitt (sonur), syndir þínar eru fyrirgefnar. Og sjá, nokkrir af fræðimönnunum sögðu með sjálfum sér: Þessi maður guðlastar. En þar sem Jesús þekkti hugsanir þeirra, sagði hann: Hví hugsið þér illt í hjörtum yðar? Hvort er auðveldara að segja: Syndir þínar eru fyrirgefnar, eða segja: Statt upp og gakk? En til þess að þér vitið, að Mannssonurinn hefur vald á jörðu til að fyrirgefa syndir – þá segir hann við lama manninn: – Statt upp, tak rekkju þína og far heim til þín. Og hann stóð upp og fór heim til sín. En er mannfjöldinn sá þetta, skelfdist hann og vegsamaði Guð, er gefið hefði mönnunum slíkt vald. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *2. Mós. 24, 4 og 5.* Móse helgaði (reisti) Drottni altari og færði (á því) brennifórnir og slátraði fórnardýrum; hann bar Drottni fram kvöldfórn, sem sætan ilm fyrir augliti Ísraelssona.

**Lágabæn.** Drottinn, þú, sem gjörir oss hluttakendur í hinum eina og æðsta guðdómi fyrir þessi lotningarverðu skipti á fórnargjöfum, vér biðjum þig,

sicut tuam cognóscimus veritátem, sic eam dignis móribus assequámur. Per Dóminum nostrum . . .

gef, að eins og vér þekkjum sannleika þinn, megum vér og breyta eftir honum með verðugu líferni. Fyrir Drottin vorn...

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Tóllite hóstias, et introíte in átria ejus: adoráte Dóminum in aula sancta ejus.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 95, 8-9.* Færið fórnargjafir og gangið inn í forgarða hans, tilbiðjið Drottin (í helgidómi hans) í helgum skrúða.

**Postcommunio.** Grátias tibi reférimus, Dómine, sacro múnere vegetáti: tuam misericórdiam deprecántes; ut dignos nos ejus participatióne perfícias. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Endurnærðir af hinni heilögu gjöf færum vér þér þakkir, Drottinn, og sárbiðjum miskunn þína að gjöra oss þess maklega að verða hluttakendur í henni. Fyrir Drottin vorn . . .

## NÍTJÁNDI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Salus pópuli ego sum, dicit Dóminus: de quacúmque tribulatióne clamáverint ad me, exáudiam eos: et ero illórum Dóminus in perpétuum. *Ps.* Atténdite, pópule meus, legem meam: inclináte aurem vestram in verba oris mei. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** Ég er heill lýðsins, segir Drottinn, úr hvaða þrengingum, sem þeir kalla á mig, mun ég bænheyra þá, og ég mun vera Drottinn þeirra um eilífð. *Sálm. 77, 1.* Hlýð þú, lýður minn, á kenningu mína; hneigið eyru að orðum munns míns. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Omnípotens et misericors Deus, univérsa nobis adversántia propitiátus exclúde: ut mente et córpore páriter expedíti, quæ

**Kollekta.** Almáttugi og miskunnsami Guð, firr oss náðarsamlega öllu andstreymi, svo að vér breytum með fúsu geði eftir vilja þínum, óhindraðir á

tua sunt, líberis méntibus exsequámur. Per Dóminum nostrum . . .

sálu og líkama. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 4, 23-28.*

FRATRES: Renovámini spíritu mentis vestræ, et indúite novum hóminem, qui secúndum Deum creátus est in justítia et sanctitáte veritátis. Propter quod deponéntes mendácium, loquímini veritátem unusquísque cum próximo suo: quóniam sumus ínvicem membra. Irascímini, et nolíte peccáre: sol non óccidat super iracúndiam vestram. Nolíte locum dare diábolo: qui furabátur, jam non furétur; magis autem labóret, operándo mánibus suis, quod bonum est, ut hábeat, unde tríbuat necessitátem patiénti.

BRÆÐUR: Endurnýjizt í anda hugskots yðar og íklæðizt hinum nýja manni, sem skapaður er eftir Guði í réttlæti og heilagleika sannleikans. Leggið því af lygina, talið sannleika hver við sinn náunga, því að vér erum hver annars limir. Ef þér reiðizt, þá syndgið ekki. Sólin setjist ekki yfir reiði yðar. Gefið djöflinum ekkert færi. Hinn stelvísi hætti að stela, en leggi heldur hart á sig og vinni með höndum sínum það, sem gott er, svo að hann hafi eitthvað að miðla þeim, sem þurfandi er.

**Graduale.** Dirigátur orátio mea, sicut incénsum in conspéctu tuo, Dómine. ℣. Elevátio mánuum meárum sacrifícium vespertínum.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 140, 2.* Bæn mín sé framborin sem ilmfórn fyrir auglit þitt, Drottinn, upplyfting handa minna sem kvöldfórn.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Confitémini Dómino, et invocáte nomen ejus: annuntiáte inter gentes ópera ejus. Allelúja.

**Allelúja**, allelúja. *Sálm. 104, 1.* ℣. Lofið Drottin og ákallið nafn hans; kunngjörið verk hans meðal heiðingjanna. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 22, 1-14.*

In illo témpore: Loquebátur Jesus principibus sacerdótum et pharisæis in parábolis, dicens: Símile factum est regnum cælórum hómini regi, qui fecit núptias filio suo. Et misit servos suos vocáre invitátos ad núptias, et nolébant veníre. Iterum misit álios servos, dicens: Dicite invitátis: Ecce, prándium meum parávi, tauri mei et altilia occísa sunt, et ómnia paráta: veníte ad núptias. Illi autem neglexérunt: et abiérunt, álius in villam suam, álius vero ad negotiatiónem suam: réliqui vero tenuérunt servos ejus, et contuméliis afféctos occidérunt. Rex autem cum audisset, irátus est: et, missis exercitibus suis, pérdidit homicídas illos et civitátem illórum succéndit. Tunc ait servis suis: Núptiæ quidem parátæ sunt, sed, qui invitáti erant, non fuérunt digni. Ite ergo ad éxitus viárum et, quoscúmque invenéritis, vocáte ad núptias. Et egréssi servi ejus in vias, congrega-

Á þeim tíma talaði Jesús við æðstu prestana og Faríseana í dæmisögum og sagði: Líkt er riki himnanna konungi nokkrum, er gjörði brúðkaup sonar síns. Hann sendi út þjóna sína, að kalla boðsgestina til brúðkaupsins, og þeir vildu ekki koma. Aftur sendi hann út aðra þjóna og mælti: Segið boðsgestunum: Sjá, máltíð mina hef ég búið; uxum mínum og alifé er slátrað, og allt er tilbúið; komið til brúðkaupsins. En þeir skeyttu því eigi og fóru burt, einn á búgarð (akur) sinn, annar til kaupskapar síns, en hinir tóku þjóna hans, smánuðu þá og drápu. En konungurinn varð reiður (er hann heyrði þetta), sendi herlið sitt út og fyrirfór morðingjum þessum og brenndi upp borg þeirra. Síðan segir hann við þjóna sína: Brúðkaupið er að vísu reiðubúið, en boðsgestirnir voru ekki verðir þess. Farið því út á vegamót og bjóðið öllum þeim, er þér finnið, til brúðkaupsins. Og þjónar þessir fóru út á vegina og söfnuðu saman öllum, er þeir fundu, bæði vondum og góðum; og

vérunt omnes, quos invenérunt, malos et bonos: et implétæ sunt núptiæ discumbéntium. Intrávit autem rex, ut vidéret discumbéntes, et vidit ibi hóminem non vestítum veste nuptiáli. Et ait illi: Amíce, quómodo huc intrásti non habens vestem nuptiálem? At ille obmútuit. Tunc dixit rex minístris: Ligátis mánibus et pédibus ejus, míttite eum in ténebras exterióres: ibi erit fletus et stridor déntium. Multi enim sunt vocáti, pauci vero elécti. – **Credo.**

**Offertorium.** Si ambulávero in médio tribulatiónis, vivificábis me, Dómine: et super iram inimicórum meórum exténdes manum tuam, et salvum me fáciet déxtera tua.

**Secreta.** Hæc múnera, quæsumus, Dómine, quæ óculis tuæ majestátis offérimus, salutária nobis esse concéde. Per Dóminum nostrum . . .

brúðkaupssalurinn varð fullur af veizlufólki. En er konungurinn kom inn, til að sjá veizlufólkið, leit hann þar mann, er eigi var klæddur brúðkaupsklæðum. Og hann segir við hann: Vinur, hvernig ert þú kominn hingað inn og ert ekki í brúðkaupsklæðum? En hann þagði. Konungurinn sagði þá við þjónana: Bindið fætur hans og hendur og kastið honum út í myrkrið fyrir utan; þar mun vera grátur og gnístran tanna. Því að margir eru kallaðir, en fáir útvaldir. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 137, 7.* Sé ég staddur í þrengingum, lætur þú mig lífi halda, Drottinn, og þú réttir út hönd þína gegn reiði óvina minna, og hægri hönd þín bjargar mér.

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum þig, veit, að þessar gjafir, sem vér berum fram fyrir augliti hátignar þinnar, verði oss til heilla. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Tu mandásti mandáta tua custodíri nimis: útinam dirigántur viæ

**Kommúníuvers.** *Sálm. 118, 4-5.* Þú hefur gefið skipanir þínar, til þess að menn skuli

meæ, ad custodiéndas justificatiónes tuas.

**Postcommunio.** Tua nos, Dómine, medicinális operátio, et a nostris perversitátibus cleménter expédiat, et tuis semper fáciat inhærére mandátis. Per Dóminum nostrum . . .

halda þær vandlega. Megi vegir mínir (breytni) vera staðfastir, svo að ég varðveiti lög þín.

**Kommúníubæn.** Drottinn, megi læknandi áhrif þín frelsa oss náðarsamlega frá brestum vorum og láta oss ávallt halda fast við fyrirmæli þín. Fyrir Drottin vorn . . .

## TUTTUGASTI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Omnia, quæ fecísti nobis, Dómine, in vero judício fecísti, quia peccávimus tibi et mandátis tuis non obœdívimus: sed da glóriam nómini tuo, et fac nobíscum secúndum multitúdinem misericórdiæ tuæ. ℣. Beáti immaculáti in via: qui ámbulant in lege Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Largíre, quæsumus, Dómine, fidélibus tuis indulgéntiam placátus et pacem: ut páriter ab ómnibus mundéntur offénsis, et secúra tibi mente desérviant. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *3. 31, 29 og 35.* Allt, sem þú hefur látið oss að höndum bera, Drottinn, hefur sannarlega verið rétt, því að vér höfum syndgað gegn þér og ekki hlýtt boðum þínum; en gjör þú nafn þitt dýrlegt og far með oss samkvæmt gnægð miskunnar þinnar. *Sálm. 118, 1.* Sælir eru þeir, sem fara hreina lífsbraut, þeir, sem fara eftir lögmáli Drottins. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Drottinn, vér biðjum þig, veit þú sáttur þínum trúuðu fyrirgefningu og frið, svo að þeir hreinsist af öllum syndum og þjóni þér með æðrulausu hjarta. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 5, 15-21.*

FRATRES: Vidéte, quómodo caute ambulétis: non

BRÆÐUR: Hafið gát á, hvernig þér breytið, ekki sem fá-

quasi insipiéntes, sed ut sapiéntes, rediméntes tempus, quóniam dies mali sunt. Proptérea nolíte fíeri imprudéntes, sed intelligéntes, quæ sit volúntas Dei. Et nolíte inebriári vino, in quo est luxúria: sed implémini Spíritu Sancto, loquéntes vobismetípsis in psalmis et hymnis et cánticis spirituálibus, cantántes et psalléntes in córdibus vestris Dómino: grátias agéntes semper pro ómnibus, in nómine Dómini nostri Jesu Christi, Deo et Patri. Subjécti ínvicem in timóre Christi.

vísir, heldur sem vísir; notið vel hverja stundina, því að dagarnir eru vondir[1]. Verið því ekki óskynsamir, heldur reynið að skilja, hver sé vilji Drottins. Og drekkið yður ekki drukkna í víni, sem leiðir til spillingar, heldur fyllist Heilögum Anda. Ávarpið hver annan með sálmum, lofsöngvum og andlegum ljóðum, syngið og leikið Drottni í hjörtum yðar, og þakkið jafnan Guði, Föðurnum, fyrir alla hluti í nafni Drottins vors Jesú Krists. Verið hver öðrum undirgefnir í ótta Krists.

**Graduale.** Oculi ómnium in te sperant, Dómine: et tu das illis escam in témpore opportúno. ℣. Aperis tu manum tuam: et imples omne ánimal benedictióne.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 144, 15-16.* Allra augu vona á þig, Drottinn, og þú gefur þeim fæðu þeirra á réttum tíma; ℣. Þú lýkur upp hendi þinni og seður allt, sem lifir, með blessun.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Parátum cor meum, Deus, parátum cor meum: cantábo, et psallam tibi, glória mea. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 107, 2.* ℣. Hjarta mitt er stöðugt, Guð, stöðugt er hjarta mitt; ég vil syngja og leika (þér, sem ert dýrð mín). Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 4, 46-53.*

In illo témpore: Erat quidam régulus, cujus fílius

Á þeim tíma var þar konungsmaður nokkur, og lá

1) vegna andstöðu heiðingjanna.

infirmabátur Caphárnaum. Hic cum audísset, quia Jesus adveníret a Judæa in Galilæam, ábiit ad eum, et rogábat eum, ut descénderet et sanáret fílium ejus: incipiébat enim mori. Dixit ergo Jesus ad eum: Nisi signa et prodígia vidéritis, non créditis. Dicit ad eum régulus: Dómine, descénde, priúsquam moriátur filius meus. Dicit ei Jesus: Vade, fílius tuus vivit. Crédidit homo sermóni, quem dixit ei Jesus, et ibat. Jam autem eo descendénte, servi occurrérunt ei et nuntiavérunt, dicéntes, quia fílius ejus víveret. Interrogábat ergo horam ab eis, in qua mélius habúerit. Et dixérunt ei: Quia heri hora séptima relíquit eum febris. Cognóvit ergo pater, quia illa hora erat, in qua dixit ei Jesus: Fílius tuus vivit: et crédidit ipse et domus ejus tota.

**Credo.**

**Offertorium.** Super flúmina Babylónis illic sédimus et flévimus: dum recordarémur tui, Sion.

**Secreta.** Cæléstem nobis præbeant hæc mystéria, quæsumus, Dómine, medicí-

sonur hans sjúkur í Kapernaum. Þegar hann frétti, að Jesús væri kominn frá Júdeu til Galíleu, fór hann til hans og bað hann að koma niður eftir og lækna son sinn, því að hann lægi fyrir dauðanum. Jesús sagði þá við hann: Þér trúið ekki, nema þér sjáið tákn og stórmerki. Konungsmaðurinn segir við hann: Herra, kom þú niður eftir áður en sonur minn (barnið mitt) andast. Jesús segir við hann: Far þú, sonur þinn lifir. Maðurinn trúði því, sem Jesús talaði til hans, og fór burt. En á heimleiðinni mættu honum þjónar hans og sögðu, að sonur hans væri lifandi. Þá spurði hann þá að, hvenær honum hefði farið að létta. Og þeir sögðu við hann: Í gær um sjöundu stundu fór sótthitinn úr honum. Þá komst faðirinn að raun um, að það var á þeirri stundu, er Jesús hafði sagt við hann: Sonur þinn lifir. Og hann trúði og allt hans heimafólk. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 136, 1.* Við Babelfljót sátum vér og grétum, er vér minntumst (þín) Síonar.

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum þig, megi þessir leyndardómar veita oss himneskan

nam: et vítia nostri cordis expúrgent. Per Dóminum nostrum . . .

læknisdóm og hreinsa ódyggðirnar burt úr hjörtum vorum. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Meménto verbi tui servo tuo, Dómine, in quo mihi spem dedísti: hæc me consoláta est in humilitáte mea.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 118, 49-50.* Minnzt þú, (Drottinn) orðs þíns við þjón þinn, en á það hefur þú látið mig vona. Þetta er huggun mín í eymd minni.

**Postcommunio.** Ut sacris, Dómine, reddámur digni munéribus: fac nos, quæsumus, tuis semper obœdíre mandátis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér biðjum þig, gef, að vér hlýðum ávallt boðum þínum, svo að vér verðum maklegir hinna heilögu gjafa. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## TUTTUGASTI OG FYRSTI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** In voluntáte tua, Dómine, univérsa sunt pósita, et non est, qui possit resístere voluntáti tuæ: tu enim fecísti ómnia, cælum et terram et univérsa, quæ cæli ámbitu continéntur: Dóminus universórum tu es. *Ps.* Beáti immaculáti in via: qui ámbulant in lege Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Est. 13, 9, 10 og 11.* Drottinn, allt er þínum vilja (valdi þínu) undirorpið og enginn er, sem getur þínum vilja á móti staðið; því að þú hefur gjört allt, himin og jörð og allt, sem er himnanna á milli, því þú ert Drottinn yfir öllu. *Sálm. 118, 1.* Sælir eru þeir, sem fara hreina lífsbraut, þeir, sem fara eftir lögmáli Drottins. ℣. Dýrð sé Föðurnum...

**Oratio.** Famíliam tuam, quæsumus, Dómine, contínua pietáte custódi: ut a cun-

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, varðveit þú með stöðugri föðurelsku söfnuð þinn,

ctis adversitátibus, te protegénte, sit líbera, et in bonis áctibus tuo nómini sit devóta. Per Dóminum nostrum...

svo að undir vernd þinni sé hann ávallt laus við allt andstreymi og þjóni nafni þínu með góðverkum. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 6, 10-17.*

FRATRES: Confortámini in Dómino et in poténtia virtútis ejus. Indúite vos armatúram Dei, ut possítis stare advérsus insídias diáboli. Quóniam non est nobis colluctátio advérsus carnem et sánguinem: sed advérsus príncipes et potestátes, advérsus mundi rectóres tenebrárum harum, contra spirituália nequítiæ, in cæléstibus. Proptérea accípite armatúram Dei, ut possítis resístere in die malo et in ómnibus perfécti stare. State ergo succíncti lumbos vestros in veritáte, et indúti lorícam justítiæ, et calceáti pedes in præparatióne Evangélii pacis: in ómnibus suméntes scutum fídei, in quo possítis ómnia tela nequíssimi ígnea exstínguere: et gáleam salútis assúmite: et gládium spíritus, quod est verbum Dei.

BRÆÐUR: Styrkizt í Drottni og í krafti máttar hans. Klæðizt alvæpni Guðs, til þess að þér getið staðizt vélabrögð djöfulsins. Því að baráttan, sem vér verðum að heyja, er ekki við hold og blóð, heldur við tignirnar og völdin, við heimsdrottna þessa myrkurs, við andaverur vonzkunnar í himingeimnum. Fyrir því skuluð þér taka alvæpni Guðs til þess að þér getið veitt mótstöðu á hinum vonda degi, og getið albúnir staðizt fullkomlega í öllu. Standið því gyrtir sannleikanum og klæddir brynju réttlætisins og skóaðir á fótunum með fúsleik til fagnaðarboðskapar friðarins, og haldið í öllu uppi skildi trúarinnar, sem þér getið slökkt með öll hin eldlegu skeyti hins vonda, takið hjálm hjálpræðisins og sverð andans, sem er Guðs orð.

**Graduale.** Dómine, refúgium factus es nobis, a generatióne et progénie. ℣. Priúsquam montes fíerent aut formarétur terra et orbis: a sæculo et usque in sæculum tu es, Deus.

**Allelúja,** allelúja. ℣. In éxitu Israel de Ægýpto, domus Jacob de pópulo bárbaro. Allelúja.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 89, 1-2.* Drottinn, þú hefur gjörzt athvarf vort frá kyni til kyns. ℣. Áður en fjöllin fæddust og jörðin og heimurinn urðu til; frá eilífð til eilífðar ert þú, Guð.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 113, 1.* ℣. Þegar Ísrael fór út úr Egiptalandi, Jakobs ætt frá framandi þjóð. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 18, 23-35.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis parábolam hanc: Assimilátum est regnum cælórum hómini regi, qui vóluit ratiónem pónere cum servis suis. Et cum cœpísset ratiónem pónere, oblátus est ei unus, qui debébat ei decem míllia talénta. Cum autem non habéret, unde rédderet, jussit eum dóminus ejus venúmdari et uxórem ejus et fílios et ómnia, quæ habébat, et reddi. Prócidens autem servus ille, orábat eum, dicens: Patiéntiam habe in me, et ómnia reddam tibi. Misértus autem dóminus servi illíus, dimísit eum et débitum dimísit ei. Egrés-

Á þeim tíma sagði Jesús lærisveinum sínum þessa dæmisögu: Líkt er ríki himnanna konungi einum, sem gjöra vildi upp reikning við þjóna sína. En er hann var byrjaður að gjöra upp, var færður til hans einn, er skuldaði (honum) tíu þúsund talentur. En er hann hafði ekkert til að borga með, skipaði herra hans að selja skyldi hann, konu hans og börn og allar eigur hans og skuldin borgast. Þá féll þjónninn fram, laut honum og sagði: Herra, haf biðlund við mig, og ég mun borga þér allt. En herra þjóns þessa kenndi í brjósti um hann, lét hann lausan og gaf honum upp skuldina. En er hann fór

sus autem servus ille, invénit unum de consérvis suis, qui debébat ei centum denários: et tenens suffocábat eum, dicens: Redde, quod debes. Et prócidens consérvus ejus, rogábat eum, dicens: Patiéntiam habe in me, et ómnia reddam tibi. Ille autem nóluit: sed ábiit, et misit eum in cárcerem, donec rédderet débitum. Vidéntes autem consérvi ejus, quæ fiébant, contristáti sunt valde: et venérunt et narravérunt dómino suo ómnia, quæ facta fúerant. Tunc vocávit illum dóminus suus: et ait illi: Serve nequam, omne débitum dimísi tibi, quóniam rogásti me: nonne ergo opórtuit et te miseréri consérvi tui, sicut et ego tui misértus sum? Et irátus dóminus ejus, trádidit eum tortóribus, quoadúsque rédderet univérsum débitum. Sic et Pater meus cæléstis fáciet vobis, si non remiséritis unusquísque fratri suo de córdibus vestris. – **Credo.**

**Offertorium.** Vir erat in terra Hus, nómine Job: simplex et rectus ac timens Deum: quem Satan pétiit ut

út, hitti þessi þjónn einn af samþjónum sínum, sem skuldaði honum hundrað denara; og hann greip hann, tók fyrir kverkar honum og sagði: Borga það, sem þú skuldar. Samþjónn hans féll þá fram, bað hann og sagði: Haf biðlund við mig, og ég mun borga þér (allt). En hann vildi eigi, heldur fór og varpaði honum í fangelsi, unz hann hefði borgað skuldina. En er nú samþjónar hans sáu, hvað orðið var, urðu þeir mjög hryggir; og þeir komu og sögðu húsbónda sínum allt, sem orðið var. Þá lét húsbóndi hans kalla hann til sín og segir við hann: Illi þjónn, ég gaf þér upp alla skuldina, með því að þú baðst mig; bar þá eigi einnig þér að vera miskunnsamur við samþjón þinn, eins og ég var miskunnsamur við þig? Og húsbóndi hans varð reiður og seldi hann í hendur böðlunum, þangað til hann hefði borgað alla skuldina. Þannig mun einnig Faðir minn himneskur breyta við yður, ef þér fyrirgefið ekki hver og einn af hjarta bróður yðar. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Job. 1.* Í Úzlandi var maður, nefndur Job; hann var maður ráðvandur (einfaldur) og réttlátur og guðhrædd-

tentáret: et data est ei potéstas a Dómino in facultátes et in carnem ejus: perdidítque omnem substántiam ipsíus et fílios: carnem quoque ejus gravi úlcere vulnerávit.

ur. Satan bað um að mega freista hans, og honum var gefið vald af Drottni yfir eigum hans og líkama. Hann svipti hann öllum eigum hans og börnum og sló líkama hans illkynjuðum kaunum.

**Secreta.** Súscipe, Dómine, propítius hóstias: quibus et te placári voluísti, et nobis salútem poténti pietáte restítui. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, þigg þú náðarsamlega fórnargjafirnar, sem þú vilt friðþægjast fyrir og veita oss aftur hjálpræði með máttugri föðurelsku. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar,* *sjá bls. 25.*

**Communio.** In salutári tuo ánima mea, et in verbum tuum sperávi: quando fácies de persequéntibus me judícium? iníqui persecúti sunt me, ádjuva me, Dómine, Deus meus.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 118, 81, 84 og 86.* Sál mín örmagnast af þrá eftir hjálpræði þínu, á þitt orð vona ég. Hvenær munt þú heyja dóm á ofsækjendum mínum? Illgjörðamenn ofsækja mig, veit þú mér lið, (Drottinn, Guð minn).

**Postcommunio.** Immortalitátis alimóniam consecúti, quæsumus, Dómine: ut, quod ore percépimus, pura mente sectémur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér höfum meðtekið fæðu ódauðleikans og biðjum þig, Drottinn, að vér sækjumst ætíð með hreinum huga eftir því, sem vér höfum neytt með munni vorum. Fyrir Drottin vorn . . .

## TUTTUGASTI OG ANNAR SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Si iniquitátes observáveris, Dómine: Dó-

**Inngönguvers.** *Sálm. 129,3-4.* Ef þú, Drottinn, gefur gætur

mine, quis sustinébit? quia apud te propitiátio est, Deus Israel. *Ps.* De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi vocem meam. ℣. Glória Patri . . .

að misgjörðum, Drottinn, hver fær þá staðizt? En hjá þér er fyrirgefning, Guð Ísraels. *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, refúgium nostrum et virtus: adésto piis Ecclésiæ tuæ précibus, auctor ipse pietátis, et præsta; ut, quod fidéliter pétimus, efficáciter consequámur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Guð, þú athvarf vort og styrkur, heyr guðrækilegar bænir kirkju þinnar, þú, sem sjálfur ert upphaf guðrækninnar, og gef, að það, sem vér biðjum um með trausti, megum vér og öðlast raunverulega. Fyrir Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Filippímanna. 1, 6-11.*

FRATRES: Confídimus in Dómino Jesu, quia, qui cœpit in vobis opus bonum, perfíciet usque in diem Christi Jesu. Sicut est mihi justum hoc sentíre pro ómnibus vobis: eo quod hábeam vos in corde, et in vínculis meis, et in defensióne, et confirmatióne Evangélii, sócios gáudii mei omnes vos esse. Testis enim mihi est Deus, quómodo cúpiam omnes vos in viscéribus Jesu Christi. Et hoc oro, ut cáritas vestra magis ac magis abúndet in sciéntia et in om-

BRÆÐUR: Vér fulltreystum því, (í Drottni Jesú) að hann, sem byrjaði á yður góða verkið, muni fullkomna það allt til dags Jesú Krists. Víst er það rétt fyrir mig að bera þennan huga til yðar allra, þar eð ég hef yður í hjarta mínu, þar sem þér eruð allir hluttakandi ásamt mér í gleðinni (í náðinni), bæði í fjötrum mínum og við vörn og staðfesting fagnaðarerindisins. Því að Guð er mér þess vitni, hvernig ég þrái yður alla með hjarta (ástúð) Krists Jesú. Og þetta bið ég um, að elska yðar aukist ennþá meir og meir

ni sensu: ut probétis potióra, ut sitis sincéri et sine offénsa in diem Christi, repléti fructu justitiæ per Jesum Christum, in glóriam et laudem Dei.

að þekkingu og allri greind, svo að þér getið greint það, sem mestu máli skiptir, til þess að þér séuð hreinir og ámælislausir til dags Krists, auðugir að réttlætis ávexti, þeim, er fæst fyrir Jesúm Krist, til dýrðar og lofs Guði.

**Graduale.** Ecce, quam bonum et quam jucúndum, habitáre fratres in unum! ℣. Sicut unguéntum in cápite, quod descéndit in barbam, barbam Aaron.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 132, 1-2.* Sjá, hversu gott og yndislegt það er, að bræður búi saman. ℣. Eins og hin ágæta olía á höfðinu, er rennur niður í skeggið, skegg Arons.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Qui timent Dóminum sperent in eo: adjútor et protéctor eórum est. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 113, 19.* ℣. Þeir, sem óttast Drottin, treysta honum (Drottni); hann er hjálp þeirra og skjöldur. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 22, 15-21.*

In illo témpore: Abeúntes pharisæi consilium iniérunt, ut cáperent Jesum in sermóne. Et mittunt ei discípulos suos cum Herodiánis, dicéntes: Magíster, scimus, quia verax es et viam Dei in veritáte doces, et non est tibi cura de áliquo: non enim réspicis persónam hóminum: dic ergo nobis, quid tibi vidétur, licet censum

Á þeim tima gengu Faríseарnir burt og báru ráð sin saman um, hvernig þeir gætu flækt hann (Jesúm) i orði. Og þeir senda til hans lærisveina sína, ásamt Heródesar-sinnum, er segja: Meistari, vér vitum, að þú ert sannorður og kennir Guðs veg í sannleika og hirðir eigi um neinn; því að ekki fer þú að mannvirðingum; seg oss því, hvað virðist þér, leyfist að

dare Cæsari, an non? Cógnita autem Jesus nequítia eórum, ait: Quid me tentátis, hypócritæ? Osténdite mihi numísma census. At illi obtulérunt ei denárium. Et ait illis Jesus: Cujus est imágo hæc et superscríptio? Dicunt ei: Cæsaris. Tunc ait illis: Réddite ergo, quæ sunt Cæsaris, Cæsari; et, quæ sunt Dei, Deo. – **Credo.**

gjalda keisaranum skatt eða ekki? En þar sem Jesús þekkti illsku þeirra, sagði hann: Hví freistið þér mín, hræsnarar? Sýnið mér skattpeninginn. En þeir færðu honum denar. Og hann (Jesús) segir við þá: Hvers mynd og yfirskrift er þetta? Þeir segja við hann: Keisarans. Þá segir hann við þá: Gjaldið þá keisaranum það, sem keisarans er, og Guði það, sem Guðs er. **Credo.**

**Offertorium.** Recordáre mei, Dómine, omni potentátui dóminans: et da sermónem rectum in os meum, ut pláceant verba mea in conspéctu príncipis.

**Fórnunarvers.** *Est. 14, 12 og 13.* Minnztu mín, Drottinn, þú, sem drottnar yfir öllum völdum, og legg mér í munn viðeigandi orð, svo að ræða mín sé velþóknanleg fyrir augliti konungsins.

**Secreta.** Da, miséricors Deus: ut hæc salutáris oblátio et a própriis nos reátibus indesinénter expédiat, et ab ómnibus tueátur advérsis. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Veit þú, miskunnsami Guð, að þessi heillavænlega fórn frelsi oss stöðugt frá eigin yfirsjónum og verndi oss fyrir öllu andstreymi. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Ego clamávi, quóniam exaudísti me, Deus: inclína aurem tuam et exáudi verba mea.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 16,6.* Ég kalla á þig, því að þú bænheyrir mig, Guð. Ljá eyra, hlýð á orð mín.

**Postcommunio.** Súmpsimus, Dómine, sacri dona mystérii, humíliter depre-

**Kommúniubæn.** Drottinn, vér höfum neytt gjafa hins heilaga leyndardóms og biðjum þig

cántes: ut, quæ in tui commemoratiónem nos fácere præcepísti, in nostræ profíciant infirmitátis auxílium: Qui vivis et regnas . . .

auðmjúklega, að það, sem þú hefur fyrirskipað oss að gjöra í þína minningu, verði oss til hjálpar í veikleika vorum. Þú, sem lifir og ríkir . . .

## TUTTUGASTI OG ÞRIÐJI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invocábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Jer. 29, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyrirætlanir til heilla (friðar), en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Absólve, quæsumus, Dómine, tuórum delícta populórum: ut a peccatórum néxibus, quæ pro nostra fragilitáte contráximus, tua benignitáte liberémur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, fyrirgef þú misgjörðir lýðs þíns, svo að vér leysumst fyrir gæzku þína úr syndafjötrunum, sem vér höfum hneppzt í sakir breyskleika vors. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Filippímanna. 3, 17-21: 4, 1-3.*

FRATRES: Imitatóres mei estóte, et observáte eos, qui ita ámbulant, sicut habétis formam nostram. Multi

BRÆÐUR: Verið eftirbreytendur mínir, og festið sjónir yðar á þeim, sem breyta eftir þeirri fyrirmynd, er vér höfum

enim ámbulant, quos sæpe dicébam vobis (nunc autem et flens dico) inimícos Crucis Christi: quorum finis intéritus: quorum Deus venter est: et glória in confusióne ipsórum, qui terréna sápiunt. Nostra autem conversátio in cælis est: unde étiam Salvatórem exspectámus, Dóminum nostrum Jesum Christum, qui reformábit corpus humilitátis nostræ, configurátum córpori claritátis suæ, secúndum operatiónem, qua étiam possit subjícere sibi ómnia. Itaque, fratres mei caríssimi et desideratíssimi, gáudium meum et coróna mea: sic state in Dómino, caríssimi. Evódiam rogo et Sýntychen déprecor idípsum sápere in Dómino. Etiam rogo et te, germáne compar, ádjuva illas, quæ mecum laboravérunt in Evangélio cum Cleménte et céteris adjutóribus meis, quorum nómina sunt in libro vitæ.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos: et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine

gefið yður. Því að margir breyta, ég hef oft sagt yður það og nú segi ég það jafnvel grátandi, sem óvinir kross Krists; afdrif þeirra eru glötun; guð þeirra er maginn, og heiður þeirra er í svívirðingunni, þeir, er hafa hugann á jarðneskum munum. Því að föðurland (líf) vort er á himni, þaðan er vér og væntum sem Frelsara Drottins Jesú Krists, hans, sem mun breyta lægingarlíkama vorum í sömu mynd og dýrðarlíkami hans hefur, eftir þeim krafti, að hann og getur lagt allt undir sig. Þess vegna, mínir elskuðu og eftirþráðu bræður, gleði mín og kóróna, standið þá fastir í Drottni, þér elskuðu. Evodíu áminni ég og Sýntýke áminni ég um að vera samlyndar í Drottni. Já, ég bið einnig þig, trúlyndi samþjónn, hjálpa þú þeim, því að þær börðust með mér við boðun fagnaðarerindisins, ásamt Klemens og öðrum samverkamönnum mínum, og standa nöfn þeirra í lífsins bók.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum

tuo confitébimur in sæcula.

vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 9, 18-26.*

In illo témpore: Loquénte Jesu ad turbas, ecce, princeps unus accéssit et adorábat eum, dicens: Dómine, fília mea modo defúncta est: sed veni, impóne manum tuam super eam, et vivet. Et surgens Jesus sequebátur eum et discípuli ejus. Et ecce múlier, quæ sánguinis fluxum patiebátur duódecim annis, accéssit retro et tétigit fímbriam vestiménti ejus. Dicébat enim intra se: Si tetígero tantum vestiméntum ejus, salva ero. At Jesus convérsus et videns eam, dixit: Confíde, fília, fides tua te salvam fecit. Et salva facta est múlier ex illa hora. Et cum venísset Jesus in domum príncipis, et vidísset tibícines et turbam tumultuántem, dicébat: Recédite: non est enim mórtua puélla,

Á þeim tíma, þegar Jesús var að tala við mannfjöldann, sjá, þá kom forstöðumaður nokkur, laut honum og mælti: Dóttir mín er nýskilin við, en kom þú og legg hönd þína yfir hana og hún mun lifa. Og Jesús stóð upp og fylgdi honum, svo og lærisveinar hans. Og sjá, kona nokkur, sem hafði haft blóðlát í tólf ár, kom að baki honum og snart fald yfirhafnar hans; því að hún sagði með sjálfri sér; Ef ég aðeins fæ snortið yfirhöfn hans, mun ég heil verða. En Jesús sneri sér við, og er hann leit hana, sagði hann: Vertu hughraust, dóttir, trú þín hefur gjört þig heila. Og konan varð heil frá þeirri stundu. Og er Jesús kom í hús forstöðumannsins og sá þar píparana og mannfjöldann, sem var með þys, sagði hann: Farið burt, því að litla stúlkan er ekki dáin, heldur

sed dormit. Et deridébant eum. Et cum ejécta esset turba, intrávit et ténuit manum ejus. Et surréxit puélla. Et éxiit fama hæc in univérsam terram illam. – **Credo.**

sefur hún. Og þeir hlógu að honum. En er búið var að reka mannfjöldann út, gekk hann inn og tók í hönd henni. Og litla stúlkan reis upp. Og fregnin um þetta barst út um allt það hérað. – **Credo.**

**Offertorium.** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Secreta.** Pro nostræ servitútis augménto sacrifícium tibi, Dómine, laudis offérimus: ut, quod imméritis contulísti, propítius exsequáris. Per Dóminum nostrum...

**Lágabæn.** Drottinn, til að gjöra þjónustu vora fullkomnari færum vér þér þessa lofgjörðarfórn, svo að þú megir framfylgja því náðarsamlega, sem þú hefur veitt oss að óverðskulduðu. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Amen, dico vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

**Kommúníuvers.** *Mark. 11, 24.* Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það), og þér munuð fá það.

**Postcommunio.** Quæsumus, omnípotens Deus: ut, quos divína tríbuis participatióne gaudére, humánis non sinas subjacére perículis. Per Dóminum nostrum...

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, að láta þá ekki bugast af jarðneskum háskasemdum, er þú gleður með hluttöku í guðdómlegum leyndardómum. Fyrir Drottin vorn . . .

## ÞRIÐJI SUNNUDAGUR EFTIR ÞRETTÁNDA [1]

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invocábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, infirmitátem nostram propítius réspice: atque, ad protegéndum nos, déxteram tuæ majestátis exténde. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Jer. 19, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyrirætlanir til heilla (friðar), en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, lít þú líknsamlega á veikleika vorn, og rétt þú út hægri hönd hátignar þinnar oss til verndar. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Rómverja. 12, 16-21.*

FRATRES: Nolíte esse prudéntes apud vosmetípsos: nulli malum pro malo reddéntes: providéntes bona non tantum coram Deo, sed étiam coram ómnibus homínibus. Si fíeri potest, quod ex vobis est, cum ómnibus homínibus pacem habéntes:

BRÆÐUR: Ætlið yður eigi hyggna með sjálfum yður; gjaldið engum illt fyrir illt; stundið hið góða, ekki aðeins fyrir Guði, heldur einnig fyrir öllum mönnum. Ef mögulegt er, að því er til yðar kemur, þá hafið frið við alla menn; hefnið yðar ekki, þér elskaðir, heldur

1) Þegar sunnudagarnir eftir hvítasunnu eru fleiri en tuttugu og fjórir, eru eftir tuttugasta og þriðja sunnudag teknar upp þriðja, fjórða, fimmta og sjötta sunnudagsmessa eftir þrettánda eftir þörfum; en síðasta sunnudag kirkjuársins er ætíð lesin messa tuttugasta og fjórða sunnudags eftir hvítasunnu.

Non vosmetípsos defendéntes, caríssimi, sed date locum iræ. Scriptum est enim: Mihi vindícta: ego retríbuam, dicit Dóminus. Sed si esuríerit inimícus tuus, ciba illum: si sitit, potum da illi: hoc enim fáciens, carbónes ignis cóngeres super caput ejus. Noli vinci a malo, sed vince in bono malum.

lofið reiðinni[1] að komast að. Því að ritað er: Mín er hefndin, ég mun endurgjalda, segir Drottinn. En ef óvin þinn hungrar, þá gef honum að eta; ef hann þyrstir, þá gef honum að drekka; því að með því að gjöra þetta, safnar þú glóðum elds á höfuð honum. Lát ekki hið vonda yfirbuga þig, heldur sigra þú illt með góðu.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos, et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine tuo confitébimur in sæcula.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 8, 1-13.*

In illo témpore: Cum descendísset Jesus de monte, secútæ sunt eum turbæ multæ: et ecce, leprósus véniens adorábat eum, dicens: Dómine, si vis, potes me mundáre. Et exténdens Jesus manum, tégitit eum, dicens:

Á þeim tíma, er Jesús var stiginn niður af fjallinu, fylgdi honum mikill mannfjöldi. Og sjá, líkþrár maður kom til hans, laut honum og mælti: Herra, ef þú vilt, getur þú hreinsað mig. Og Jesús rétti út höndina, snart hann og sagði:

1) reiði Guðs.

Volo. Mundáre. Et conféstim mundáta est lepra ejus. Et ait illi Jesus: Vide, némini díxeris: sed vade, osténde te sacerdóti, et offer munus, quod præcépit Móyses, in testimónium illis. Cum autem introísset Caphárnaum, accéssit ad eum centúrio, rogans eum et dicens: Dómine, puer meus jacet in domo paralýticus, et male torquétur. Et ait illi Jesus: Ego véniam et curábo eum. Et respóndens centúrio, ait: Dómine, non sum dignus, ut intres sub tectum meum: sed tantum dic verbo, et sanábitur puer meus. Nam et ego homo sum sub potestáte constitútus, habens sub me mílites, et dico huic: Vade, et vadit: et álii: Veni, et venit; et servo meo: Fac hoc, et facit. Audiens autem Jesus, mirátus est, et sequéntibus se dixit: Amen dico vobis, non invéni tantam fidem in Israël. Dico autem vobis, quod multi ab Oriénte et Occidénte vénient, et recúmbent cum Abraham et Isaac, et Jacob in regno cælórum: fílii autem regni ejiciéntur in ténebras exterió-

Ég vil, verð þú hreinn. Og jafnskjótt varð líkþrá hans hrein. Og Jesús segir við hann: Gæt þess, að segja það engum, en far burt, sýn þig prestinum og ber fram gjöfina, sem Móse skipaði fyrir, þeim til vitnisburðar. En er hann var farinn inn í Kapernaum, kom til hans hundraðshöfðingi, bað hann og sagði: Herra, þjónn minn liggur heima lami og er mjög þungt haldinn. Og Jesús sagði við hann: Ég mun koma og lækna hann. Og hundraðshöfðinginn svaraði og sagði: Herra, ég er ekki verður þess, að þú gangir inn undir þak mitt; en seg það aðeins með orði, og þjónn minn mun verða heilbrigður. Því að ég er og maður, sem yfirvaldi á að lúta og hef hermenn undir mér, og ég segi við þennan: Far þú, og hann fer, og við annan: Kom þú, og hann kemur, og við þjón minn: Gjör þú þetta, og hann gjörir það. En er Jesús heyrði það, undraðist hann og mælti við þá, sem fylgdu honum: Sannlega segi ég yður, ekki einu sinni í Ísrael hef ég fundið svo mikla trú. En ég segi yður, að margir munu koma frá austri og vestri og sitja til borðs með

res: ibi erit fletus, et stridor déntium. Et dixit Jesus centurióni: Vade, et sicut credidísti, fiat tibi. Et sanátus est puer in illa hora. – **Credo.**

Abraham og Ísak og Jakob í himnaríki; en sonum ríkisins mun verða varpað út í myrkrið fyrir utan; þar mun verða grátur og gnístran tanna. Og Jesús sagði við hundraðshöfðingjann: Far þú, verði þér eins og þú trúðir. Og þjónninn varð heilbrigður á þeirri stundu. – **Credo.**

**Offertorium.** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Secreta.** Hæc hóstia, Dómine, quæsumus, emúndet nostra delícta: et, ad sacrifícium celebrándum, subditórum tibi córpora mentésque sanctíficet. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að þessi fórn hreinsi oss af misgjörðum vorum og búi þegna þína undir þessa fórnfæringu með því að helga þá á líkama og sál. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communío.** Amen, dico vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

**Kommúníuvers.** *Mark. 11, 24.* Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið, að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það), og þér munuð fá það.

**Postcommunio.** Quos tantis, Dómine, largíris uti mystériis: quæsumus; ut effféctibus nos eórum verácíter aptáre dignéris. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, þú sem hefur látið oss verða aðnjótandi þessara miklu leyndardóma, að þér þóknist að gjöra oss samboðna áhrifum þeirra. Fyrir Drottin vorn . . .

## FJÓRÐI SUNNUDAGUR EFTIR ÞRETTÁNDA

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invocábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Jer. 29, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyrirætlanir til heilla (friðar), en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui nos, in tantis perículis constitútos, pro humána scis fragilitáte non posse subsístere: da nobis salútem mentis et córporis; ut ea, quæ pro peccátis nostris pátimur, te adjuvánte vincámus. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem veizt, að vér, sem erum í svo miklum háska staddir, fáum ekki staðizt vegna mannlegs breyskleika, gjör oss heila á sál og líkama, til þess að með hjálp þinni vinnum vér bug á því, sem vér verðum að líða sakir synda vorra. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Rómverja. 13, 8-10.*

FRATRES: Némini quidquam debeátis, nisi ut ínvicem diligátis: qui enim díligit próximum, legem implévit. Nam: Non adulterábis: Non occídes: Non furáberis: Non falsum testimónium dices: Non concupísces: et si quod est áliud

BRÆÐUR: Skuldið ekki neinum neitt nema það eitt að elska hver annan, því að sá, sem elskar náunga sinn, hefur uppfyllt lögmálið. Því að þetta: Þú skalt ekki drýgja hór; þú skalt ekki mann vega; þú skalt ekki stela; þú skalt ekki bera ljúgvitni; þú skalt ekki girnast; og

mandátum, in hoc verbo instaurátur: Díliges próximum tuum sicut teípsum. Diléctio próximi malum non operátur. Plenitúdo ergo legis est diléctio.

hvert annað boðorð, er í þessum orðum innifalið: Þú skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig. Kærleikurinn gjörir ekki náunganum mein. Kærleikurinn er því uppfylling lögmálsins.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos: et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine tuo confitébimur in sæcula.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 8, 23-27.*

In illo témpore: Ascendénte Jesu in navículam, secúti sunt eum discípuli ejus: et ecce, motus magnus factus est in mari, ita ut navícula operirétur flúctibus, ipse vero dormiébat. Et accessérunt ad eum discípuli ejus, et suscitavérunt eum, dicéntes: Dómine, salva nos, perímus. Et dicit eis Jesus: Quid tímidi estis, módicæ fídei? Tunc surgens, imperávit ventis et

Á þeim tíma steig Jesús niður í bát, og fylgdu lærisveinar hans honum. Og sjá, þá gjörði svo mikið veður á vatninu, að bátinn huldi af bylgjunum, en hann svaf. Og lærisveinar hans komu og vöktu hann og sögðu: Herra, bjarga þú oss, vér förumst. Og Jesús segir við þá: Hví eruð þér hræddir, lítiltrúaðir? Þá stóð hann upp og hastaði á vindana og vatnið, og blíðalogn varð. En mennirn-

mari, et facta est tranquíllitas magna. Porro hómines miráti sunt, dicéntes: Qualis est hic, quia venti et mare obédiunt ei? – **Credo.**

ir undruðust þetta og sögðu: Hvílíkur maður er þetta, að vindarnir og vatnið hlýða honum? – **Credo.**

**Offertorium.** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1, 2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Secreta.** Concéde, quæsumus, omnipotens Deus: ut hujus sacrifícii munus oblátum fragilitátem nostram ab omni malo purget semper et múniat. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, veit þú, að þessi fórnfæring hreinsi ávallt breyskleika vorn af öllu illu og verndi hann fyrir því. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Amen, dico vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

**Kommúníuvers.** *Mark. 11, 24.* Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið, að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það) og þér munuð fá það.

**Postcommunio.** Múnera tua nos, Deus, a delectatiónibus terrénis expédiant: et cæléstibus semper instáurent aliméntis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Guð, megi gjafir þínar leysa oss frá jarðneskum munaði og endurnæra oss ávallt með himneskri fæðu. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## FIMMTI SUNNUDAGUR EFTIR ÞRETTÁNDA

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invo-

**Inngönguvers.** *Jer. 29, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyrirætlanir til heilla (friðar),

cábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri . . .

en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Famíliam tuam, quæsumus, Dómine, contínua pietáte custódi: ut, quæ in sola spe grátiæ cæléstis innítitur, tua semper protectióne muniátur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, varðveit þú með stöðugri gæzku söfnuð þinn, sem styðst eingöngu við von um himneska náð, svo að hann njóti ávallt verndar þinnar. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Kólossumanna. 3, 12-17.*

FRATRES: Indúite vos sicut elécti Dei, sancti, et dilécti, viscera misericórdiæ, benignitátem, humilitátem, modéstiam, patiéntiam, supportántes ínvicem, et donántes vobismetípsis si quis advérsus áliquem habet querélam: sicut et Dóminus donávit vobis, ita et vos. Super ómnia autem hæc, caritátem habéte, quod est vínculum perfectiónis: et pax Christi exsúltet in córdibus vestris, in qua et vocáti estis in uno córpore: et grati estóte. Ver-

BRÆÐUR: Íklæðizt eins og Guðs útvaldir, heilagir og elskaðir, hjartgróinni meðaumkun, góðvild, auðmýkt, hógværð, þolinmæði; umberið hver annan og fyrirgefið hver öðrum, ef einhver hefur sök á hendur öðrum; eins og Drottinn hefur fyrirgefið yður, svo skuluð þér og gjöra. En íklæðizt yfir allt þetta elskunni, sem er band fullkomleikans; og látið frið Krists ríkja í hjörtum yðar, því að til friðar voruð þér og kallaðir í einum líkama; og verið þakklátir. Látið orð Krists

bum Christi hábitet in vobis abundánter, in omni sapiéntia docéntes, et commonéntes vosmetípsos, psalmis, hymnis, et cánticis spirituálibus, in grátia cantántes in córdibus vestris Deo. Omne, quodcúmque fácitis in verbo, aut in ópere, ómnia in nómine Dómini Jesu Christi, grátias agéntes Deo et Patri per Jesum Christum, Dóminum nostrum.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos: et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine tuo confitébimur in sæcula.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

búa ríkulega hjá yður með allri speki; fræðið og áminnið hver annan með sálmum, lofsöngvum og andlegum ljóðum og syngið Guði þakklátlega lof í hjörtum yðar. Og hvað sem þér svo gjörið í orði eða verki, þá gjörið allt í nafni Drottins Jesú Krists, þakkandi Guði og Föðurnum fyrir Jesúm Krist, Drottinn vorn.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 13, 24-30,*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis parábolam hanc: Símile factum est regnum cælórum hómini, qui seminávit bonum semen in agro suo. Cum autem dormírent hómines, venit inimícus ejus, et superseminávit zizánia in médio trítici, et ábiit.

Á þeim tíma setti Jesús fram þessa dæmisögu fyrir mannfjöldann: Likt er himnaríki manni, er sáði góðu sæði í akur sinn. En meðan fólkið svaf, kom óvinur hans og sáði illgresi meðal hveitisins og fór síðan burt. En er kornið var sprottið og hafði borið ávöxt,

Cum autem crevísset herba et fructum fecísset, tunc apparuérunt et zizánia. Accedéntes autem servi patrisfamílias, dixérunt ei: Dómine, nonne bonum semen seminásti in agro tuo? Unde ergo habet zizánia? Et ait illis: Inimícus homo hoc fecit. Servi autem dixérunt ei: Vis, imus, et collígimus ea? Et ait: Non: ne forte colligéntes zizánia eradicétis simul cum eis et tríticum. Sínite útraque créscere usque ad messem, et in témpore messis dicam messóribus: Collígite primum zizánia, et alligáte ea in fascículos ad comburéndum, tríticum autem congregáte in hórreum meum. – **Credo.**

þá kom og illgresið í ljós. Þá komu þjónar húsbóndans og sögðu við hann: Herra, sáðir þú ekki góðu sæði í akur þinn? Hvaðan kemur honum þá illgresið? En hann mælti við þá: Þetta hefur óvinveittur maður gjört. En þjónarnir sögðu við hann: Viltu þá, að vér förum og tínum það? En hann sagði: Nei, svo að þér eigi, er þér tínið illgresið, reytið hveitið upp ásamt því. Látið hvorttveggja vaxa saman til kornskurðarins, og er kornskurðartíminn kemur, mun ég segja við kornskurðarmennina: Tínið fyrst illgresið og bindið það í bundin, til þess að brenna það, en safnið hveitinu í kornhlöðu mína. – **Credo.**

**Offertorium.** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Secreta.** Hóstias tibi, Dómine, placatiónis offérimus: ut et delícta nostra miserátus absólvas, et nutántia corda tu dírigas. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér færum þér, Drottinn, friðþægingarfórnargjafir, til þess að þú fyrirgefir miskunnsamlega afbrot vor og leiðbeinir hvarflandi hjörtum vorum. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Amen, dico

**Kommúníuvers.** *Mark. 11.*

vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

24. Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið, að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það), og þér munuð fá það.

**Postcommunio.** Quæsumus, omnípotens Deus: ut illíus salutáris capiámus efféctum, cujus per hæc mystéria pignus accépimus. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, að vér öðlumst raunverulega þá sáluhjálp, sem þessir leyndardómar veita oss tryggingu fyrir. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## SJÖTTI SUNNUDAGUR EFTIR ÞRETTÁNDA

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invocábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Jer. 29, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyriræltlanir til heilla (friðar), en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Præsta, quæsumus, omnípotens Deus: ut, semper rationabília meditántes, quæ tibi sunt plácita, et dictis exsequámur et factis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, veit þú, að vér festum ávallt huga vorn við það, sem skynsamlegt er, og framkvæmum í orði og verki það, sem þér er velþóknanlegt. Fyrir Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Þessaloníkumanna. 1, 2-10.*

FRATRES: Grátias ágimus Deo semper pro ómnibus vobis, memóriam vestri faciéntes in oratiónibus nostris sine intermissióne, mémores óperis fídei vestræ, et labóris, et caritátis, et sustinéntiæ spei Dómini nostri Jesu Christi, ante Deum et Patrem nostrum: sciéntes, fratres, dilécti a Deo, electiónem vestram: quia Evangélium nostrum non fuit ad vos in sermóne tantum, sed et in virtúte, et in Spíritu Sancto, et in plenitúdine multa, sicut scitis quales fuérimus in vobis propter vos. Et vos imitatóres nostri facti estis, et Dómini, excipiéntes verbum in tribulatióne multa, cum gáudio Spíritus Sancti: ita ut facti sitis forma ómnibus credéntibus in Macedónia, et in Achája. A vobis enim diffamátus est sermo Dómini, non solum in Macedónia et in Achája, sed et in omni loco fides vestra, quæ est ad Deum, profécta est, ita ut non sit nobis necésse quid-

BRÆÐUR: Vér þökkum ávallt Guði fyrir yður alla, er vér minnumst yðar í bænum vorum án afláts, minnugir fyrir augsýn Guðs og Föður vors verks yðar í trúnni og erfiðis yðar í kærleikanum og stöðuglyndis yðar í voninni á Drottin vorn Jesúm Krist. Vér vitum, bræður, elskaðir af Guði, að þér eruð útvaldir, því að fagnaðarboðskapur vor kom eigi til yðar í orðum einum, heldur einnig í krafti og i Heilögum Anda og með fullkominni sannfæringu. Þér vitið, hvernig vér komum fram hjá yður yðar vegna. Og þér hafið gjörzt eftirbreytendur vorir og Drottins, er þér tókuð á móti orðinu með fögnuði Heilags Anda, þrátt fyrir mikla þrengingu, svo að þér eruð orðnir fyrirmynd öllum trúuðum í Makedóníu og í Akkeu, því að frá yður hefur orð Drottins hljómað, ekki aðeins í Makedóníu og Akkeu, heldur er og trú yðar á Guð kunn orðin allsstaðar, svo að vér þurfum ekkert um það að tala. Því að þeir segja sjálfir frá því um oss, hvílíka komu vér áttum til yðar,

quam loqui. Ipsi enim de nobis annúntiant, qualem intróitum habuérimus ad vos: et quómodo convérsi estis ad Deum a simulácris, servíre Deo vivo et vero, et exspectáre Fílium ejus de cælis (quem suscitávit ex mórtuis) Jesum, qui erípuit nos ab ira ventúra.

og hvernig þér sneruð yður til Guðs frá skurðgoðunum, til þess að þjóna lifandi og sönnum Guði, og væntið nú Sonar hans frá himnum, sem hann uppvakti frá dauðum, Jesú, er frelsaði oss frá hinni komandi reiði.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos: et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine tuo confitébimur in sæcula.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 13, 31-35.*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis parábolam hanc: Símile est regnum cælórum grano sinápis, quod accípiens homo seminávit in agro suo: quod mínimum quidem est ómnibus semínibus: cum autem créverit, majus est ómnibus oléribus, et fit arbor, ita ut vólucres cæli véniant, et hábitent in

Á þeim tíma setti Jesús þessa dæmisögu fram fyrir mannfjöldann og mælti: Líkt er himnaríki mustarðskorni, er maður tók og sáði í akur sinn. Að vísu er það hverju sáðkorni smærra, en þegar það er sprottið, er það stærra hverri garðjurt og verður að tré, svo að fuglar himinsins koma og hreiðra sig í greinum þess. Aðra dæmisögu

ramis ejus. Aliam parábolam locútus est eis: Símile est regnum cælórum ferménto, quod accéptum múlier abscóndit in farínæ satis tribus, donec fermentátum est totum. Hæc ómnia locútus est Jesus in parábolis ad turbas: et sine parábolis non loquebátur eis: ut implerétur, quod dictum erat per Prophétam dicéntem: Apériam in parábolis os meum, eructábo abscóndita a constitutióne mundi. – **Credo.**

sagði hann þeim: Líkt er himnaríki súrdeigi, er kona tók og faldi í þremur mælum mjöls, unz það sýrðist allt saman. Allt þetta talaði Jesús í dæmisögum við mannfjöldann, en án dæmisagna talaði hann ekkert til þeirra, til þess að rættist það, sem talað er fyrir spámanninn, er hann segir: Ég mun opna munn minn í dæmisögum og mæla fram það, sem hulið hefur verið frá grundvöllun heimsins. – **Credo.**

**Offertorium** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Secreta.** Hæc nos oblátio, Deus, mundet, quæsumus, et rénovet, gubérnet et prótegat. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Guð, að þessi fórn hreinsi oss, endurnýji, leiði og verndi. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Amen, dico vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

**Kommúníuvers.** *Mark. 11, 24.* Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið, að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það), og þér munuð fá það.

**Postcommunio.** Cæléstibus, Dómine, pasti delíciis:

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að vér, endur-

quæsumus; ut semper éadem, per quæ veráciter vívimus, appetámus. Per Dóminum nostrum . . .

nærðir með himneskum unaðsemdum, sækjumst ávallt eftir því, sem í sannleika viðheldur lífi voru. Fyrir Drottin vorn . . .

## TUTTUGASTI OG FJÓRÐI SUNNUDAGUR EFTIR HVÍTASUNNU

**Introitus.** Dicit Dóminus: Ego cógito cogitatiónes pacis, et non afflictiónis: invocábitis me, et ego exáudiam vos: et redúcam captivitátem vestram de cunctis locis. *Ps.* Benedixísti, Dómine, terram tuam: avertísti captivitátem Jacob. ℣. Glória Patri...

**Inngönguvers.** *Jer. 29, 11, 12 og 14.* Drottinn segir: Ég hygg á fyrirætlanir til heilla (friðar), en ekki til óhamingju. Þér munuð ákalla mig, og ég mun bænheyra yður; og ég mun flytja yður á þann stað, þaðan, sem ég herleiddi yður. *Sálm. 84, 2.* Þú hefur verið landi þínu góðsamur, Drottinn, þú hefur snúið til góðs hlutskipti Jakobs. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Excita, quæsumus, Dómine, tuórum fidélium voluntátes: ut, divíni óperis fructum propénsius exsequéntes; pietátis tuæ remédia majóra percípiant. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, uppvek vilja þinna trúuðu, svo að með því að sækjast af meiri áhuga eftir ávexti hinnar guðdómlegu helgiþjónustu, megi þeir öðlast aukna hjálp föðurelsku þinnar. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Kólossumanna. 1, 9-14.*

FRATRES: Non cessámus pro vobis orántes et postulántes, ut impleámini agnitióne voluntátis Dei, in omni sapiéntia et intelléctu

BRÆÐUR: Vér látum ekki af að biðja fyrir yður og beiðast þess, að þér mættuð fyllast þekkingu á vilja hans (Guðs) í alls konar speki og andlegum

spiritáli: ut ambulétis digne Deo per ómnia placéntes: in omni ópere bono fructificántes, et crescéntes in sciéntia Dei: in omni virtúte confortáti secúndum poténtiam claritátis ejus in omni patiéntia, et longanimitáte cum gáudio, grátias agéntes Deo Patri, qui dignos nos fecit in partem sortis sanctórum in lúmine: qui erípuit nos de potestáte tenebrárum, et tránstulit in regnum Fílii dilectiónis suæ, in quo habémus redemptiónem per sánguinem ejus, remissiónem peccatórum.

**Graduale.** Liberásti nos, Dómine, ex affligéntibus nos: et eos, qui nos odérunt, confudísti. ℣. In Deo laudábimur tota die, et in nómine tuo confitébimur in sæcula.

**Allelúja,** allelúja. ℣. De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam. Allelúja.

skilningi, svo að þér hegðið yður eins og Drottni er samboðið, honum til þóknunar á allan hátt (í öllu) og berið ávöxt í öllu góðu verki og vaxið að þekkingu á Guði; verðið styrktir með hvers konar krafti eftir mætti dýrðar hans, til að umbera og þola allt með gleði, og þakkið Föðurnum, sem hefur gjört oss (yður) hæfa til að fá hlutdeild í arfleifð hinna heilögu í ljósinu og hrifið oss frá valdi myrkursins og flutt oss inn í ríki síns elskaða Sonar. En í honum eigum vér fyrir blóð hans endurlausnina, fyrirgefningu syndanna.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 43, 8-9.* Þú hefur frelsað oss, Drottinn, frá andstæðingum vorum og látið hatursmenn vora verða til skammar. ℣. Af Guði hrósum vér oss ætíð og lofum nafn þitt að eilífu.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 129, 1-2.* ℣. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 24, 15-35.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis: Cum vi-

Á þeim tíma, mælti Jesús til lærisveina sinna: Þegar

déritis abominatiónem desolatiónis, quæ dicta est a Daniéle Prophéta, stantem in loco sancto: qui legit, intélligat: tunc qui in Judæa sunt, fúgiant ad montes: et qui in tecto, non descéndat tóllere áliquid de domo sua: et qui in agro, non revertátur tóllere túnicam suam. Væ autem prægnántibus et nutriéntibus in illis diébus. Oráte autem, ut non fiat fuga vestra in híeme vel sábbato. Erit enim tunc tribulátio magna, qualis non fuit ab inítio mundi usque modo, neque fiet. Et nisi breviáti fuíssent dies illi, non fíeret salva omnis caro: sed propter eléctos breviabúntur dies illi. Tunc si quis vobis díxerit: Ecce, hic est Christus, aut illic: nolíte crédere. Surgent enim pseudochrísti et pseudoprophétæ, et dabunt signa magna et prodígia, ita ut in errórem inducántur (si fíeri potest) étiam elécti. Ecce, prædíxi vobis. Si ergo díxerint vobis: Ecce, in desérto est, nolíte exíre: ecce, in penetrálibus, nolíte crédere. Sicut enim fulgur exit ab Oriénte et pa-

þér sjáið viðurstyggð eyðingarinnar, sem talað er um af Daníel spámanni, standandi á helgum stað – lesarinn athugi það – þá flýi þeir, sem eru í Júdeu, upp á fjöllin. Sá, sem er uppi á þakinu, fari ekki ofan, til að sækja neitt, sem er í húsi hans; og sá, sem er á akrinum, snúi eigi aftur, til að taka yfirhöfn sína. En vei þeim, sem þungaðar eru, og þeim, sem börn hafa á brjósti á þeim dögum; en biðjið, að flótti yðar verði ekki um vetur né á hvíldardegi, því að þá mun verða svo mikil þrenging, að engin hefur þvílík verið frá upphafi heims allt til þessa, né heldur mun verða. Og ef dagar þessir yrðu ekki styttir, kæmist enginn maður af; en sakir hinna útvöldu munu þessir dagar verða styttir. Ef einhver þá segir við yður: Sjá, hér er Kristur (hinn Smurði) eða hér (þar), þá trúið því ekki. Því að upp munu rísa falskristar og falsspámenn, og þeir munu gjöra stór tákn og undur, til þess að leiða í villu, ef verða mætti, jafnvel hina útvöldu. Sjá, ég hef sagt yður það fyrir. Ef þeir því segja við yður: Sjá, hann er í óbyggðinni, þá farið eigi út þangað; sjá, hann er í herbergjunum,

ret usque in Occidéntem: ita erit et advéntus Fílii hóminis. Ubicúmque fúerit corpus, illic congregabúntur et áquilæ. Statim autem post tribulatiónem diérum illórum sol obscurábitur, et luna non dabit lumen suum, et stellæ cadent de cælo, et virtútes cælórum commovebúntur: et tunc parébit signum Fílii hóminis in cælo: et tunc plangent omnes tribus terræ: et vidébunt Filium hóminis veniéntem in núbibus cæli cum virtúte multa et majestáte. Et mittet Angelos suos cum tuba et voce magna: et congregábunt eléctos ejus a quátuor ventis, a summis cælórum usque ad términos eórum. Ab árbore autem fici díscite parábolam: cum jam ramus ejus tener fúerit et fólia nata, scitis, quia prope est æstas: ita et vos cum vidéritis hæc ómnia, scitóte, quia prope est in jánuis. Amen, dico vobis, quia non præteríbit generátio hæc, donec ómnia hæc fiant. Cælum et terra transíbunt, verba autem mea non præteríbunt. – **Credo.**

þá trúið því ekki. Því að eins og eldingin gengur út frá austri og skín allt til vesturs, þannig mun verða koma Mannssonarins. Þar sem hræið er, þar munu ernirnir safnast. En þegar eftir þrengingu þessara daga mun sólin sortna og tunglið eigi gefa skin sitt, og stjörnurnar munu hrapa af himni, og kraftar himnanna munu bifast. Og þá mun tákn Mannssonarins sjást á himninum, og þá munu allar kynkvíslir jarðarinnar kveina, og þær munu sjá Mannssoninn komandi á skýjum himins með mætti og mikilli dýrð. Og hann mun senda út engla sína með hljómsterkum lúðri, og þeir munu safna saman hans útvöldu frá áttunum fjórum, himinsendanna á milli. En nemið líkinguna af fíkjutrénu: Þegar greinin á því er orðin mjúk og fer að skjóta út laufum, þá vitið þér, að sumarið er í nánd. Þannig skuluð þér vita, þegar þér sjáið allt þetta, að það (hann) er i nánd, fyrir dyrum. Sannlega segi ég yður: Þessi kynslóð mun ekki líða undir lok, unz þetta allt kemur fram. Himinn og jörð munu líða undir lok, en orð mín munu ekki undir lok líða.

**Offertorium.** De profúndis clamávi ad te, Dómine: Dómine, exáudi oratiónem meam: de profúndis clamávi ad te, Dómine.

**Secreta.** Propítius esto, Dómine, supplicatiónibus nostris: et, pópuli tui oblatiónibus precibúsque suscéptis, ómnium nostrum ad te corda convérte; ut, a terrénis cupiditátibus liberáti, ad cæléstia desidéria transeámus. Per Dóminum nostrum . . .

**Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 129, 1-2.* Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn, Drottinn, heyr þú raust mína. Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn.

**Lágabæn.** Drottinn, heyr þú miskunnsamlega auðmjúkar bænir vorar, og snú þú hjörtum vor allra til þín, er þú hefur þegið fórnargjafir og bænir lýðs þíns, svo að vér megum, frelsaðir frá jarðneskum ástríðum, hverfa að himneskum löngunum. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia heilagrar Þrenningar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Amen, dico vobis, quidquid orántes pétitis, crédite, quia accipiétis, et fiet vobis.

**Postcommunio.** Concéde nobis, quæsumus, Dómine: ut per hæc sacraménta quæ súmpsimus, quidquid in nostra mente vitiósum est, ipsórum medicatiónis dono curétur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníuvers.** *Mark. 11, 24.* Sannlega segi ég yður: Hvers, sem þér biðjið í bæninni, þá trúið, að þér öðlist það (hafið þegar öðlazt það), og þér munuð fá það.

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit þú oss, að fyrir græðandi mátt þessara leyndardóma, er vér höfum neytt, megi allt það læknast, sem spillt er í sálu vorri. Fyrir Drottin vorn . . .

## HEILAGUR LÁRENTÍUS, PÍSLARVOTTUR

10. ÁGÚST

**Introitus.** Conféssio et pulchritúdo in conspéctu ejus: sánctitas et magnificéntia in sanctificatióne ejus. *Ps.* Cantáte Dómino cánticum novum: cantáte Dómino, omnis terra. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Da nobis, quæsumus, omnipotens Deus: vitiórum nostrórum flammas exstínguere; qui beáto Lauréntio tribuísti tormentórum suórum incéndia superáre. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 95, 6.* Tign og fegurð eru fyrir augliti hans; máttur og dýrð í helgidómi hans. *Sálm. 95, 1.* Syngið Drottni nýjan lofsöng, syngið Drottni, öll jarðríki. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi Guð, vér biðjum þig, veit, að logar lasta vorra slokkni í oss, þú, sem veittir hinum sæla Lárentíusi að sigrast á loga kvala sinna. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr síðara bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 9, 6-10.*

FRATRES: Qui parce séminat, parce et metet: et qui séminat in benedictiónibus, de benedictiónibus et metet. Unusquisque prout destinávit in corde suo, non ex tristítia aut ex necessitáte: hílarem enim datórem díligit Deus. Potens est autem Deus omnem grátiam abundáre fácere in vobis, ut, in ómnibus semper omnem

BRÆÐUR: Sá, sem sáir sparlega, mun og sparlega uppskera, og sá, sem sáir með blessunum,[1] mun og með blessunum uppskera. Sérhver gefi eins og hann hefur ásett sér í hjarta sínu, ekki með ólund eða með nauðung; því að Guð elskar glaðan gjafara. En Guð er þess megnugur að láta alla náð hlotnast yður ríkulega, til þess að þér í öllu og ávallt hafið allt,

1) ríkulega.

sufficiéntiam habéntes, abundétis in omne opus bonum, sicut scriptum est: Dispérsit, dedit paupéribus: justítia ejus manet in sæculum sæculi. Qui autem adminístrat semen seminánti: et panem ad manducándum præstábit, et multiplicábit semen vestrum, et augébit increménta frugum justítiæ vestræ.

sem þér þarfnist, og hafið gnægð til sérhvers góðverks, eins og ritað er: Hann miðlaði mildilega, gaf hinum snauðu, réttlæti hans varir að eilífu. En sá, sem gefur sáðmanninum sæði og brauð til fæðu, hann mun og gefa yður sáð og margfalda það og auka ávexti réttlætis yðar.

**Graduale.** Probásti, Dómine, cor meum, et visitásti nocte. ℣. Igne me examinásti, et non est invénta in me iníquitas.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 16, 3.* Drottinn, þegar þú rannsakar hjarta mitt, vitjar mín um nætur og reynir mig í eldi, þá finnur þú ekkert ranglæti í mér.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Levíta Lauréntius bonum opus operátus est: qui per signum crucis cæcos illuminávit. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Lárentíus levíti gjörði góðverk, hann, sem gaf blindum sýn með krossmarki. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 12, 24-26.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis: Amen, amen, dico vobis, nisi granum fruménti cadens in terram, mórtuum fúerit, ipsum solum manet: si autem mórtuum fúerit, multum fructum affert. Qui amat ánimam suam, perdet eam: et qui odit ánimam suam in

Á þeim tíma mælti Jesús til lærisveina sinna: Sannlega, sannlega segi ég yður: Falli hveitikornið ekki í jörðu og deyi, verður það einsamalt; en deyi það, ber það mikinn ávöxt. Sá, sem elskar líf sitt, glatar því, og sá, sem hatar líf sitt í þessum heimi, mun varðveita það til eilífs lífs. Vilji

hoc mundo, in vitam ætérnam custódit eam. Si quis mihi minístrat, me sequátur: et ubi sum ego, illic et minister meus erit. Si quis mihi ministráverit, honorificábit eum Pater meus.

einhver þjóna mér, fylgi hann mér eftir, og hvar sem ég er, þar skal og þjónn minn vera. Þjóni einhver mér, mun Faðir minn heiðra hann.

**Offertorium.** Conféssio et pulchritúdo in conspéctu ejus: sánctitas, et magnificéntia in sanctificatióne ejus.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 95, 6.* Tign og fegurð eru fyrir augliti hans; máttur og dýrð í helgidómi hans.

**Secreta.** Accipe, quæsumus, Dómine, múnera dignánter obláta: et, beáti Lauréntii suffragántibus méritis, ad nostræ salútis auxílium proveníre concéde. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, vér biðjum þig, þigg fórnargjafirnar, sem vér færum þér með lotningu, og gef, að þær gagni oss til sáluhjálpar fyrir árnandi mátt verðleika hins sæla Lárentíusar. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatía, sjá bls. 28.*

**Communio.** Qui mihi minístrat, me sequátur: et ubi ego sum, illic et minister meus erit.

**Kommúníuvers.** *Jóh. 12, 26.* Vilji einhver þjóna mér, fylgi hann mér eftir, og hvar sem ég er, þar skal og þjónn minn vera.

**Postcommunio.** Sacro múnere satiáti, súpplices te, Dómine, deprecámur: ut, quod débitæ servitútis celebrámus offício, intercedénte beáto Lauréntio Mártyre tuo, salvatiónis tuæ sentiámus augméntum. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Mettir af hinni helgu fórnargjöf, biðjum vér þig auðmjúklega, Drottinn, að þess, sem vér framkvæmum hátíðlega sem skylduga þjónustu, megum vér og kenna sem meiri náðar til sáluhjálpar fyrir milligöngu hins sæla Lárentíusar, píslarvotts þíns. Fyrir Drottin vorn . . .

## UPPNUMNING MARÍU

15. ÁGÚST

**Introitus.** Signum magnum appáruit in cælo: múlier amícta sole, et luna sub pédibus ejus, et in cápite ejus coróna stellárum duódecim. *Ps.* Cantáte Dómino cánticum novum: quia mirabília fecit. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Opinb. 12, 1.* Tákn mikið birtist á himni: kona, klædd sólinni, og tunglið var undir fótum hennar, og á höfði hennar var kóróna af tólf stjörnum. *Sálm. 97, 1.* Syngið Drottni nýjan söng; því að hann hefur gjört dásemdarverk. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui Immaculátam Vírginem Maríam, Fílii tui Genitrícem, córpore et ánima ad cæléstem glóriam assumpsísti: concéde, quæsumus; ut ad supérna semper inténti, ipsíus glóriæ mereámur esse consórtes. Per eúmdem Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, þú, sem hefur uppnumið hina óflekkuðu meyju, Maríu, móður Sonar þíns, í himneska dýrð með líkama og sál, vér biðjum þig, gef, að með því að láta oss ávallt umhugað um hið himneska, verðskuldum vér að verða aðnjótandi dýrðar hennar. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr Júdítarbók. 13, 22-25; 15, 10.*

BENEDÍXIT te Dóminus in virtúte sua, quia per te ad níhilum redégit inimícos nostros. Benedícta es tu, fília, a Dómino Deo excélso, præ ómnibus muliéribus super terram. Benedíctus Dóminus, qui creávit cælum et terram, qui te diréxit in vúlnera cápitis príncipis inimi-

DROTTINN hefur blessað þig með mætti sínum, því að fyrir þig hefur hann að engu gjört óvini vora. Blessuð sért þú, dóttir, af Drottni, Guði hinum æðsta, framar öllum konum á jörðunni. Vegsamaður sé Drottinn, sem skóp himin og jörð og leiðbeindi þér til að höggva höfuðið af foringja

córum nostrórum; quia hódie nomen tuum ita magnificávit, ut non recédat laus tua de ore hóminum, qui mémores fúerint virtútis Dómini in ætérnum, pro quibus non pepercísti ánimæ tuæ propter angústias et tribulatiónem géneris tui, sed subvenisti ruinæ ante conspéctum Dei nostri. Tu glória Jerúsalem, tu lætítia Israël, tu honorificéntia pópuli nostri.

**Graduale.** Audi, fília, et vide, et inclina aurem tuam, et concupiscet rex pulchritúdinem tuam. ℣. Tota decóra ingréditur fília regis, textúræ aureæ sunt amictus ejus.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Assúmpta est María in cælum: gaudet exércitus Angelórum. Allelúja.

fjandmanna vorra; því að í dag hefur hann gjört nafn þitt svo dýrlegt, að lofgjörð til þín mun aldrei hverfa af munni mannanna, sem um eilífð munu minnast máttar Drottins. Því að þú þyrmdir ekki lífi þínu, þegar þjóð þín var í þrengingum og nauðum, heldur komst í veg fyrir eyðingu vora, frammi fyrir augliti Guðs vors. Þú ert vegsemd Jerúsalems, þú ert gleði Ísraels, þú ert sómi lýðs vors.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 44, 11-12, 14.* ℣. Heyr þú, dóttir, og sjá, og hneig eyra þitt, því að konungurinn mun fella hug til fegurðar þinnar. ℣. Konungsdóttirin heldur inngöngu sína í fullu skarti, og gullsett eru klæði hennar.

**Allelúja,** allelúja. ℣. María er uppnumin í himininn; englasveitir fagna. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 1, 41-50.*

In illo témpore: Repléta est Spíritu Sancto Elísabeth et exclamávit voce magna et dixit: Benedícta tu inter mulíeres, et benedíctus fructus ventris tui. Et unde hoc mihi, ut véniat Mater Dómini

Á þeim tíma fylltist Elísabet Heilögum Anda og kallaði upp með hárri röddu og sagði: Blessuð ert þú meðal kvenna, og blessaður er ávöxtur þíns lífs. Og hvaðan kemur mér þetta, að móðir Drottins kemur

mei ad me? Ecce enim, ut facta est vox salutatiónis tuæ in áuribus meis, exsultávit in gáudio infans in útero meo. Et beáta, quæ credidísti, quóniam perficiéntur ea, quæ dicta sunt tibi a Dómino. Et ait María: Magníficat ánima mea Dóminum: et exsultávit spíritus meus in Deo, salutári meo; quia respéxit humilitátem ancíllæ suæ, ecce enim, ex hoc beátam me dicent omnes generatiónes. Quia fecit mihi magna qui potens est, et sanctum nomen ejus, et misericórdia ejus a progénie in progénies timéntibus eum. **Credo.**

til mín? Því, sjá, þegar hljómurinn af kveðju þinni barst til eyrna mér, tók barnið viðbragð af gleði í kviði mér. Og sæl er hún, sem trúði því, að það mundi rætast, sem talað var við hana frá Drottni. Og María sagði: Sál mín miklar Drottin, og andi minn hefur glaðzt í Guði, lausnara mínum, því að hann hefur litið á smæð ambáttar sinnar. Sjá, héðan í frá munu allar kynslóðir mig sæla segja. Hinn voldugi hefur gjört mikla hluti við mig, og heilagt er nafn hans. Og miskunnsemi hans nær frá kynslóð til kynslóðar, til þeirra, sem óttast hann. – **Credo.**

**Offertorium.** Inimicítias ponam inter te et Mulíerem, et semen tuum et Semen illíus.

**Fórnunarvers.** *1. Mós. 3, 15.* Fjandskap vil ég setja milli þín og konunnar, milli þíns sæðis og hennar sæðis.

**Secreta.** Ascéndat ad te, Dómine, nostræ devotiónis oblátio, et, beatíssima Vírgine María in cælum assúmpta intercedénte, corda nostra, caritátis igne succénsa, ad te júgiter adspírent. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, megi fórnargjöf helgrar þjónustu vorrar stíga upp til þín og hjörtu vor, upptendruð af loga kærleikans, ávallt þrá þig fyrir milligöngu alsællar Maríu meyjar, sem er uppnumin til himna. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Beátam me

**Kommúníuvers.** *Lúk. 1, 48-*

dicent omnes generatiónes, quia fecit mihi magna qui potens est.

49. Allar kynslóðir munu mig sæla segja, því að hinn voldugi hefur gjört mikla hluti við mig.

**Postcommunio.** Sumptis, Dómine, salutáribus sacraméntis, da, quæsumus: ut, méritis et intercessióne beátæ Vírginis Mariæ in cælum assúmptæ, ad resurrectiónis glóriam perducámur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að vér, sem höfum meðtekið heillarík sakramenti þín, megum verða leiddir inn í dýrð upprisunnar, fyrir verðleika og milligöngu alsællar Maríu meyjar, sem er uppnumin til himna. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILAGUR JÓAKIM, FAÐIR ALSÆLLAR MARÍU MEYJAR

16. ÁGÚST

**Introitus.** Dispérsit, dedit paupéribus: justítia ejus manet in sæculum sæculi: cornu ejus exaltábitur in glória. *Ps.* Beátus vir, qui timet Dóminum: in mandátis ejus cupit nimis. ℣. Glória Patri...

**Inngönguvers.** *Sálm.* *111, 9.* Hann hefur miðlað ríkulega, gefur fátækum, réttlæti hans varir að eilífu, horn [1] hans mun gnæfa hátt í vegsemd. *Sálm. 111, 1.* Sæll er sá maður, sem óttast Drottin og hefur mikla unun af boðum hans. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui præ ómnibus Sanctis tuis beátum Jóachim Genitrícis Fílii tui patrem esse voluísti: concéde, quæsumus; ut, cujus festa venerámur, ejus quoque perpétuo patrocínia sentiá-

**Kollekta.** Guð, þú, sem hefur látið þér þóknast að velja hinn heilaga Jóakim framar öllum dýrlingum þínum, til að verða föður Maríu, móður Sonar þíns, vér biðjum þig, veit, að vér, sem heiðrum hátíð hans,

1) máttur.

mus. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

megum og stöðugt kenna verndar hans. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Spekiritunum. Sir. 31, 8-11.*

BEÁTUS vir, qui invéntus est sine mácula, et qui post aurum non ábiit, nec sperávit in pecúnia et thesáuris. Quis est hic, et laudábimus eum? fecit enim mirabília in vita sua. Qui probátus est in illo, et perféctus est, erit illi glória ætérna: qui pótuit tránsgredi, et non est transgréssus: fácere mala, et non fecit: ideo stabilíta sunt bona illíus in Dómino, et eleemósynas illíus enarrábit omnis ecclésia sanctórum.

SÆLL er auðmaður sá, sem vammlaus er fundinn og ekki sækist eftir gulli (og setur ekki traust sitt á fjármuni og auðæfi). Hver er sá, að vér megum hann sælan telja? Því að hann hefur unnið afreksverk hjá þjóð sinni (á ævi sinni). Hver hefur gengizt undir þraut og reynzt fullkominn? Það mun æ verða honum til dýrðar. Hver gat syndgað og syndgaði ekki? gat gjört illt og gjörði það ekki? Heill hans er varanleg (í Drottni), og allur söfnuður (hinna heilögu) mun kunngjöra velgjörðir hans.

**Graduale.** Dispérsit, dedit paupéribus: justítia ejus manet in sæculum sæculi. ℣. Potens in terra erit semen ejus: generátio rectórum benedicétur.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 111, 9 og 2.* Hann hefur miðlað ríkulega, gefur fátækum, réttlæti hans varir að eilífu. ℣. Niðjar hans verða voldugir á jörðunni, ætt réttvísra mun blessun hljóta.

**Allelúja,** allelúja. ℣. O Jóachim, sanctæ conjux Annæ, pater almæ Vírginis, hic fámulis ferto salútis opem. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Jóakim, eiginmaður heilagrar Önnu, faðir hinnar gæzkuríku meyjar, veit þú þjónum þínum hér á jörðu aðstoð til hjálpræðis. Allelúja.

## Guðspjall.

*Upphaf hins heilaga Matteusarguðspjalls. 1, 1-16.*

Liber generatiónis Jesu Christi, fílii David, fílii Abraham. Abraham génuit Isaac. Isaac autem génuit Jacob. Jacob autem génuit Judam et fratres ejus. Judas autem génuit Phares et Zaram de Thamar. Phares autem génuit Esron. Esron autem génuit Aram. Aram autem génuit Amínadab. Amínadab autem génuit Naásson. Naásson autem génuit Salmon. Salmon autem génuit Booz de Rahab. Booz autem génuit Obed ex Ruth. Obed autem génuit Jesse. Jesse autem génuit David regem. David autem rex génuit Salomónem ex ea, quæ fuit Uriæ. Sálomon autem génuit Róboam. Róboam autem génuit Abíam. Abías autem génuit Asa. Asa autem génuit Jósaphat. Jósaphat autem génuit Joram. Joram autem génuit Ozíam. Ozías autem génuit Jóatham. Jóatham autem génuit Achaz. Achaz autem génuit Ezechíam. Ezechías autem génuit Manássen. Manásses

Ættartala Jesú Krists, sonar Davíðs, sonar Abrahams: Abraham gat Ísak. Ísak gat Jakob. Jakob gat Júda og bræður hans. Júda gat Fares og Zara við Tamar. Fares gat Esrom. Esrom gat Aram. Aram gat Amínadab. Amínadab gat Naason. Naason gat Salmon. Salmon gat Booz við Rahab. Booz gat Óbeð við Rut. Óbeð gat Jesse. Jesse gat Davíð konung. Davíð (konungur) gat Salómon við konu Úría. Salómon gat Róbóam. Róbóam gat Abía. Abía gat Asa. Asa gat Jósafat. Jósafat gat Jóram. Jóram gat Ózías. Ózías gat Jóatam. Jóatam gat Akas. Akas gat Ezekías. Ezekías gat Manasse. Manasse gat Amon. Amon gat Jósías. Jósías gat Jekonías og bræður hans á tíma herleiðingarinnar til Babýlonar. Og eftir herleiðinguna til Babýlonar gat Jekonías Salatiel. Salatiel gat Zóróbabel. Zóróbabel gat Abíúd. Abíúd gat Sadok. Sadok gat Akím. Akím gat Elíúd. Elíúd gat Eleazar. Eleazar gat Mattan. Mattan gat Jakob. Jakob gat Jósef, mann Maríu, en af henni

autem génuit Amon. Amon autem génuit Josíam. Josías autem génuit Jechoníam et fratres ejus in transmigratióne Babylónis. Et post transmigratiónem Babylónis: Jechonías génuit Saláthiel. Saláthiel autem génuit Zoróbabel. Zoróbabel autem génuit Abiud. Abiud autem génuit Elíacim. Elíacim autem génuit Azor. Azor autem génuit Sadoc. Sadoc autem génuit Achim. Achim autem génuit Eliud. Eliud autem génuit Eleázar. Eleázar autem génuit Mathan. Mathan autem génuit Jacob. Jacob autem génuit Joseph, virum Maríæ, de qua natus est Jesus, qui vocátur Christus.

fæddist Jesús, sem kallast Kristur.

**Offertorium.** Glória et honóre coronásti eum: et constituísti eum super ópera mánuum tuárum, Dómine.

**Secreta.** Súscipe, clementíssime Deus, sacrifícium in honórem sancti Patriárchæ Jóachim, patris Maríæ Vírginis, majestáti tuæ oblátum: ut, ipso cum cónjuge sua et beatíssima prole intercedénte, perféctam cónsequi mereámur remissiónem peccatórum et glóriam sempitérnam. Per Dóminum nostrum . . .

**Fórnunarvers.** *Sálm. 8, 6-7.* Með sæmd og heiðri krýndir þú hann, þú (Drottinn) lézt hann ríkja yfir verkum handa þinna.

**Lágabæn.** Þigg þú, miskunnarríki Guð, fórnina, sem vér færum hátign þinni, heilögum ættföður Jóakim, föður Maríu meyjar, til heiðurs, svo að sakir árnaðar hans, eiginkonu hans og allrahelgustu dóttur, megum vér öðlast algjöra syndafyrirgefningu og eilífa dýrð. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Fidélis servus et prudens, quem constítuit dóminus super famíliam suam: ut det illis in témpore trítici mensúram.

**Kommúníuvers.** *Lúk. 12,42.* Trúr og hygginn þjónn, sem húsbóndinn hefur sett yfir hjú sín, til að gefa þeim kornskammtinn á réttum tíma.

**Postcommunio.** Quæsumus, omnípotens Deus: ut per hæc sacraménta, quæ súmpsimus, intercedéntibus méritis et précibus beáti Jóachim patris Genitrícis dilécti Fílii tui, Dómini nostri Jesu Christi, tuæ grátiæ in præsénti et ætérnæ glóriæ in futúro partícipes esse mereámur. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, að vegna þessara leyndardóma, sem vér höfum neytt, og fyrir árnandi verðleika og bænir hins sæla Jóakims, móðurföður hins elskaða Sonar þíns, Drottins vors Jesú Krists, megum vér verðskulda að fá hlutdeild í náð þinni í þessu lífi og eilífri dýrð í hinu komanda. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

## HIÐ ÓFLEKKAÐA HJARTA MARÍU MEYJAR

22. ÁGÚST

**Introitus.** Adeámus cum fidúcia ad thronum grátiæ, ut miséricórdiam consequámur, et grátiam inveniámus in auxílio opportúno. *Ps.* Eructávit cor meum verbum bonum: dico ego ópera mea regi. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui in Corde beátæ Mariæ Vírginis dignum Spíritus Sancti habitáculum præparásti: concéde propítius; ut ejusdem immaculáti Cordis festivitátem devota mente recoléntes, secúndum cor tuum vívere valeámus. Per Dóminum nostrum . . . in unitáte ejúsdem Spíritus Sancti . . .

**Inngönguvers.** *Hebr. 4, 16.* Göngum með djörfung að hásæti náðarinnar, til þess að vér öðlumst miskunn og finnum náð til hjálpar á hagkvæmum tíma. *Sálm. 44, 2.* Hjarta mitt svellur af ljúfum orðum, ég flyt konunginum kvæði mitt. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, þú, sem hefur búið Heilögum Anda verðugan bústað í hjarta heilagrar Maríu meyjar, veit náðarsamlega, að vér, sem minnumst með guðrækilegu hugarfari hátíðar þessa óflekkaða hjarta, fáum lifað samkvæmt hjarta þínu. Fyrir Drottin vorn . . . í einingu hins sama Heilaga Anda . . .

*Kollekta til minningar um heilagan Tímóteus, Hippólýtus og Symforíanus, píslarvotta.*

Auxílium tuum nobis, Dómine, quæsumus, placátus impénde: et, intercedéntibus beátis Martýribus tuis Timótheo, Hippólyto et Symphoriáno, déxteram super nos tuæ propiatiónis exténde. Per Dóminum nostrum . . .

Drottinn, vér biðjum þig, veit þú oss sáttur aðstoð þína, og rétt þú út yfir oss hægri hönd miskunnar þinnar, sakir árnaðarbæna hinna sælu píslarvotta þinna, Tímóteusar, Hippólýtusar og Symforíanusar. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Spekiritunum. Sír. 24, 23-31.*

EGO quasi vitis fructificávi suavitátem odóris: et flores mei, fructus honóris et honestátis. Ego mater pulchræ dilectiónis, et timóris, et agnitiónis, et sanctæ spei. In me grátia omnis viæ et veritátis: in me omnis spes vitæ, et virtútis. Transíte ad me omnes qui concupíscitis me, et a generatiónibus meis implémini. Spíritus enim meus super mel dulcis, et heréditas mea super mel et favum. Memória mea in generatiónes sæculórum. Qui edunt me, adhuc esúrient: et qui bibunt me, adhuc sítient. Qui audit me, non confundétur: et qui operán-

EINS og vínviður hef ég framleitt ljúfan ilm, og blóm mín bera dýrlegan og ríkulegan ávöxt. Ég er móðir fagurrar ástar, Guðsótta, þekkingar og heilagrar vonar. Í mér er öll náð lífs (vegar) og sannleika, í mér er öll von lífs og dyggðar. Komið til mín, þér allir, sem þráið mig, og mettið yður á aldinum mínum. Að minnast mín er sætara en hunang, og arfur minn er betri en hunang og hunangsseimur. Minning mín varir um aldir, frá kynslóð til kynslóðar. Þá, sem neyta mín, mun ennþá hungra[1], og þá, sem drekka mig, mun enn þyrsta. Þann, er hlýðir á mig, hendir ei skömm, og þeir, sem

1) eftir mér.

tur in me, non peccábunt. Qui elúcidant me, vitam ætérnam habébunt.

**Graduale.** Exsultábit cor meum in salutári tuo: cantábo Dómino, qui bona tríbuit mihi: et psallam nómini Dómini altissimi. ℣. Mémores erunt nóminis tui in omni generatióne et generatiónem: proptérea pópuli confitebúntur tibi in ætérnum.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Magnificat ánima mea Dóminum: et exsultávit spíritus meus in Deo salutári meo. Allelúja.

vinna verk mín, munu ekki syndga. Þeir, sem endurspegla mig í orði og verki, munu hljóta eilíft líf.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 12, 6:44, 18.* Hjarta mitt fagnar yfir hjálpræði þínu. Ég vil syngja fyrir Drottni, því að hann hefur gjört vel til mín, og lofsyngja nafni Drottins hins æðsta. ℣. Nafn þitt mun vera þeim minnisstætt frá kynslóð til kynslóðar; þess vegna skulu þjóðirnar lofa þig um eilífð.

**Allelúja**, allelúja. *Lúk. 1, 46-47.* ℣. Sál mín miklar Drottin, og andi minn hefur glaðzt í Guði, lausnara mínum. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 19, 25-27.*

In illo témpore: Stabant juxta Crucem Jesu Mater ejus, et soror Matris ejus, María Cléophæ, et María Magdaléne. Cum vidísset ergo Jesus Matrem, et discípulum stantem, quem diligébat, dicit Matri suæ: Múlier, ecce fílius tuus. Deínde dicit discípulo: Ecce Mater tua. Et ex illa hora accépit eam discípulus in sua. – **Credo.**

Á þeim tíma stóðu hjá krossi Jesú móðir hans og móðursystir hans, María, kona Klópa, og María Magdalena. Þegar nú Jesús sá móður sína og lærisveininn, sem hann elskaði, standa þar, segir hann við móður sína: Kona, sjá, þar er sonur þinn. Síðan segir hann við lærisveininn: Sjá, þar er móðir þín. Og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana heim til sín. – **Credo.**

**Offertorium.** Exsultávit spíritus meus in Deo salutári meo; quia fecit mihi magna qui potens est, et sanctum nomen ejus.

**Fórnunarvers.** *Lúk. 1. 47 og 49.* Andi minn hefur glaðzt í Guði, lausnara mínum, því að hinn voldugi hefur gjört mikla hluti við mig, og heilagt er nafn hans.

**Secreta.** Majestáti tuæ, Dómine, Agnum immaculátum offeréntes, quæsumus: ut corda nostra ignis ille divinus accéndat, qui Cor beátæ Svaríæ Vírginis ineffabíliter inflammávit. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, vér fórnum hátign þinni hinu óflekkaða Lambi, og biðjum þig, að sá guðdómlegi eldur megi tendra hjörtu vor, er á óumræðilegan hátt tendraði hjarta alsællar Maríu meyjar. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

*Lágabæn til minningar um heilagan Tímóteus, Hippólýtus og Symforianus, píslarvotta.*

Accépta tibi sit, Dómine, sacrátæ plebis oblátio pro tuórum honóre Sanctórum: quorum se méritis de tribulatióne percepísse cognóscit auxílium. Per Dóminum nostum . . .

Megi fórn hins heilaga lýðs þíns verða þegin af þér, Drottinn, þínum heilögu til heiðurs, en hann er sér þess meðvitandi að hafa hlotið hjálp í þrengingum fyrir verðleika þeirra. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Dixit Jesus matri suæ: Múlier, ecce fílius tuus: deínde dixit discípulo Ecce mater tua. Et ex illa hora accépit eam discípulus in sua.

**Kommúníuvers.** *Jóh. 19, 27.* Jesús sagði við móður sína: Kona, sjá, þar er sonur þinn. Síðan sagði hann við lærisveininn: Sjá, þar er móðir þín. Og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana heim til sín.

**Postcommunio.** Divínis reffécti munéribus te, Dómine, supplíciter exorámus: ut

**Kommúníubæn.** Endurnærðir af hinum guðdómlegu gjöfum, biðjum vér þig auð-

beátæ Mariæ Vírginis intercessióne, cujus immaculáti Cordis sollémnia venerándo égimus, a præséntibus perículis liberáti, ætérnæ vitæ gáudia consequámur. Per Dóminum nostrum . . .

mjúklega, Drottinn, að vér, sem höfum heiðrað hátíð hins óflekkaða hjarta alsællar Maríu meyjar, megum, sakir árnaðar hennar, frelsast frá núverandi háskasemdum og hljóta fögnuð eilífs lífs. Fyrir Drottin vorn . . .

*Kommúniubæn til minningar um heilagan Tímóteus, Hippólýtus og Symforíanus, píslarvotta.*

Divini múneris largitáte satiáti, quæsumus, Dómine, Deus noster: ut, intercedéntibus sanctis Martýribus tuis Timótheo, Hippólyto et Symphoriáno, in ejus semper participatióne vivámus. Per Dóminum nostrum . . .

Vér biðjum þig, Drottinn, Guð vor, mettir af gnægð hinnar guðdómlegu gjafar, að hluttaka vor í henni megi stöðugt lífga oss sakir árnaðarbæna hinna heilögu píslarvotta þinna, Tímóteusar, Hippólýtusar og Symforíanusar. Fyrir Drottin vorn . . .

## HEILAGUR BARTÓLÓMEUS, POSTULI

24. ÁGÚST

**Introitus.** Mihi autem nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum. *Ps.* Dómine, probásti me et cognovísti me: tu cognovísti sessiónem meam et resurrectiónem meam. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 138, 17.* Vini þína hef ég mjög í hávegum, Guð, höfðingjadómur þeirra er harla efldur. *Sálm. 138, 1-2.* Drottinn, þú hefur reynt mig, og þú þekkir mig, hvort sem ég sit eða rís upp, veizt þú það. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui hujus diéi venerándam sanctámque lætítiam in beáti Apóstoli tui Bartholomæi festivitáte tribuísti: da Ecclésiæ tuæ, quæ-

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, þú, sem í dag hefur veitt oss verðugan og heilagan fögnuð vegna hátíðar hins sæla Bartólómeusar, postula þíns, vér biðjum þig, lát þú kirkju

sumus; et amáre quod crédidit, et prædicáre quod dócuit. Per Dóminum nostrum . . .

þína elska það, sem hann trúði, og boða það, sem hann kenndi. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 12, 27-31.*

FRATRES: Vos estis corpus Christi et membra de membro. Et quosdam quidem pósuit Deus in Ecclésia primum apóstolos, secúndo prophétas, tértio doctóres, deínde virtútes, exínde grátias curatiónum, opitulatiónes, gubernatiónes génera linguárum, interpretatiónes sermónum. Numquid omnes apóstoli? numquid omnes prophétæ? numquid omnes doctóres? numquid omnes virtútes? numquid omnes grátiam habent curatiónum? numquid omnes linguis loquúntur? numquid omnes interpretántur? Æmulámini autem charísmata melióra.

BRÆÐUR: Þér eruð líkami Krists og limir hver fyrir sig. Og Guð hefur sett nokkra í kirkjunni fyrst postula, í öðru lagi spámenn, í þriðja lagi fræðara, því næst kraftaverk, ennfremur lækningagáfur, líknarstörf, stjórnarstörf og tungutal (og útlistun tungna). Hvort eru allir postular? Hvort eru allir spámenn? Hvort eru allir fræðarar? Hvort eru allir kraftaverkamenn? Hvort hafa allir hlotið lækningagáfu? Hvort tala allir tungum? Hvort útlista allir? En sækist eftir hinum beztu náðargjöfum.

**Graduale.** Constítues eos príncipes super omnem terram: mémores erunt nóminis tui, Dómine. ℣. Pro pátribus tuis nati sunt tibi fílii: proptérea pópuli confitebúntur tibi.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 44, 17-18.* Þú munt gjöra þá að höfðingjum um alla jörðina. Nafn þitt mun vera þeim minnisstætt, Drottinn. ℣. Í stað feðranna fæðast þér synir; þess vegna skulu þjóðirnar lofa þig.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Te gloriósus Apostolórum chorus laudat, Dómine. Allelúja.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Dýrlegur kór postulanna lofar þig, Drottinn. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 6, 12-19.*

IN illo témpore: Exiit Jesus in montem oráre, et erat pernóctans in oratióne Dei. Et cum dies factus esset, vocávit discípulos suos, et elégit duódecim ex ipsis (quos et Apóstolos nominávit): Simónem, quem cognominávit Petrum, et Andréam fratrem ejus, Jacóbum et Joánnem, Philippum et Bartholomæum, Matthæum et Thomam, Jacóbum Alphæi et Simónem, qui vocátur Zelótes, et Judam Jacóbi, et Judam Iscariótem, qui fuit próditor. Et descéndens cum illis, stetit in loco campéstri, et turba discipulórum ejus, et multitúdo copiósa plebis ab omni Judæa, et Jerúsalem, et maritima, et Tyri, et Sidónis, qui vénerant, ut audírent eum et sanaréntur a languóribus suis. Et, qui vexabántur a spirítibus immúndis, curabántur. Et omnis turba quærébat eum tán-

Á þeim tíma fór Jesús út til fjallsins, til þess að biðjast fyrir, og var alla nóttina á bæn til Guðs. Og er dagur kom, kallaði hann til sín lærisveina sína og valdi tólf af þeim, sem hann einnig kallaði postula: Símon, sem hann einnig nefndi Pétur, og Andrés, bróður hans, og Jakob og Jóhannes, og Filippus og Bartólómeus, og Matteus og Tómas, og Jakob Alfeusson og Símon, sem nefndur var vandlætari, og Júdas, bróður Jakobs, og Júdas Ískaríot, sem varð svikari. Og hann fór niður með þeim og nam staðar á sléttlendi, og var þar mikill hópur af lærisveinum hans og mikill fjöldi fólks úr allri Júdeu og Jerúsalem og frá sjávarbyggðinni hjá Týrus og Sídon, sem komnir voru til að heyra hann og til þess að fá lækningu við sjúkdómum sínum; og þeir, er þjáðir voru af óhreinum öndum, urðu heilbrigðir. Og allur mannfjöldinn leitaðist við að

gere: quia virtus de illo exíbat, et sanábat omnes.

**Credo.**

**Offertorium.** Mihi autem nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum.

**Secreta.** Beáti Apóstoli tui Bartholomæi solémnia recenséntes, quæsumus, Dómine: ut ejus auxílio tua benefícia capiámus, pro quo tibi laudis hóstias immolámus. Per Dóminum nostrum . . .

snerta hann, því að kraftur gekk út frá honum, og hann læknaði alla. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 138, 17.* Vini þína hef ég mjög í hávegum, Guð, og höfðingjadómur þeirra er harla efldur.

**Lágabæn.** Vér, sem höldum hátíð hins sæla Bartólómeusar postula þíns, biðjum þig, Drottinn, að vér megum öðlast velgjörninga þína, sakir aðstoðar hans, er vér færum þér þessa lofgjörðarfórn til heiðurs. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía postulanna, sjá bls. 27.*

**Communio.** Vos, qui secúti estis me, sedébitis super sedes, judicántes duódecim tribus Israel, dicit Dóminus.

**Postcommunio.** Sumptum, Dómine, pignus redemptiónis ætérnæ: sit nobis, quæsumus; interveniénte beáto Bartholomæo Apóstolo tuo, vitæ præséntis auxílium páriter et futúræ. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníuvers.** *Matt. 19, 28.* Þér, sem hafíð fylgt mér, munuð sitja í hásætum og dæma hinar tólf ættkvíslir Ísraels, segir Drottinn.

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að þessi pantur eilífrar endurlausnar, er vér höfum neytt, verði oss til hjálpar fyrir þetta líf og hið komanda sakir milligöngu hins sæla Bartólómeusar postula þíns. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILÖG MARÍA, MIÐLARI ALLRA NÁÐARGJAFA

31. ÁGÚST

**Introitus.** Adeámus cum fidúcia ad thronum grátiæ,

**Inngönguvers.** *Hebr. 4, 16.* Göngum með djörfung að há-

ut misericórdiam consequámur, et grátiam inveniámus in auxílio opportúno. *Ps.* Levávi óculos meos in montes: unde véniet auxilium mihi. ℣. Glória Patri . . .

sæti náðarinnar, til þess að vér öðlumst miskunn og finnum náð til hjálpar á hagkvæmum tíma. *Sálm. 120, 1.* Ég hef augu mín til fjallanna. Hvaðan kemur mér hjálp? Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Dómine Jesu Christe, noster apud Patrem mediátor, qui beatíssimam Vírginem, Matrem tuam, matrem quoque nostram et apud te mediatrícem constitúere dignátus es: concéde propitius; ut, quisquis ad te benefícia petitúrus accésserit, cuncta se per eam impetrásse lætétur: Qui vivis et regnas . . .

**Kollekta.** Drottinn Jesús Kristur, meðalgangari vor hjá Föðurnum, þú, sem hefur af náð þinni sett hina alsælu meyju, móður þína, til að vera einnig móðir vor og miðlari hjá þér, veit í miskunn þinni, að hver sá, er leitar til þín, til að öðlast velgjörðir, megi gleðjast yfir því að hafa hlotið þær allar fyrir hana. Þú, sem lifir og ríkir . . .

**Pistill.**

*Kafli úr spádómsbók Jesaja. 55, 1-3, og 5.*

OMNES sitiéntes, veníte ad aquas: et qui non habétis argéntum, properáte, émite et comédite: veníte, émite absque argénto et absque ulla commutatióne vinum et lac. Quare appénditis argéntum non in pánibus, et labórem vestrum non in saturitáte? Audíte audiéntes me, et comédite bonum, et delectábitur in crassitúdine ánima vestra. Inclináte au-

ALLIR þér, sem þyrstir eruð, komið til vatnsins; og þér, sem ekkert silfur eigið, komið, kaupið (korn) og etið. Komið, kaupið án silfurs og endurgjaldslaust bæði vín og mjólk. Hví greiðið þér silfur fyrir það, sem ekki er brauð, og laun yðar fyrir það, sem ekki er til saðnings? Hlýðið á mig, þá skuluð þér fá gott að eta og sálir yðar skulu njóta unaðar af ljúffengum rétti. Ljáið eyra og

rem vestram, et veníte ad me: audíte, et vivet ánima vestra. Ecce, gentem, quam nesciébas, vocábis: et gentes, quæ te non cognovérunt, ad te current propter Dóminum, Deum tuum, et sanctum Israel, quia glorificávit te.

komið til mín, heyrið, og sál yðar mun lifa. Sjá, þú munt kalla til þín þjóð, er þú þekktir ekki, og þjóð, sem ekki þekkir þig, mun hraða sér til þín, sakír Drottins, Guðs þíns, og vegna hins heilaga í Ísrael, af því að hann hefur gjört þig vegsamlegan.

**Graduale.** In me grátia omnís viæ et veritátis, in me omnis spes vitæ et virtútis. ℣. Transíte ad me, omnes, qui concupíscitis me, et a generatiónibus meis implémini.

**Þrepsöngur.** *Sír. 24, 25-26.* Í mér er öll náð lífs (vegar) og sannleika, í mér er öll von lífs og dyggðar. ℣. Komið til mín, þér allir, sem þráið mig, og mettið yður á aldinum mínum.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Salve, Mater misericórdiæ, Mater spei et grátiæ, o María. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Heil sért þú, María, móðir miskunnarinnar, móðir vonar og náðar. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 19, 25-27.*

In illo témpore: Stabant juxta Crucem Jesu Mater ejus, et soror Matris ejus, María Cléophæ, et María Magdaléne. Cum vidísset ergo Jesus Matrem, et discípulum stantem, quem diligébat, dicit Matri suæ: Múlier, ecce fílius tuus. Deínde dicit discípulo: Ecce Mater tua. Et ex illa hora accépit eam di-

Á þeim tíma stóðu hjá krossí Jesú móðir hans og móðursystir hans, María, kona Klópa, og María Magdalena. Þegar nú Jesús sá móður sína og lærisveininn, sem hann elskaði, standa þar, segir hann við móður sína: Kona, sjá, þar er sonur þinn. Síðan segir hann víð lærisveininn: Sjá, þar er móðir þín. Og frá þeirri stundu

scipulus in sua. – **Credo.**

**Offertorium** Recordáre, Virgo Mater, in conspéctu Dei, ut loquáris pro nobis bona, et ut avértat indignatiónem suam a nobis.

**Secreta.** Matris tuæ ac mediatricis nostræ précibus, Dómine, quæsumus: hæc hostiárum oblátio nosmetipsos, tua grátia largiénte, tibi perficiat munus ætérnum: Qui vivis et regnas . . .

tók lærisveinninn hana heim til sin. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Jer. 18, 20.* Minnztu þess, mey og móðir, að tala máli voru frammi fyrir augliti Guðs, svo að hann snúi reiði sinni frá oss.

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi fórnfæring þessara gjafa gjöra sjálfa oss að eilífri fórnargjöf þér til handa, fyrir náðaraðstoð þina, sakir bæna móður þinnar og meðalgangara vors. Þú, sem lifir og rikir . . .

*Prefatia alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Valde mirábilis es, o Maria, et fácies tua plena est gratiárum.

**Postcommunio.** Subveniat nobis, Dómine, beátæ Mariæ, Matris tuæ ac nostræ mediatricis, orátio: ut per hæc sacrosáncta commércia, tua grátia largiénte, ad redemptiónis ætérnæ proficiámus augméntum: Qui vivis et regnas . . .

**Kommúníuvers.** Mjög ert þú dásamleg, Maria, og auglit þitt er fullt yndisþokka.

**Kommúníubæn.** Drottinn, megi bæn Mariu, móður þinnar og meðalgangara vors, vera oss til aðstoðar, svo að sakir þátttöku vorrar i þessum háheilögu leyndardómum megum vér, með náðaraðstoð þinni, taka framförum á leið vorri til eilifrar endurlausnar. Þú, sem lifir og rikir . . .

---

## FÆÐING ALSÆLLAR MARÍU
### Maríumessa hin síðari.
8. SEPTEMBER

**Introitus.** Salve, sancta

**Inngönguvers.** *Sedulius.* Heil

Parens, eníxa puérpera Regem: qui cælum terrámque regit in sæcula sæculórum. *Ps.* Eructávit cor meum verbum bonum: dico ego ópera mea Regi. ℣. Glória Patri . . .

sért þú, heilaga móðir, sem hefur alið þann konung, er drottnar yfir himni og jörðu um aldir alda. *Sálm. 44, 2.* Hjarta mitt svellur af ljúfum orðum, ég flyt konunginum kvæði mitt. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Fámulis tuis, quæsumus, Dómine, cæléstis grátiæ munus impertíre: ut, quibus beátæ Vírginis partus éxstitit salútis exórdium; Nativitátis ejus votíva solémnitas pacis tríbuat increméntum. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit þjónum þinum gjöf himneskrar náðar þinnar, svo að, eins og barnsburður hinnar alsælu meyjar varð upphaf hjálpræðis vors, megi og minningarhátíð fæðingar hennar færa oss aukinn frið. Fyrir Drottin vorn . . .

*Kollekta til minningar um heilagan Hadrianus, píslarvott.*

Præsta, quæsumus, omnípotens Deus: ut, qui beáti Hadriáni Mártyris tui natalítia cólimus, intercessióne ejus, in tui nóminis amóre roborémur. Per Dóminum nostrum . . .

Vér biðjum þig, almáttugi Guð, að vér, sem heiðrum ártíðardag hins sæla Hadríanusar píslarvotts þíns, megum fyrir bænarstað hans styrkjast i kærleika til nafns þíns. Fyrir Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr Spekiritunum: Orðskviðir. 8, 22-35.*

DÓMINUS possédit me in inítio viárum suárum, ántequam quidquam fáceret a princípio. Ab ætérno ordináta sum, et ex antíquis, ántequam terra fíeret. Nondum erant abýssi, et ego jam concépta eram: necdum fontes

DROTTINN átti mig í upphafi vega sinna, á undan öðrum verkum sínum, fyrir alda öðli. Frá eilifð var ég fyrirætlaður, frá upphafi, áður en jörðin var til. Áður en hafdjúpin urðu til, var ég þegar getinn. Uppsprettur vatnanna höfðu ekki enn

aquárum erúperant: necdum montes gravi mole constíterant: ante colles ego parturiébar: adhuc terram non fécerat et flúmina et cárdines orbis terræ. Quando præparábat cælos, áderam: quando certa lege et gyro vallábat abýssos: quando æthera fírmábat sursum et librábat fontes aquárum: quando circúmdabat mari términum suum et legem ponébat aquis, ne transirent fines suos: quando appendébat fundaménta terræ. Cum eo eram cuncta compónens: et delectábar per síngulos dies, ludens coram eo omni témpore: ludens in orbe terrárum: et delíciæ meæ esse cum fíliis hóminum. Nunc ergo, fílii, audíte me: Beáti, qui custódiunt vias meas. Audíte disciplínam, et estóte sapiéntes, et nolíte abjícere eam. Beátus homo, qui audit me et qui vígilat ad fores meas quotídie, et obsérvat ad postes óstii mei. Qui me invénerit, invéniet vitam et háuriet salútem a Dómino.

**Graduale.** Benedícta et venerábilis es, Virgo María: quæ sine tactu pudóris in-

brotizt fram, hin risavöxnu fjöll voru enn ekki grundvölluð, á undan hæðunum fæddist ég. Hann hafði ekki enn skapað jörðina, né heldur fljótin né heimskautin. Þegar hann gjörði himininn, þá var ég þar, þegar hann setti takmörk kringum regindjúpin, þegar hann festi skýin uppi og staðsetti uppsprettur vatnanna, þegar hann setti hafinu takmörk sín, til þess að vötnin færu ekki lengra en hann bauð, þegar hann festi undirstöður jarðar, þá stóð ég honum við hlið til að skipuleggja allt. Og ég var yndi hans dag hvern, lék mér fyrir augliti hans alla tíð, lék mér á jarðarkringlunni, og það var yndi mitt að vera meðal mannanna barna. Og nú, synir mínir, hlýðið á mig: Sælir eru þeir, sem varðveita vegu mína. Hlýðið á fræðsluna og verið vitrir, fyrirlítið hana ekki. Sæll er sá maður, sem hlýðir á mig, sem vakir daglega við dyr mínar og geymir dyrastafa minna, því að sá, sem finnur mig, finnur lífið og mun hljóta blessun af Drottni.

**Þrepsöngur.** Blessuð og lotningarverð ert þú, María mey, sem ósnortin varðst móð-

vénta es Mater Salvatóris. ℣. Virgo, Dei Génitrix, quem totus non capit orbis, in tua se clausit víscera factus homo.

ir Frelsarans. ℣. Guðsmóðir og mey, sá, sem heimurinn fær ekki rúmað, innilukti sig í skauti þínu, er hann gjörðist maður.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Felix es, sacra Virgo María, et omni laude digníssima: quia ex te ortus est sol justítiæ, Christus, Deus noster. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Þú ert alsæl, heilaga María mey, og verðug æðstu lofgjörðar, því að af þér fæddist sól réttlætisins, Kristur, Guð vor. Allelúja.

## Guðspjall.

*Upphaf hins heilaga Matteusarguðspjalls. 1, 1-16.*
*Eins og á hátíð hins heilaga Jóakims, sjá bls. 135.*

**Credo.**

**Offertorium.** Beáta es, Virgo María, quæ ómnium portásti Creatórem: genuísti, qui te fecit, et in ætérnum pérmanes Virgo.

**Fórnunarvers.** Sæl ert þú, María mey, sem borið hefur Skapara allra hluta; þú hefur alið þann, sem gjörði þig, og verður áfram mey um eilífð.

**Secreta.** Unigéniti tui, Dómine, nobis succúrrat humánitas: ut, qui natus de Vírgine, matris integritátem non mínuit, sed sacrávit; in Nativitátis ejus solémniis, nostris nos piáculis éxuens, oblatiónem nostram tibi fáciat accéptam Jesus Christus, Dóminus noster: Qui tecum vivit et regnat in unitáte ejúsdem Spíritus Sancti Deus . . .

**Lágabæn.** Megi manneðli hins eingetna Sonar þíns hjálpa oss, Drottinn; svo að hann, sem fæddur af meyju skerti ekki meydóm móðurinnar, heldur helgaði hann, megi á hátíð fæðingar hennar frelsa oss frá misgjörðum vorum og gjöra fórn vora þér velþóknanlega, Jesús Kristur, Drottinn vor, sem með þér lifir og ríkir í einingu Heilags Anda, Guð . . .

*Lágabæn til minningar um heilagan Hadrianus, píslarvott.*

Munéribus nostris, quæ-

Vér biðjum þig, Drottinn, að

sumus, Dómine, precibúsque suscéptis: et cæléstibus nos munda mystériis, et cleménter exáudi. Per Dóminum nostrum . . .

er þú hefur þegið gjafir vorar og bænir, hreinsir þú oss fyrir hina himnesku leyndardóma og bænheyrir oss náðarsamlega. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Beáta víscera Maríæ Vírginis, quæ portavérunt ætérni Patris Fílium.

**Kommúníuvers.** Sælt er móðurskaut Maríu meyjar, sem bar Son hins eilífa Föður.

**Postcommunio.** Súmpsimus, Dómine, celebritátis ánnuæ votíva sacraménta: præsta, quæsumus; ut et temporális vitæ nobis remédia præbeant et ætérnæ. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér höfum meðtekið hina heilögu leyndardóma þessarar árlegu minningarhátíðar og biðjum þig, gef, að þeir megi verða oss til hjálpar um tíma og eilífð. Fyrir Drottin vorn . . .

*Kommúníubæn til minningar um heilagan Hadríanus, píslarvott.*

Da, quæsumus, Dómine, Deus noster: ut, sicut tuórum commemoratióne Sanctórum temporáli gratulámur offício; ita perpétuo lætémur aspéctu. Per Dóminum nostrum . . .

Vér biðjum þig, Drottinn, Guð vor, gef, að eins og vér höldum minningu dýrlinga þinna hátíðlega með fögnuði hér á jörðu, megum vér og njóta ásýndar þeirra um eilífð. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## UPPHAFNING KROSSINS

14. SEPTEMBER

**Introitus.** Nos autem gloriári opórtet in Cruce Dómini nostri Jesu Christi: in quo est salus, vita et resurréctio nostra: per quem salváti et

**Inngönguvers.** *Gal. 6, 14.* Oss ber að vera stoltir af krossi Drottins vors Jesú Krists. Í honum er sáluhjálp vor, líf vort og upprisa. Fyrir hann höfum

liberáti sumus. *Ps.* Deus misereátur nostri, et benedícat nobis: illúminet vultum suum super nos, et misereátur nostri. ℣. Glória Patri . . .

vér öðlazt hjálpræði og frelsi. *Sálm. 66, 2.* Guð sé oss miskunnsamur og blessi oss, hann láti ásjónu sína lýsa yfir oss (og sé oss miskunnsamur) ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui nos hodiérna die Exaltatiónis sanctæ Crucis ánnua solemnitáte lætíficas: præsta, quæsumus; ut, cujus mystérium in terra cognóvimus, ejus redemptiónis præmia in cælo mereámur. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem í dag gleður oss með hinni árlegu hátíð upphafningar hins heilaga kross, vér biðjum þig, veit þú, að vér, sem hér á jörðu höfum þekkt leyndardóm krossins, megum á himnum njóta ávaxta endurlausnar hans. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Filippímanna. 2, 5-11.*

FRATRES: Hoc enim sentíte in vobis, quod et in Christo Jesu: qui, cum in forma Dei esset, non rapínam arbitrátus est esse se æquálem Deo: sed semetípsum exinanívit formam servi accípiens, in similitúdinem hóminum factus, et hábitu invéntus ut homo. Humiliávit semetípsum, factus obédiens usque ad mortem, mortem autem crucis. Propter quod et Deus exaltávit illum: et donávit illi nomen, quod est super omne nomen: *(hic genuflectitur)* ut in nómine Jesu

BRÆÐUR: Verið með sama hugarfari, sem Kristur Jesús var. Þrátt fyrir það, að hann var í Guðs mynd, hélt hann ekki fast við það, að vera jafn Guði, heldur gjörði hann sjálfan sig sem að engu með því að taka á sig þrælsmynd og varð mönnunum líkur; og er hann kom fram að ytra hætti sem maður, lítillækkaði hann sjálfan sig með því að verða hlýðinn allt fram í dauða, já, fram í dauða á krossi. Fyrir því hefur og Guð hátt upphafið hann og gefið honum nafnið, sem hverju nafni er æðra, *(hér*

omne genu flectátur cæléstium, terréstrium et infernórum: et omnis lingua confiteátur, quia Dóminus Jesus Christus in glória est Dei Patris.

**Graduale.** Christus factus est pro nobis obédiens usque ad mortem, mortem autem crucis. ℣. Propter quod et Deus exaltávit illum, et dedit illi nomen, quod est super omne nomen.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Dulce lignum, dulces clavos, dúlcia ferens póndera: quæ sola fuísti digna sustinére Regem cælórum et Dóminum. Allelúja.

*er knékropið)* til þess að í nafni Jesú skuli hvert kné beygja sig, þeirra, sem eru á himni, og þeirra, sem eru á jörðu, og þeirra, sem undir jörðunni eru, og sérhver tunga játa, að Jesús Kristur er Drottinn, Guði Föður til dýrðar.

**Þrepsöngur.** *Fil. 2, 8 - 9.* Kristur varð hlýðinn vor vegna fram í dauða, allt fram í dauða á krossi. ℣. Fyrir því hefur og Guð hátt upphafið hann og gefið honum nafnið, sem hverju nafni er æðra.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Ljúfa tré, ljúfu naglar, ljúfa byrði berið þið, þú eitt, (heilaga krosstré) varst þess verðugt að bera konung og Drottin himnanna. All.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 12, 31-36.*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis Judæórum: Nunc judícium est mundi: nunc princeps hujus mundi ejiciétur foras. Et ego si exaltátus fúero a terra, ómnia traham ad meípsum. (Hoc autem dicébat, signíficans, qua morte esset moritúrus). Respóndit ei turba: Nos audívimus ex lege, quia Chri-

Á þeim tíma sagði Jesús við mannfjölda Gyðinga: Nú gengur dómur yfir þennan heim, nú skal höfðingja þessa heims kastað út, en þegar ég er hafinn frá jörðu, mun ég draga allt (alla) til mín. En þetta sagði hann, til þess að gefa til kynna, með hvaða dauðdaga hann mundi deyja. Mannfjöldinn svaraði honum þá: Vér höfum

stus manet in ætérnum: et quómodo tu dicis: Opórtet exaltári Fílium hóminis? Quis est iste Fílius hóminis? Dixit ergo eis Jesus: Adhuc módicum lumen in vobis est. Ambuláte, dum lucem habétis, ut non vos ténebræ comprehéndant: et qui ámbulat in ténebris, nescit, quo vadat. Dum lucem habétis, crédite in lucem, ut fílii lucis sitis. – **Credo.**

**Offertorium.** Prótege, Dómine, plebem tuam per signum sanctæ Crucis ab ómnibus insídiis inimicórum ómnium: ut tibi gratam exhibeámus servitútem, et acceptábile fiat sacrifícium nostrum, allelúja.

**Secreta.** Jesu Christi, Dómini nostri, Córpore et Sánguine saginándi, per quem Crucis est sanctificátum vexíllum: quæsumus, Dómine, Deus noster; ut, sicut illud adoráre merúimus, ita perénniter ejus glóriæ salutáris potiámur efféctu. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

heyrt í lögmálinu, að Kristur verði til eilífðar, og hvernig segir þú þá, að Mannssonurinn eigi að verða hafinn upp? Hver er þessi Mannssonur? Þá sagði Jesús við þá: Stutta stund er ljósið enn á meðal yðar; gangið, meðan þér hafið ljósið, til þess að myrkrið komi ekki yfir yður; og sá, sem gengur í myrkrinu, veit ekki, hvert hann fer. Meðan þér hafið ljósið, trúið á ljósið, til þess að þér verðið ljóssins synir. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** Vernda þú, Drottinn, þjóð þína með hinu helga krosstákni fyrir vélabrögðum allra óvina, til þess að þjónusta vor megi verða þér geðfelld og fórn vor þér velþóknanleg, allelúja.

**Lágabæn.** Vér, sem nú ætlum að nærast á holdi og blóði Drottins vors Jesú Krists, er hefur helgað merki krossins, biðjum þig, Drottinn, Guð vor, að eins og oss hlotnaðist að tilbiðja þetta merki, megum vér og um alla eilífð öðlast ávexti blessunarríkrar dýrðar þess. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

*Prefatia hins heilaga kross, sjá bls. 24.*

**Communio.** Per signum Crucis de inimícis nostris

**Kommúníuvers.** Guð vor, frelsa oss frá öllum óvinum

líbera nos, Deus noster.

**Postcommunio.** Adésto nobis, Dómine, Deus noster: et, quos sanctæ Crucis lætári facis honóre, ejus quoque perpétuis defénde subsidiis. Per Dóminum nostrum . . .

vorum, fyrir merki krossins.

**Kommúníubæn.** Hjálpa þú oss, Drottinn Guð vor,og vernda oss fyrir stöðuga hjálp hins heilaga kross, eins og þú lætur oss gleðjast yfir dýrð hans. Fyrir Drottin vorn . . .

## SJÖ HARMKVÆLI MARÍU

15. SEPTEMBER

**Introitus.** Stabant juxta Crucem Jesu Mater ejus, et soror Matris ejus, María Cléophæ, et Salóme, et María Magdaléne. ℣. Múlier, ecce fílius tuus: dixit Jesus; ad discipulum autem: Ecce Mater tua. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Deus, in cujus passióne, secúndum Simeónis prophetíam, dulcíssimam ánimam gloriósæ Vírginis et Matris Maríæ dolóris gládius pertransívit: concéde propítius; ut, qui dolóres ejus venerándo recólimus, passiónis tuæ efféctum felícem consequámur: Qui vivis et regnas . . .

**Inngönguvers.** *Jóh. 19, 25.* Hjá krossi Jesú stóðu móðir hans og móðursystir hans, María, kona Klópa, og Salóme, og María Magdalena. ℣. *Jóh. 19, 26-27.* Kona, sjá, þar er sonur þinn, sagði Jesús, en við lærisveininn: Sjá, þar er móðir þín. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Guð, við píslir þínar var hin ljúfa sál dýrlegrar Maríu, meyjar og móður, níst sverði þjáninga, samkvæmt spádómi Símeons. Veit þú náðarsamlega, að vér, sem minnumst með lotningu þjáninga hennar, njótum heillavænlegra áhrifa písla þinna. Þú, sem lifir og ríkir . . .

*Kollekta til minningar um heilagan Nikómedes píslarvott.*

Adésto, Dómine, pópulo tuo: ut, beáti Nicomédis Mártyris tui mérita præclára suscípiens, ad impetrándam

Drottinn, liðsinn lýð þínum, svo að fyrir dýrlega verðleika hins sæla Nikómedesar, píslarvotts þíns, hljóti hann ávallt

misericórdiam tuam semper ejus patrocíniis adjuvétur. Per Dóminum nostrum . . .

hjálp verndar hans og öðlist miskunn þína. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Júditarbók.* 13, 22 og 23, 25.

BENEDÍXIT te Dóminus in virtúte sua, quia per te ad níhilum redégit inimícos nostros. Benedícta es tu, fília, a Dómino, Deo excélso, præ ómnibus muliéribus super terram. Benedíctus Dóminus, qui creávit cælum et terram: quia hódie nomen tuum ita magnificávit, ut non recédat laus tua de ore hóminum, qui mémores fúerint virtútis Dómini in ætérnum, pro quibus non pepercísti ánimæ tuæ propter angústias et tribulatiónem géneris tui, sed subvenísti ruínæ ante conspéctum Dei nostri.

DROTTINN hefur blessað þig með mætti sínum, því að fyrír þig hefur hann að engu gjört óvini vora. Blessuð sért þú, dóttir, af Drottni, Guði hinum æðsta, framar öllum konum á jörðunni. Vegsamaður sé Drottínn, sem skóp himin og jörð, því að í dag hefur hann gjört nafn þitt svo dýrlegt, að lofgjörð til þín mun aldrei hverfa af munni mannanna, sem um eilífð munu minnast máttar Drottins. Því að þú þyrmdir ekki lífi þínu, þegar þjóð þín var í þrengingum og nauðum, heldur komst í veg fyrir eyðingu vora, frammi fyrir augliti Guðs vors.

**Graduale.** Dolorósa et lacrimábilís es, Virgo María, stans juxta Crucem Dómini Jesu, Fílii tui, Redemptóris. ℣. Virgo, Deí Génitríx, quem totus non capít orbís, hoc crucis fert supplícium, auctor vitæ factus homo.

**Þrepsöngur.** Sorgbitin og aumkunarverð ert þú, María mey, eins og þú stendur hjá krossí Drottins Jesú, Sonar þíns og Frelsara. ℣. Móðir Guðs og mey, sá, sem heímurinn getur ekki rúmað, skaparí lífsins, sem hefur gjörzt maður, líður þessar píslir krossins.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Sta-

**Allelúja,** allelúja. ℣. Heílög

bat sancta María, cæli Regina et mundi Dómina, juxta Crucem Dómini nostri Jesu Christi dolorósa.

María, himnadrottning og drottning heimsins, stóð harmþrungin hjá krossi Drottins vors Jesú Krists.

**Sekventía.**

Stabat Mater dolorósa
Juxta Crucem lacrimósa,
Dum pendébat Filius.

Cujus ánimam geméntem,
Contristátam et doléntem
Pertransivit gládius.

O Quam tristis et afflícta
Fuit illa benedicta
Mater Unigéniti!

Quæ mærébat et dolébat,
Pia Mater, dum vidébat
Nati pœnas inclyti.

Quis est homo, qui non fleret,
Matrem Christi si vidéret
In tanto supplício?

Quis non posset contristári,
Christi Matrem contempllári
Doléntem cum Fílio?

Pro peccátis suæ gentis
Vidit Jesum in torméntis
Et flagéllis súbditum.

Vidit suum dulcem Natum
Moriéndo desolátum,
Dum emísit spíritum.

Stóð að krossi sefa sárum
sorgum bitin, drifin tárum,
móðir þar sem mögur hékk;
og um hennar hyggju skarða,
harmi lostna, böli marða,
eggjabrandur bitur gekk.

Ó, hve hrelld og hrygg til dauða
himna drottins var hin auða
einkasonar móðir mær,
sem réð fanga sorg og stranga
sút, er hanga kvöl við langa
sinn leit mæra soninn skær.

Hverir gráta menn ei mundu
móður Krists á þeirri stundu,
ef að horfðu hrelling á?
Hver svo hjartað herða mætti
hans að eigi lundu grætti
góðrar móður sorg að sjá?

Fyrir þjóðar sinnar syndir
sá hún Jesú dreyra lindir,
kross á gálga hengdan hann;
varð að líta sinn hinn sæta
soninn kvölum einan mæta,
meðan lífið láta vann.

Eja, Mater, fons amóris,
Me sentíre vim dolóris
Fac, ut tecum lúgeam.

Fac, ut árdeat cor meum
In amándo Christum Deum,
Ut sibi compláceam.

Sancta Mater, istud agas,
Crucifíxi fige plagas
Cordi meo válide.

Tui Nati vulneráti,
Tam dignáti pro me pati,
Pœnas mecum dívide.

Fac me tecum pie flere,
Crucifíxo condolére,
Donec ego víxero.

Juxta Crucem tecum stare
Et me tibi sociáre
In planctu desídero.

Virgo vírginum præclára,
Mihi jam non sis amára:
Fac me tecum plángere.

Fac, ut portem Christi mortem,
Passiónis fac consórtem
Et plagas recólere.

Fac me plagis vulnerári,
Fac me Cruce inebriári
Et cruóre Fílii.

Flammis ne urar succénsus,
Per te, Virgo, sim defénsus
In die judícii.

Eia móðir, mér að finna
meginsorga byrði þinna
kenndu, lindin kærleikans!
Svo mér brenni hugur og hjarta
helzt að elska son þinn bjarta,
að ég feti fótspor hans.

Heilög móðir, mér, hin bezta,
mundu kvöl í hjarta festa
Kristí, sem á krossi dó!
Sonar þíns er sár í hildi
sjálfur fyrir mig ganga vildi,
veit mér hlut í þjáning þó!

Lát mig gráta með þér, mæta
míns og Jesú krossins gæta,
meðan fjör í æðum er:
því að engin mér skal mærri
mæðubót, né huggun stærri,
en að tárast þar með þér.

Allra skírust mærin meyja,
mig ei láttu einan þreyja,
en þér harma æ við hlið;
lát mig kenna Drottins dauða,
dýr, og finna hlutann nauða,
hans og bölið berjast við.

Lát mig hörðum höggum særa,
hans að krossi glaðan færa,
fyrir sakir sonar þín!
Vek mér eld og ást í huga,
að mér megi traust þitt duga
þegar dómadagur skín!

Christe, cum sit hinc exire,
Da per Matrem me venire
Ad palmam victóriæ.

Quando corpus moriétur,
Fac, ut ánimæ donétur
Paradísi glória.
Amen. Allelúja.

Lát mig kvölum krossinn verja,
Kristí dauða fyrir mig erja,
að ég njóti náðar hans!
Svo þegar lík mitt liggur í moldu
ljóss mín hljóti önd á foldu
hæsta gleði himna ranns!
Amen. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 19, 25-27.*

In illo témpore: Stabant juxta Crucem Jesu Mater ejus, et soror Matris ejus, Maria Cléophæ, et María Magdaléne. Cum vidísset ergo Jesus Matrem, et discípulum stantem, quem diligébat, dicit Matri suæ: Múlier, ecce fílius tuus. Deínde dicit discipulo: Ecce Mater tua. Et ex illa hora accépit eam discípulus in sua. – **Credo.**

Á þeim tíma stóðu hjá krossi Jesú móðir hans og móðursystir hans, María, kona Klópa, og María Magdalena. Þegar nú Jesús sá móður sína og lærisveininn, sem hann elskaði, standa þar, segir hann við móður sína: Kona, sjá, þar er sonur þinn. Síðan sagði hann við lærisveininn: Sjá, þar er móðir þín. Og frá þeirrí stundu tók lærisveinninn hana heim til sín. – **Credo.**

**Offertorium.** Recordáre, Virgo, Mater Dei, dum stéteris in conspéctu Dómini, ut loquáris pro nobis bona, et ut avértat indignatiónem suam a nobis.

**Fórnunarvers.** *Jer. 18, 20.* Minnztu þess, mey og móðir, að tala máli voru frammi fyrir augliti Guðs, svo að hann snúi reiði sinni frá oss.

**Secreta.** Offérimus tibi preces et hóstias, Dómine Jesu Christe, humíliter supplicántes: ut, qui Transfixiónem dulcíssimi spíritus beá-

**Lágabæn.** Drottinn Jesús Kristur, vér færum þér bænir og fórnargjafir og sárbiðjum þig auðmjúklega, að vér, sem minnumst í bænum vorum nístingar

tæ Maríæ, Matris tuæ, précibus recensémus; suo suorúmque sub Cruce Sanctórum consórtium multiplicáto piíssimo intervéntu, méritis mortis tuæ, méritum cum beátis habeámus: Qui vivis et regnas . . .

hinnar ljúfustu sálar alsællar Maríu, móður þinnar, megum hljóta umbun ásamt hinum sælu, vegna verðleika dauða þíns og sakir gæzkuriks og ítrekaðs árnaðar hennar og dýrlinganna, er stóðu ásamt henni við krossinn. Þú, sem lifir og ríkir...

*Lágabæn til minningar um heilagan Nikómedes píslarvott.*

Súscipe, Dómine, múnera propítius obláta: quæ majestáti tuæ beáti Nicomédis Mártyris comméndet orátio. Per Dóminum nostrum . . .

Drottinn, þigg þú náðarsamlega hinar frambornu gjafir; og megi bæn hins sæla Nikómedesar píslarvotts mæla með þeim við hátign þína. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía alsællar Maríu meyjar,* *sjá bls. 25.*

**Communio.** Felíces sensus beátæ Maríæ Vírginis, qui sine morte meruérunt martýrii palmam sub Cruce Dómini.

**Kommúníuvers.** Gæfusamt er hjarta alsællar Maríu meyjar, sem án dauða hlotnaðist pálmi píslarvættisins við kross Drottins.

**Postcommunio.** Sacrifícia, quæ súmpsimus, Dómimine Jesu Christe, Transfixiónem Matris tuæ et Vírginis devóte celebrántes: nobis ímpetrent apud cleméntiam tuam omnis boni salutáris efféctum: Qui vivis et regnas . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn Jesús Kristur, megi fórnargjafirnar, sem vér höfum neytt til hátíðlegrar og guðrækilegrar minningar um nístingu meymóður þinnar, ávinna oss af miskunnsemi þinni allt, sem oss er heillavænlegt. Þú, sem lifir og ríkir . . .

*Kommúníubæn til minningar um heilagan Nikómedes píslarvott.*

Purífícent nos, Dómine, sacraménta quæ súmpsimus: et, intercedénte beáto

Drottinn, megi sakramentin, sem vér höfum neytt, hreinsa oss og leysa oss frá öllum

Nicoméde Mártyre tuo, a cunctis effíciant vitiis absolútos. Per Dóminum nostrum . . .

ódyggðum fyrir bænarstað hins sæla Nikómedesar píslarvotts þins. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILAGUR MATTEUS POSTULI OG GUÐSPJALLAMAÐUR

21. SEPTEMBER

**Introitus.** Os justi meditábitur sapiéntiam, et lingua ejus loquétur judícium: lex Dei ejus in corde ipsius. *Ps.* Noli æmulári in malignántibus: neque zeláveris faciéntes iniquitátem. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 36, 30-31.* Munnur réttláts manns mælir speki, og tunga hans talar það, sem rétt er; lögmál Guðs hans er í hjarta hans. *Sálm. 36, 1.* Ver eigi of bráður vegna illvirkjanna, öfunda eigi þá, er ranglæti fremja. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Beáti Apóstoli et Evangelistæ Matthæi, Dómine, précibus adjuvémur: ut, quod possibilitas nostra non óbtinet, ejus nobis intercessióne donétur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Drottinn, megi oss hlotnast hjálp sakir bæna hins sæla Matteusar, postula og guðspjallamanns, svo að fyrir bænarstað hans veitist oss það, sem vér ekki fáum öðlazt af eigin rammleik. Fyrir Drottin vorn...

**Pistill.**

*Kafli úr spádómsbók Esekiels: 1, 10-14.*

SIMILITÚDO vultus quátuor animálium: fácies hóminis, et fácies leónis a dextris ipsórum quátuor: fácies autem bovis a sinístris ipsórum quátuor, et fácies áquilæ désuper ipsórum quátuor. Fácies eórum et pennæ eórum

ÁSJÓNUR hinna fjögurra vera litu svo út: mannsandlit að framan, ljónsandlit hægra megin á þeim fjórum, nautsandlit vinstra megin á þeim fjórum og arnarandlit á þeim fjórum inn á við. Vængir þeirra voru þandir upp á við; hver

exténtæ désuper: duæ pennæ singulórum jungebántur et duæ tegébant córpora eórum: et unumquódque eórum coram fácie sua ambulábat: ubi erat impetus spíritus, illuc gradiebántur, nec revertebántur cum ambulárent. Et similitúdo animálium, aspéctus eórum quasi carbónum ignis ardéntium et quasi aspéctus lampadárum. Hæc erat vísio discúrrens in médio animálium, splendor ignis, et de igne fulgur egrédiens. Et animália ibant et revertebántur in similitúdinem fúlguris coruscántis.

þeirra hafði tvo vængi, sem voru tengdir saman, og tvo vængi, sem huldu líkami þeirra. Og þær gengu hver fyrir sig beint af augum fram; þær gengu þangað, sem andinn vildi fara, þær snerust eigi við í göngunni. Og milli veranna var að sjá sem eldsglæður brynnu; það var eins og blys færu aftur og fram milli veranna, og bjarma lagði af eldinum, og út frá eldinum gengu leiftur. Og verurnar hlupu fram og aftur, eins og glampi af leiftri.

**Graduale.** Beátus vir, qui timet Dóminum: in mandátis ejus cupit nimis. ℣. Potens in terra erit semen ejus: generátio rectórum benedicétur.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Te gloriósus Apostolórum chorus laudat, Dómine. Allelúja.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 111, 1-2.* Sæll er sá maður, sem óttast Drottin og hefur mikla unun af boðum hans. ℣. Niðjar hans verða voldugir á jörðunni, ætt réttvísra mun blessun hljóta.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Dýrlegur kór postulanna lofar þig, Drottinn. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 9, 9-13.*

In illo témpore: Vídit Jesus hóminem sedéntem in telónia, Matthæum nómine. Et aít illi: Séquere me, Et surgens, secútus est eum. Et

Á þeim tíma sá Jesús mann sitja hjá tollbúðinni, Matteus að nafni. Og hann segir við hann: Fylg þú mér. Og hann stóð upp og fylgdi honum. Og

factum est, discumbénte eo in domo, ecce, multi publicáni et peccatóres veniéntes discumbébant cum Jesu et discípulis ejus. Et vidéntes pharisæi, dicébant discípulis ejus: Quare cum publicánis et peccatóribus mandúcat Magíster vester? At Jesus áudiens, ait: Non est opus valéntibus médicus, sed male habéntibus. Eúntes autem díscite, quid est: Misericórdiam volo, et non sacrifícium. Non enim veni vocáre justos, sed peccatóres.

svo bar til, er hann sat að borði í húsinu, sjá, þá komu margir tollheimtumenn og syndarar og settust að borði með Jesú og lærisveinum hans. Og er Farísearnir sáu það, sögðu þeir við lærisveina hans: Hví etur meistari yðar með tollheimtumönnum og syndurum? En er hann (Jesús) heyrði það, mælti hann: Ekki þurfa heilbrigðir læknis við, heldur þeir, sem sjúkir eru; en farið þér og lærið, hvað þetta þýðir: Miskunnsemi þrái ég, en ekki fórn; því að ég er ekki kominn til þess að kalla réttláta, heldur syndara. – **Credo.**

**Credo.**

**Offertorium.** Posuísti, Dómine, in cápite ejus corónam de lápide pretióso: vitam pétiit a te, et tribuísti ei, allelúja.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 20, 4-5.* Drottinn, þú hefur sett kórónu úr skíru gulli á höfuð honum. Um líf bað hann þig, og þú hefur veitt honum það, all.

**Secreta.** Supplicatiónibus beáti Matthæi Apóstoli et Evangelístæ, quæsumus, Dómine, Ecclésiæ tuæ commendétur oblátio: cujus magníficis prædicatiónibus erudítur. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi fórnargjöf kirkju þinnar verða þér velþóknanleg sakir sárbeiðni hins sæla Matteusar, postula og guðspjallamanns, sem uppfræðir hana með frábærri boðun. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia postulanna,* *sjá bls. 27.*

**Communio.** Magna est glória ejus in salutári tuo: glóriam et magnum decó-

**Kommúníuvers.** *Sálm. 20, 6.* Mikil er sæmd hans fyrir þína hjálp, vegsemd og heiður veittir

rem impónes super eum, Dómine.

**Postcommunio.** Percéptis, Dómine, sacraméntis, beáto Matthæo Apóstolo tuo et Evangelísta interveniénte, deprecámur: ut, quæ pro ejus celebráta sunt glória, nobis profíciant ad medélam. Per Dóminum nostrum . . .

þú honum, Drottinn.

**Kommúníubæn.** Vér höfum meðtekið leyndardómana og biðjum þig, Drottinn, að það, sem vér höfum minnzt hátíðlega, sælum Matteusi, postula þínum og guðspjallamanni, til heiðurs, megi verða oss að læknisdómi sakir árnaðarbæna hans. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## KIRKJUDAGUR HINS HEILAGA MIKAELS HÖFUÐENGILS

29. SEPTEMBER

**Introitus.** Benedícite Dóminum, omnes Angeli ejus: poténtes virtúte, qui fácitis verbum ejus, ad audiéndam vocem sermónum ejus. *Ps.* Bénedic, ánima mea, Dómino: et ómnia, quæ intra me sunt, nómini sancto ejus. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Deus, qui, miro órdine, Angelórum ministéria hominúmque dispénsas: concéde propítius; ut, a quibus tibi ministrántibus in cælo semper assístitur, ab his in terra vita nostra muniátur. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 102, 20.* Lofið Drottin, allir englar hans, þér voldugu hetjur, er framkvæmið boð hans, svo að þér hlýðið orðum hans. *Sálm. 102, 1.* Lofa þú Drottin, sála mín, og allt, sem í mér er, hans heilaga nafn. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Fyrir undursamlega tilhögun skipuleggur þú, Guð, hlutverk engla og manna; veit þú náðarsamlega, að þeir, sem þér eru ætíð til aðstoðar sem þjónar á himnum, verndi líf vort á jörðu. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Opinberunarbók hins heilaga Jóhannesar postula. 1, 1-5.*

In diébus illis: Significávit Deus, quæ opórtet fieri cito, mittens per Angelum suum servo suo Joánni, qui testimónium perhíbuit verbo Dei, et testimónium Jesu Christi, quæcúmque vidit. Beátus, qui legit et audit verba prophetiæ hujus: et servat ea, quæ in ea scripta sunt: tempus enim prope est. Joánnes septem ecclésiis, quæ sunt in Asia. Grátia vobis et pax ab eo, qui est et qui erat et qui ventúrus est: et a septem spirítibus, qui in conspéctu throni ejus sunt: et a Jesu-Christo, qui est testis fidélis, primogénitus mortuórum et princeps regum terræ, qui diléxit nos et lavit nos a peccátis nostris in sánguine suo.

Á þeim dögum sýndi Guð það, sem verða á innan skamms. Og hann sendi engil sinn til að tákna það fyrir Jóhannesi, þjóni sínum, honum, sem bar vitni um orð Guðs og um vitnisburð Jesú Krists, um allt það, er hann sá. Sæll er sá, er les og heyrir (þeir, er heyra) orð þessa spádóms og varðveitir það, sem ritað er í honum, því að tíminn er í nánd. Jóhannes til safnaðanna sjö, sem í Asíu eru; náð sé með yður og friður frá honum, sem er og var og kemur; og frá öndunum sjö, sem eru frammi fyrir hásæti hans; og frá Jesú Kristi; honum, sem er trúr vottur, frumburður dauðra og höfðingi yfir konungum jarðarinnar, sem elskaði oss og leysti oss frá syndum vorum með blóði sínu.

**Graduale.** Benedícite Dóminum, omnes Angeli ejus: poténtes virtúte, qui fácitis verbum ejus. ℣. Bénedic, ánima mea, Dóminum, et ómnia interióra mea, nomen sanctum ejus.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 102, 20 og 1.* Lofið Drottin, allir englar hans, þér voldugu hetjur, er framkvæmið boð hans. ℣. Lofa þú Drottin, sála mín, og allt, sem í mér er, hans heilaga nafn.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Sancte Míchael Archángele, de-

**Allelúja,** allelúja. ℣. Heilagi Mikael höfuðengill, vernda oss

fénde nos in prælio: ut non pereámus in treméndo judício. Allelúja.

í baráttunni, til þess að vér förumst ekki við hinn hræðilega dóm. Allelúja.

### Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 18, 1-10.*

In illo témpore: Accessérunt discípuli ad Jesum, dicéntes: Quis, putas, major est in regno cælórum? Et ádvocans Jesus párvulum, státuit eum in médio eórum et dixit: Amen, dico vobis, nisi convérsi fuéritis et efficiámini sicut párvuli, non intrábitis in regnum cælórum. Quicúmque ergo humiliáverit se sicut párvulus iste, hic est major in regno cælórum. Et qui suscéperit unum párvulum talem in nómine meo, me súscipit. Qui autem scandalizáverit unum de pusíllis istis, qui in me credunt, éxpedit ei, ut suspendátur mola asinária in collo ejus, et demergátur in profúndum maris. Væ mundo a scándalis! Necésse est enim, ut véniant scándala: verúmtamen væ hómini illi, per quem scándalum venit! Si autem manus tua vel pes tuus scandalízat te, abscíde eum et

Á þeim tíma komu lærisveinarnir til Jesú og sögðu: Hver er þá mestur (Hvern álítur þú mestan) í himnaríki? Og hann (Jesús) kallaði til sín lítið barn, setti það á meðal þeirra og sagði: Sannlega segi ég yður: nema þér snúið við og verðið eins og börnin, komizt þér ekki inn í himnaríki. Hver, sem því lítillækkar sig eins og barn þetta, sá er mestur í himnaríki. Og hver, sem tekur á móti einu slíku barni í mínu nafni, hann tekur á móti mér. En hver, sem hneykslar einn af þessum smælingjum, sem á mig trúa, betra væri honum, að stór kvarnarsteinn væri hengdur um háls honum og honum væri sökkt í sjávardjúp. Vei heiminum vegna hneykslananna; því að óumflýjanlegt er, að hneykslanir komi, en vei þeim manni, sem hneykslunninni veldur. En ef hönd þín eða fótur þinn hneykslar þig, þá snið hann af

prójice abs te: bonum tibi est ad vitam ingredi débilem vel claudum, quam duas manus vel duos pedes habéntem mitti in ignem ætérnum. Et si óculus tuus scandalizat te, érue eum et prójice abs te: bonum tibi est cum uno óculo in vitam intráre, quam duos óculos habéntem mitti in gehénnam ignis. Vidéte, ne contemnátis unum ex his pusillis: dico enim vobis, quia Angeli eórum in cælis semper vident fáciem Patris mei, qui in cælis est. – **Credo.**

og kasta frá þér; því að betra er þér handarvana eða höltum inn að ganga til lífsins, en að hafa tvær hendur eða tvo fætur og verða kastað í hinn eilífa eld. Og ef auga þitt hneykslar þig, þá ríf það út og kasta frá þér, betra er þér eineygðum inn að ganga til lífsins, en að hafa bæði augu og verða kastað í eldsvítið. Sjáið til, að þér eigi fyrirlítið neinn af þessum smælingjum, því að ég segi yður, að englar þeirra á himni sjá ávallt auglit Föður míns, sem er á himni. **Credo.**

**Offertorium.** Stetit Angelus juxta aram templi, habens thuribulum áureum in manu sua, et data sunt ei incénsa multa: et ascéndit fumus arómatum in conspéctu Dei, allelúja.

**Fórnunarvers.** *Opinb. 8, 3 og 4.* Engill stóð hjá altari (musterisins) og hélt á gullnu glóðarkeri, og honum var fengið mikið af reykelsi, og reykurinn af reykelsinu steig upp frammi fyrir augliti Guðs, allelúja.

**Secreta.** Hóstias tibi, Dómine, laudis offérimus, supplíciter deprecántes: ut eásdem, angélico pro nobis interveniénte suffrágio, et placátus accipias, et ad salútem nostram proveníre concédas. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér færum þér, Drottinn, lofgjörðarfórn og biðjum þig auðmjúklega að þiggja hana sáttur og láta hana verða oss til hjálpræðis fyrir bænarstað englanna. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Benedícite, omnes Angeli Dómini, Dóminum: hymnum dícite et superexaltáte eum in sæcula.

**Kommúníuvers.** *Dan. 3, 58.* Lofið Drottin, allir englar Drottins, syngið honum lofsöng og tignið hann um aldir.

**Postcommunio.** Beáti Archángeli tui Michaelis intercessióne suffúlti: súpplices te, Dómine, deprecámur; ut, quod ore proséquimur, contingámus et mente. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig auðmjúklega, Drottinn, að fyrir hjálp árnaðarbæna hins sæla Mikaels, höfuðengils þíns, megum vér og meðtaka andlega það, sem vér neytum með munni vorum. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILÖG TERESÍA LITLA, MEY

3. OKTÓBER

**Introitus.** Veni de Líbano, sponsa mea, veni de Líbano, veni: vulnerásti cor meum, soror mea sponsa, vulnerásti cor meum. *Ps.* Laudáte, púeri, Dóminum: laudáte nomen Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Ljóð. 4, 8-9.* Kom frá Líbanon, brúður mín, kom frá Líbanon, kom. Þú hefur sært hjarta mitt, systir mín og brúður, þú hefur sært hjarta mitt. *Sálm. 112, 1.* Lofið, þér þjónar Drottins, lofið nafn Drottins. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Dómine, qui dixísti: Nisi efficiámini sicut párvuli, non intrábitis in regnum cælórum: da nobis, quæsumus; ita sanctæ Terésiæ Vírginis in humilitáte et simplicitáte cordis vestígia sectári, ut præmia consequámur ætérna: Qui vivis et regnas . . .

**Kollekta.** Drottinn, þú, sem sagðir: Nema þér verðið eins og börnin, komizt þér ekki inn í himnaríki, vér biðjum þig, veit þú oss að feta þannig í fótspor heilagrar Teresíu meyjar í auðmýkt og einfaldleika hjartans, að vér hljótum hin eilífu laun. Þú sem lifir og ríkir . . .

## Pistill.

*Kafli úr Spádómsbók Jesaja, 66, 12-14.*

HÆC dicit Dóminus: Ecce, ego declinábo super eam quasi flúvium pacis, et quasi torréntem inundántem glóriam géntium, quam sugétis: ad úbera portabímini, et super génua blandiéntur vobis. Quómodo si cui mater blandiátur, ita ego consolábor vos, et in Jerúsalem consolabímini. Vidébitis, et gaudébit cor vestrum, et ossa vestra quasi herba germinábunt, et cognoscétur manus Dómini servis ejus.

SVO segir Drottinn: Sjá, ég veiti friði til hennar eins og fljóti og dýrð þjóðanna eins og flæðandi vatnsfalli, og þér skuluð drekka, þér skuluð bornir verða við móðurbrjóst, og yður skal hossað verða á hnjánum. Eins og móðir huggar son sinn, eins mun ég hugga yður; í Jerúsalem skuluð þér huggaðir verða. Þér munuð sjá (þetta), og hjarta yðar mun fagna og bein yðar (líkami) þróast sem grængresi og hönd Drottins verða kunn þjónum hans.

**Graduale.** Confíteor tibi, Pater, Dómine cæli et terræ, quia abscondísti hæc a sapiéntibus, et prudéntibus, et revelásti ea párvulis. ℣. Dómine, spes mea a juventúte mea.

**Þrepsöngur.** *Matt. 11, 25.* Ég vegsama þig, Faðir, herra himins og jarðar, að þú hefur hulið þetta fyrir spekingum og hyggindamönnum og opinberað það smælingjum. *Sálm. 70, 5.* ℣. Drottinn, þú ert von mín frá æsku.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Quasi rosa plantáta super rivos aquárum fructificáte: quasi Líbanus odórem suavitátis habéte: floréte, flores, quasi lílium, et date odórem, et frondéte in grátiam, et collaudáte cánticum, et benedícite Dóminum in opéribus suis. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. *Sír. 39, 17-19.* ℣. Berið blóm eins og rós, gróðursett á vatnsbakka. Gefið frá yður góðan ilm eins og Líbanus. Berið blóm eins og liljan, gefið angan og berið fögur lauf. Hefjið samsöng og vegsamið Drottin fyrir verk hans. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 18, 1-4.*

In illo témpore: Accessérunt discípuli ad Jesum, dicéntes: Quis, putas, major est in regno cælórum? Et ádvocans Jesus párvulum, státuit eum in médio eórum, et dixit: Amen, dico vobis, nisi convérsi fuéritis, et efficiámini sicut párvuli, non intrábitis in regnum cælórum. Quicúmque ergo humiliáverit se sicut párvulus iste, hic est major in regno cælórum.

Á þeim tíma komu lærisveinarnir til Jesú og sögðu: Hver er þá mestur (Hvern álítur þú mestan) í himnaríki? Og hann (Jesús) kallaði til sín lítið barn, setti það á meðal þeirra og sagði: Sannlega segi ég yður: nema þér snúið við og verðið eins og börnin, komizt þér ekki inn í himnaríki. Hver, sem því lítillækkar sig eins og barn þetta, sá er mestur í himnaríki.

**Credo.**

**Credo.**

**Offertorium.** Magníficat ánima mea Dóminum: et exsultávit spíritus meus in Deo salutári meo: quia respéxit humilitátem ancíllæ suæ: fecit mihi magna qui potens est.

**Fórnunarvers.** *Lúk. 1, 46-48 og 49.* Sál mín miklar Drottin, og andi minn hefur glaðzt í Guði, lausnara mínum, því að hann hefur litið á smæð ambáttar sinnar; hinn voldugi hefur gjört mikla hluti við mig.

**Secreta.** Sacrifícium nostrum tibi, Dómine, quæsumus, sanctæ Terésiæ Vírginis tuæ precátio sancta concíliet: ut, in cujus honóre solémniter exhibétur, ejus méritis efficiátur accéptum. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Megi heilög árnaðarbæn heilagrar Teresíu, meyjar þinnar, gjöra fórn vora þér velþóknanlega, svo að hún verði þegin sakir verðleika hennar, sem vér færum hana hátíðlega til heiðurs. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Circumdúxit

**Kommúníuvers.** *5. Mós. 32,*

eam, et dócuit: et custodívit quasi pupíllam óculi sui. Sicut áquila expándit alas suas, et assúmpsit eam, atque portávit in húmeris suis. Dóminus solus dux ejus fuit.

*10-12.* Hann hefur borið umhyggju fyrir henni og uppfrætt hana og varðveitt hana sem sjáaldur auga síns. Eins og örn hefur hann útbreitt vængi sína, tekið hana upp og borið hana á herðum sínum. Drottinn einn hefur verið leiðtogi hennar.

**Postcommunio.** Illo nos, Dómine, amóris igne cæléste mystérium inflámmet: quo sancta Terésia Vírgo tua se tibi pro homínibus caritátis víctimam devóvit. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn, megi hinn himneski leyndardómur tendra í oss þann eld kærleikans, sem kom hinni heilögu Teresíu, meyju þinni, til að helga sig þér, sem fórnarlamb kærleikans, mönnunum til handa. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILAGUR FRANS FRÁ ASSISI, JÁTANDI

4. OKTÓBER

**Introitus.** Mihi autem absit gloriári, nisi in Cruce Dómini nostri Jesu Christi: per quem mihi mundus crucifíxus est, et ego mundo. *Ps.* Voce mea ad Dóminum clamávi: voce me ad Dóminum deprecátus sum. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *Gal. 6, 14.* En það sé fjarri mér að hrósa mér, nema af krossi Drottins vors Jesú Krists, fyrir hvern heimurinn er mér krossfestur og ég heiminum. *Sálm. 141, 2.* Ég hrópa hástöfum til Drottins, hástöfum grátbæni ég Drottin. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui Ecclésiam tuam, beáti Francísci méritis fœtu novæ prolis amplíficas: tríbue nobis; ex ejus imitatióne, terréna despícere et cæléstium donórum sem-

**Kollekta.** Guð, þú, sem auðgar kirkju þína að nýju afkvæmi sakir verðleika hins sæla Frans, veit þú oss, að eftir fyrirdæmi hans metum vér lítils hið jarðneska og gleðjumst

per participatióne gaudére. Per Dóminum nostrum . . .

ætíð af hluttöku vorri í hinum himnesku gæðum. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Galatamanna. 6, 14-18.*

FRATRES: Mihi autem absit gloriári, nisi in Cruce Dómini nostri Jesu Christi: per quem mihi mundus crucifíxus est, et ego mundo. In Christo enim Jesu neque circumcisio áliquid valet neque præpútium, sed nova creatúra. Et quicúmque hanc régulam secúti fúerint, pax super illos et misericórdia, et super Israel Dei. De cétero nemo mihi moléstus sit: ego enim stígmata Dómini Jesu in córpore meo porto. Grátia Dómini nostri Jesu Christi cum spíritu vestro, fratres. Amen.

BRÆÐUR: En það sé fjarri mér að hrósa mér, nema af krossi Drottins vors Jesú Krists, fyrir hvern heimurinn er mér krossfestur og ég heiminum. Því að hvorki hefur (í Kristi Jesú) umskurn gildi, né yfirhúð, heldur ný sköpun. Og yfir öllum þeim, sem þessari reglu fylgja, sé friður og miskunn, og einnig yfir Ísrael Guðs. Enginn mæði mig héðan í frá, því að ég ber merki Jesú á líkama mínum. Náð Drottins vors Jesú Krists sé með yðar anda, bræður. Amen.

**Graduale.** Os justi meditábitur sapiéntiam, et lingua ejus loquétur judícium. ℣. Lex Dei ejus in corde ipsíus: et non supplantabúntur gressus ejus.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 36, 30-31.* Munnur réttláts manns mælir speki, og tunga hans talar það, sem rétt er. ℣. Lögmál Guðs hans er í hjarta hans, fætur hans munu eigi skjögra.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Franciscus pauper et húmilis cælum dives ingréditur, hymnis cæléstibus honorátur. Allelúja.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Frans, fátækur og auðmjúkur, gengur ríkur inn í himininn. Hann er heiðraður með himneskum lofsöngvum. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 11, 25-30.*

In illo témpore: Respóndens Jesus, dixit: Confíteor tibi, Pater, Dómine cæli et terræ, quia abscondísti hæc a sapiéntibus et prudéntibus, et revelásti ea párvulis. Ita, Pater: quóniam sic fuit plácitum ante te. Omnia mihi trádita sunt a Patre meo. Et nemo novit Fílium nisi Pater: neque Patrem quis novit nisi Fílius, et cui volúerit Fílius reveláre. Veníte ad me, omnes, qui laborátis et oneráti estis, et ego refíciam vos. Tóllite jugum meum super vos, et díscite a me, quia mitis sum et húmilis corde: et inveniétis réquiem animábus vestris. Jugum enim meum suáve est et onus meum leve.

Á þeim tíma tók Jesús til máls og sagði: Ég vegsama þig, Faðir, herra himins og jarðar, að þú hefur hulið þetta fyrir spekingum og hyggindamönnum og opinberað það smælingjum. Já, Faðir, því að þannig hefur þér þóknazt. Allt er mér falið af Föður mínum. Og enginn þekkir Soninn nema Faðirinn, og enginn þekkir Föðurinn nema Sonurinn og sá, er Sonurinn vill opinbera hann. Komið til mín, allir þér, sem erfiðið og þunga eruð hlaðnir, og ég mun létta undir með yður. Takið á yður ok mitt, og lærið af mér, því að ég er hógvær og lítillátur af hjarta, og þér munuð finna sálum yðar hvíld. Því að ok mitt er ljúft og byrði mín létt.

**Offertorium.** Véritas mea et misericórdia mea cum ipso: et in nómine meo exaltábitur cornu ejus.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 88, 25.* Trúfesti mín og miskunn skulu vera með honum, og fyrir sakir nafns míns skal horn[1] hans gnæfa hátt.

**Secreta.** Múnera tibi, Dómine, dicáta sanctífica: et, intercedénte beáto Franci-

**Lágabæn.** Helga þú, Drottinn, þessar fórnargjafir, sem þér eru færðar, og hreinsa oss af

1) máttur.

sco, ab omni nos culpárum labe purífica. Per Dóminum nostrum . . .

öllum syndablettum sakir árnaðar hins sæla Frans. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Fidélis servus et prudens, quem constítuit dóminus super famíliam suam: ut det illis in témpore trítici mensúram.

**Kommúníuvers.** *Lúk. 12,42.* Trúr og hygginn þjónn, sem húsbóndinn hefur sett yfir hjú sín, til að gefa þeim kornskammtinn á réttum tíma.

**Postcommunio.** Ecclésiam tuam, quæsumus, Dómine, grátia cæléstis amplíficet: quam beáti Francísci Confessóris tui illumináre voluísti gloriósis méritis et exémplis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér biðjum þig, megi hin himneska náð auðga kirkju þína, sem þér hefur þóknazt að uppfræða sakir dýrlegra verðleika og fordæmis hins sæla Frans, játanda þíns. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## RÓSAKRANSMESSA

7. OKTÓBER

**Introitus.** Gaudeámus omnes in Dómino, diem festum celebrántes sub honóre beátæ Maríæ Vírginis: de cujus solemnitáte gaudent Angeli et colláudant Fílium Dei. *Ps.* Eructávit cor meum verbum bonum: dico ego ópera mea Regi. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** Gleðjumst allir í Drottni, er vér höldum þennan dag hátíðlegan, til dýrðar alsælli Maríu meyju. Englarnir gleðjast á hátíð hennar og syngja Syni Guðs lof. *Sálm. 44, 2.* Hjarta mitt svellur af ljúfum orðum, ég flyt konunginum kvæði mitt. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, cujus Unigénitus per vitam, mortem et resurrectiónem suam nobis salútis ætérnæ præmia

**Kollekta.** Guð, hinn eingetni Sonur þinn hefur með lífi sínu, dauða sínum og upprisu unnið oss til handa laun hins

comparávit: concéde, quæsumus; ut, hæc mystéria sacratíssimo beátæ Maríæ Vírginis Rosário recoléntes, et imitémur, quod cóntinent, et quod promíttunt, assequámur. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

eilífa hjálpræðis. Vér biðjum þig, veit oss, að fyrir hugleiðingu vora á leyndardómum hins heilaga rósakrans alsællar Maríu meyjar megum vér breyta eftir því, sem þeir hafa að geyma, og öðlast það, sem þeir heita oss. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

*Kollekta til minningar um heilagan Markús, páfa og játanda.*

Gregem tuum, Pastor ætérne, placátus inténde: et per beátum Marcum Summum Pontíficem, perpétua protectióne custódi; quem totíus Ecclésiæ præstitísti esse pastórem. Per Dóminum nostrum . . .

Eilífi hirðir, lít sáttur flokk þinn og gæt hans með stöðugri vernd fyrir sælan Markús páfa, sem þú gafst allri kirkjunni sem hirði. Fyrir Drottin vorn...

## Pistill.

*Kafli úr Spekiritunum. Orðskv. 8, 22-24, 32-35.*

DÓMINUS possédit me in inítio viárum suárum, ántequam quidquam fáceret a princípio. Ab ætérno ordináta sum et ex antíquis, ántequam terra fíeret. Nondum erant abýssi, et ego jam concépta eram. Nunc ergo, fílii, audíte me; Beáti, qui custódiunt vias meas. Audíte disciplínam, et estóte sapiéntes, et nolíte abjícere eam. Beátus homo, qui audit me

DROTTINN átti mig í upphafi vega sinna, á undan öðrum verkum sínum fyrir alda öðli. Frá eilífð var ég fyrirætlaður, frá upphafi, áður en jörðin var til. Áður en hafdjúpin urðu til, var ég þegar getinn. Og nú, synir mínir, hlýðið á mig: Sælir eru þeir, sem varðveita vegu mína. Hlýðið á fræðsluna og verið vitrir, fyrirlítið hana ekki. Sæll er sá maður, sem hlýðir á mig, sem vakir daglega við dyr

et qui vígilat ad fores meas quotídie, et obsérvat ad postes óstii mei. Qui me invénerit, invéniet vitam et háuriet salútem a Dómino.

**Graduale.** Propter veritátem et mansuetúdinem et justítiam: et dedúcet te mirabíliter déxtera tua. ℣. Audi, fília, et vide, et inclína aurem tuam: quia concupívit Rex spéciem tuam.

**Allelúja**, allelúja. ℣ Solémnitas gloriósæ Vírginis Maríæ ex sémine Abrahæ, ortæ de tribu Juda, clara ex stirpe David. Allelúja.

mínar og geymir dyrastafa minna, því að sá, sem finnur mig, finnur lífið og mun hljóta blessun af Drottni.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 44, 5. 11 og 12.* Sakir sannleika, gæzku og réttlætis; hægri hönd þín láti þig gjöra dásemdarverk. ℣. Heyr þú, dóttir, og sjá, og hneig eyra þitt, því að konungurinn mun fella hug til fegurðar þinnar.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Í dag er hátíð dýrlegrar Maríu meyjar af ætt Abrahams, sprottinnar af ættkvísl Júda, af göfugri Davíðs ætt. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 1, 26-38 og 42.*

In illo témpore: Missus est Angelus Gábriel a Deo in civitátem Galilææ, cui nomen Názareth, ad Vírginem desponsátam viro, cui nomen erat Joseph, de domo David, et nomen Vírginis María. Et ingréssus Angelus ad eam, dixit: Ave, grátia plena; Dóminus tecum: benedícta tu in muliéribus. Quæ cum audísset, turbáta est in sermóne ejus: et cogitábat, qualis esset ista salu-

Á þeim tíma var Gabríel engill sendur frá Guði til borgar í Galíleu, að nafni Nazaret, til meyjar, er var heitbundin manni, sem Jósef hét, af ætt Davíðs, og nafn meyjarinnar var María. Og engillinn kom inn til hennar og mælti: Heil sért þú, full náðar, Drottinn er með þér, blessuð ert þú meðal kvenna. Þegar hún hafði heyrt þetta, varð henni hverft við, og tók hún að hugleiða, hvílík þessi kveðja væri. Og engillinn

tátio. Et ait Angelus ei: Ne tímeas, María, invenísti enim grátiam apud Deum: ecce, concípies in útero et páries fílium, et vocábis nomen ejus Jesum. Hic erit magnus, et Fílius Altíssimi vocábitur, et dabit illi Dóminus Deus sedem David, patris ejus: et regnábit in domo Jacob in ætérnum, et regni ejus non erit finis. Dixit autem María ad Angelum: Quómodo fiet istud, quóniam virum non cognósco? Et respóndens Angelus, dixit ei: Spíritus Sanctus supervéniet in te, et virtus Altíssimi obumbrábit tibi. Ideóque et quod nascétur ex te Sanctum, vocábitur Fílius Dei. Et ecce, Elísabeth, cognáta tua, et ipsa concépit fílium in senectúte sua: et hic mensis sextus est illi, quæ vocátur stérillis: quia non erit impossíbile apud Deum omne verbum. Dixit autem María: Ecce ancílla Dómini, fiat mihi secúndum verbum tuum.

**Credo.**

**Offertorium.** In me grátia omnis viæ et veritátis, in me omnis spes vitæ et virtútis: ego quasi rosa plantáta su-

sagði við hana: Vertu óhrædd, María, því að þú hefur fundið náð hjá Guði. Sjá, þú munt þunguð verða og fæða son, og þú skalt láta hann heita Jesúm. Hann mun verða mikill og verða kallaður sonur hins æðsta, og Drottinn Guð mun gefa honum hásæti Davíðs föður hans, og hann mun ríkja yfir húsi Jakobs að eilífu, og á ríki hans mun enginn endir verða. Þá sagði María við engilinn: Hvernig getur þetta verið, þar eð ég hef engin kynni af karlmanni? Og engillinn svaraði og sagði við hana: Heilagur Andi mun koma yfir þig, og kraftur hins æðsta mun yfirskyggja þig, fyrir því mun og það, sem fæðist af þér, verða heilagt og kallast Sonur Guðs. Og sjá, Elísabet, frændkona þín, í elli sinni er hún einnig orðin þunguð að syni, og þetta er hinn sjötti mánuður hennar; hún, sem kölluð var óbyrja; því að ekkert er Guði ómögulegt. En María sagði: Sjá, ég er ambátt Drottins, verði mér eftir orði þínu.

**Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sír. 24, 25: 39, 17.* Í mér er öll náð lífs (vegar) og sannleika, í mér er öll von lífs og dyggðar. Ég hef bor-

per rivos aquárum fructificávi.

ið blóm eins og rós, gróðursett á vatnsbakka.

**Secreta.** Fac nos, quæsumus, Dómine, his munéribus offeréndis conveniénter aptári: et per sacratíssimi Rosárii mystéria sic vitam, passiónem et glóriam Unigéniti tui recólere; ut ejus digni promissiónibus efficiámur: Qui tecum vivit et regnat . . .

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, gjör þú oss hæfa til þess að bera fram þessar fórnargjafir á tilhlýðilegan hátt og að minnast, fyrir leyndardóma hins heilaga rósakrans, lífs, pisla og dýrðar þíns eingetna Sonar, svo að vér verðum maklegir fyrirheita hans, sem með þér lifir og ríkir . . .

*Lágabæn til minningar um heilagan Markús, páfa og játanda.*

Oblátis munéribus, quæsumus, Dómine, Ecclésiam tuam benígnus illúmina: ut, gregis tui profíciat ubíque succéssus, et grati fiant nómini tuo, te gubernánte, pastóres. Per Dóminum nostrum . . .

Vér höfum fært þér fórnargjafirnar og biðjum þig, Drottinn, að uppfræða náðarsamlega kirkju þína, svo að hjörð þín dafni allsstaðar og undir leiðsögu þinni verði hirðarnir velþóknanlegir þínu nafni. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Floréte, flores, quasi lílium, et date odórem, et frondéte in grátiam, collaudáte cánticum, et benedícite Dóminum in opéribus suis.

**Kommúníuvers.** *Sír. 39, 19.* Berið blóm eins og liljan, gefið angan og berið fögur lauf. Hefjið samsöng og vegsamið Drottin fyrir verk hans.

**Postcommunio.** Sanctíssimæ Genetrícis tuæ cujus Rosárium celebrámus, quæsumus, Dómine, précibus adjuvémur: ut et mysteriórum, quæ cólimus, virtus

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að vér, sem heiðrum rósakrans alsællar móður þinnar, megum öðlast hjálp bæna hennar, svo að vér megum kenna máttar þeirra

percipiátur; et sacramentórum, quæ súmpsimus, obtineátur efféctus: Qui vivis et regnas . . .

leyndardóma, er vér dýrkum, og njóta áhrifa þeirra sakramenta, er vér höfum neytt. Þú, sem lifir og ríkir . . .

*Kommúníubæn til minningar um heilagan Markús, páfa og játanda.*

Refectióne sancta enutrítam gubérna, quæsumus, Dómine, tuam placátus Ecclésiam: ut poténti moderatióne dirécta, et increménta libertátis accípiat et in religiónis integritáte persístat. Per Dóminum nostrum . . .

Vér biðjum þig, Drottinn, stjórna þú sáttur kirkju þinni, endurnærðri af hinni heilögu máltið, svo að hún öðlist undir öflugri leiðsögu aukið frelsi og haldi stöðugt fast við óskerta trúarkenningu. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## HEILÖG MARÍA MEY OG MÓÐIR

11. OKTÓBER

**Introitus.** Ecce, Virgo concípiet, et páriet fílium, et vocábitur nomen ejus Emmánuel. *Ps.* Cantáte Dómino cánticum novum, quia mirabília fecit. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Deus, qui de beátæ Maríæ Vírginis útero Verbum tuum, Angelo nuntiánte, carnem suscípere voluísti: præsta supplícibus tuis; ut, qui vere eam Genitrícem Dei crédimus, ejus apud te intercessiónibus adjuvémur. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Jes. 7, 14.* Sjá, mærin mun þunguð verða og fæða son, og nafn hans mun verða Emmanúel. *Sálm. 97, 1.* Syngið Drottni nýjan söng, því að hann hefur gjört dásemdarverk. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem vildir láta Orð þitt taka á sig hold af skauti alsællar Maríu meyjar, samkvæmt boðskap engilsins, veit oss, að vér, sem sárbiðjum þig og trúum, að hún sé sannarlega móðir Guðs, öðlumst hjálp fyrir bænarstað hennar hjá þér. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

## Pistill.

*Kafli úr Spekiritunum. Sír. 24, 23-31.*

EGO quasi vitis fructificávi suavitátem odóris: et flores mei, fructus honóris et honestátis. Ego mater pulchræ dilectiónis, et timóris, et agnitiónis, et sanctæ spei. In me grátia omnis viæ et veritátis: in me omnis spes vitæ, et virtútis. Transíte ad me omnes qui concupíscitis me, et a generatiónibus meis impléımini. Spíritus enim meus super mel dulcis, et heréditas mea super mel et favum. Memória mea in generatiónes sæculórum. Qui edunt me, adhuc esúrient: et qui bibunt me, adhuc sítient. Qui audit me, non confundétur: et qui operántur in me, non peccábunt. Qui elúcidant me, vitam ætérnam habébunt.

EINS og vínviður hef ég framleitt ljúfan ilm, og blóm mín bera dýrlegan og ríkulegan ávöxt. Ég er móðir fagurrar ástar, Guðsótta, þekkingar og heilagrar vonar. Í mér er öll náð lífs (vegar) og sannleika, í mér er öll von lífs og dyggðar. Komið til mín, þér allir, sem þráið mig, og mettið yður á aldinum mínum. Að minnast mín er sætara en hunang, og arfur minn er betri en hunang og hunangsseimur. Minning mín varir um aldir, frá kynslóð til kynslóðar. Þá, sem neyta mín, mun ennþá hungra[1], og þá, sem drekka mig, mun enn þyrsta. Þann, er hlýðir á mig, hendir ei skömm, og þeir, sem vinna verk mín, munu ekki syndga. Þeir, sem endurspegla mig í orði og verki, munu hljóta eilíft líf.

**Graduale.** Egrediétur virga de radíce Jesse, et flos de radíce ejus ascéndet. ℣. Et requiéscet super eum Spíritus Dómini.

**Þrepsöngur.** *Jes. 11, 1-2.* Af stofni Jesse mun kvistur fram spretta og angi uppvaxa af rótum hans. ℣. Yfir honum mun hvíla Andi Drottins.

**Allelúja,** allelúja. ℣ Virgo Dei Génitrix, quem totus

**Allelúja,** allelúja. ℣. Guðs móðir og mey, sá, sem heim-

1) eftir mér.

non capit orbis, in tua se clausit víscera factus homo. Allelúja.

urinn fær ekki rúmað, hefur innilukt sig í skauti þínu, er hann gjörðist maður. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 2, 43-51.*

In illo témpore: Cum redírent, remánsit puer Jesus in Jerúsalem, et non cognovérunt parentes ejus. Existimántes autem illum esse in comitátu, venérunt iter diéi, et requirébant eum inter cognátos, et notos. Et non inveniéntes, regréssi sunt in Jerúsalem, requiréntes eum. Et factum est, post tríduum invenérunt illum in templo sedéntem in médio doctórum, audiéntem illos, et interrogántem eos. Stupébant autem omnes, qui eum audiébant, super prudéntia, et respónsis ejus. Et vidéntes admiráti sunt. Et dixit mater ejus ad illum: Fili, quid fecísti nobis sic? ecce pater tuus, et ego doléntes quærebámus te. Et ait ad illos: Quid est quod me quærebátis? nesciebátis quia in his quæ Patris mei

Á þeim tíma er þau [1] sneru heimleiðis, varð sveinninn Jesús eftir í Jerúsalem, og vissu foreldrar hans það eigi. En af því að þau ætluðu, að hann væri með samferðafólkinu, fóru þau eina dagleið og leituðu hans meðal frænda og kunningja. Og er þau fundu hann ekki, sneru þau aftur til Jerúsalem og leituðu hans. Og það var ekki fyrr en eftir þrjá daga, að þau fundu hann í helgidóminum, þar sem hann sat mitt á meðal lærimeistaranna og bæði hlýddi á þá og spurði þá. En alla, sem heyrðu til hans, furðaði á skilningi hans og andsvörum. Og er þau sáu hann, urðu þau forviða. Og móðir hans sagði við hann: Barn, hví gjörðir þú okkur þetta? Sjá, faðir þinn og ég leituðum þín harmþrungin. Og hann sagði við þau: Hvers vegna voruð þið að leita að mér? Vissuð þið ekki, að mér

1) María og Jósef.

sunt, opórtet me esse? Et ipsi non intellexérunt verbum quod locútus est ad eos. Et descéndit cum eis, et venit Názareth: et erat súbditus illis. – **Credo.**

**Offertorium.** Cum esset desponsáta Mater ejus María Joseph, invénta est in útero habens de Spíritu Sancto.

**Secreta.** Tua, Dómine, propitiatióne, et beátæ Maríæ semper Vírginis, Unigéniti tui Matris, intercessióne, ad perpétuam atque præséntem hæc oblátio nobis profíciat prosperitátem et pacem. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

ber að vera í því, sem föður míns er? En þau skildu ekki það, er hann talaði við þau. Og hann fór heim með þeim og kom til Nazaret og var þeim undirgefinn. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Matt. 1, 18.* Er María, móðir hans, var föstnuð Jósef, reyndist hún þunguð af Heilögum Anda.

**Lágabæn.** Drottinn, megi þessi fórn verða oss til eilífrar og tímanlegrar farsældar og friðar, sakir miskunnar þinnar og árnaðar alsællar Maríu, ætíð meyjar, móður eingetins Sonar þíns. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

*Prefatia alsællar Maríu meyjar, sjá bls. 25.*

**Communio.** Beáta víscera Maríæ Vírginis, quæ portavérunt ætérni Patris Fílium.

**Postcommunio.** Hæc nos commúnio, Dómine, purget a crímine: et, intercedénte beáta Vírgine Dei Genitríce María cæléstis remédii fáciat esse consórtes. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Kommúníuvers.** Sælt er móðurskaut Maríu meyjar, sem bar Son hins eilífa Föður.

**Kommúníubæn.** Drottinn, megi þessi kommúnía hreinsa oss af misgjörðum vorum og sakir fyrirbæna alsællar Maríu meyjar, móður Guðs, gjöra oss hluttakendur í hinum himneska læknisdómi. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

## MESSA FYRIR ÚTBREIÐSLU TRÚARINNAR

### Þriðji sunnudagur í október.

**Introitus.** Deus misereátur nostri, et benedicat nobis: illúminet vultum suum super nos, et misereátur nostri: ut cognoscámus in terra viam tuam, in ómnibus géntibus salutáre tuum. *Ps.* Confiteántur tibi pópuli, Deus: confiteántur tibi pópuli omnes. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Deus, qui omnes hómines vis salvos fíeri et ad agnitiónem veritátis veníre: mitte, quæsumus, operários in messem tuam, et da eis cum omni fidúcia loqui verbum tuum; ut sermo tuus currat et clarificétur, et omnes gentes cognóscant te solum Deum verum, et quem misísti Jesum Christum, Fílium tuum, Dóminum nostrum: Qui tecum vivit et regnat . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 66, 2-3.* Guð sé oss miskunnsamur og blessi oss, hann láti ásjónu sína lýsa yfir oss (og sé oss miskunnsamur), svo að þekkja megi veg þinn á jörðu og hjálpræði þitt meðal allra þjóða. *Sálm. 66, 4.* Lýðirnir lofi þig, Guð, allar þjóðir lofi þig. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem vilt, að allir menn verði sáluhólpnir og nái að öðlast þekkingu á sannleikanum, send þú verkamenn til uppskeru þinnar, og veit þeim að boða orð þitt með fullu trausti, svo að boðskapur þinn breiðist út og verði vegsamaður og allar þjóðir kannist við þig, hinn eina sanna Guð og þann, sem þú hefur sent, Jesúm Krist, Son þinn, Drottin vorn, sem með þér lifir og ríkir...

### Pistill.

*Kafli úr Spekiritunum. Sír. 36, 1-10 og 17-19.*

MISERÉRE nostri, Deus omnium, et réspice nos, et osténde nobis lucem miseratiónum tuárum: et immítte timórem tuum super

MISKUNNA þú oss, Guð allsherjar, og lít til vor, (og gef oss að líta ljós miskunnsemda þinna) og lát ótta við þig koma yfir þjóðirnar (sem ekki

gentes, quæ non exquisiérunt te, ut cognóscant, quia non est Deus nisi tu, et enárrent magnália tua. Alleva manum tuam super gentes aliénas, ut vídeant poténtiam tuam. Sicut enim in conspéctu eórum sanctificátus es in nobis, sic in conspéctu nostro magnificáberis in eis, ut cognóscant te, sicut et nos cognóvimus, quóniam non est Deus præter te, Dómine. Innova signa et immúta mirabília. Glorífica manum et bráchium dextrum. Excita furórem et effúnde iram. Tolle adversárium et afflíge inimícum. Festína tempus et meménto finis, ut enárrent mirabília tua. Da testimónium his, qui ab inítio creatúræ tuæ sunt, et súscita prædicatiónes, quas locúti sunt in nómine tuo prophétæ prióres. Da mercédem sustinéntibus te, ut prophétæ tui fidéles inveniántur: et exáudi oratiónes servórum tuórum, secúndum benedictiónem Aaron de pópulo tuo, et dírige nos in viam justítiæ, et sciant omnes, qui hábitant terram, quia tu es Deus conspéctor sæculórum.

hafa leitað þín), til þess að þær kannist við, að enginn er Guð annar en þú (og kunngjöri stórmerki þín). Lyft armlegg þínum gegn framandi þjóðum, svo þær sjái mátt þinn. Sýn þú dýrð þína á þeim fyrir augum vorum, eins og þú hefur sýnt þig helgan í oss fyrir augum þeirra, svo að þeir þekki þig, eins og vér höfum þekkt, að enginn er Guð annar en þú, Drottinn. Gjör aftur stórmerkin, og gjör önnur dásemdarverk, gjör hönd þína dýrlega og hægri arm. Vek reiði þína, hleyp fram heiftinni, steyp andstæðingnum og eyð óvininum. Flýt fyrir tímanum og ákveð endalokin, svo að menn vegsami dásemdarverk þín. Ber vitnisburð þeim, sem eru frá upphafi sköpunarverk þitt, og lát rætast spádómana, borna fram í þínu nafni. veit þeim laun, er treysta þér, svo að spámenn þínir reynist sannorðir. Heyr þú bænir þjóna þinna, samkvæmt blessun Arons yfir þjóð þinni, (og leið oss á veg réttlætisins), og allir, sem jörðina búa, viti, að þú ert Guð til eilífðar.

**Graduale.** Confiteántur tibi pópuli, Deus, confiteántur tibi pópuli omnes: terra dedit fructum suum. ℣. Benedícat nos Deus, Deus noster, benedícat nos Deus: et métuant eum omnes fines terræ.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Jubiláte Deo, omnis terra: servíte Dómino in lætítia: introíte in conspéctu ejus, in exsultatióne. Allelúja.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 66, 6-8.* Lýðirnir lofi þig, Guð, allar þjóðir lofi þig. Jörðin hefur gefið ávöxt sinn. ℣. Guð, vor Guð, blessi oss, Guð blessi oss, svo að öll endimörk jarðar megi óttast hann.

**Allelúja**, allelúja. *Sálm. 99, 1.* ℣. Hyll Guð, öll heimsbyggðin, þjóna Drottni með fögnuði. Komið fyrir auglit hans með fagnaðarópi. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 9, 35-38.*

In illo témpore: Circuíbat Jesus omnes civitátes et castélla, docens in synagógis eórum, et prædicans Evangélium regni, et curans omnem languórem et omnem infirmitátem. Videns autem turbas, misértus est eis: quia erant vexáti, et jacéntes sicut oves non habéntes pastórem. Tunc dicit discípulis suis: Messis quidem multa, operárii autem pauci. Rogáte ergo Dóminum messis, ut mittat operários in messem suam. – **Credo.**

Á þeim tíma fór Jesús um allar borgirnar og þorpin, kenndi í samkundum þeirra og prédikaði fagnaðarboðskapinn um ríkið og læknaði hverskonar sjúkdóma og hverskonar krankleika. En er hann sá mannfjöldann, kenndi hann í brjósti um þá, því að þeir voru hrjáðir og tvístraðir, eins og sauðir, er engan hirði hafa. Þá segir hann við lærisveina sína: Uppskeran er mikil, en verkamennirnir fáir; biðjið því herra uppskerunnar, að hann sendi verkamenn til uppskeru sinnar.

**Credo.**

**Offertorium.** Afférte Dómino, pátriæ géntium, af-

**Fórnunarvers.** *Sálm. 95, 7-9.* Tjáið Drottni, þér þjóðakyn-

férte Dómino glóriam et honórem, afférte Dómino glóriam nómini ejus: tóllite hóstias, et introíte in átria ejus: adoráte Dóminum in átrio sancto ejus.

kvíslir, tjáið Drottni vegsemd og vald. Tjáið Drottni dýrð nafns hans. Færið fórnargjafir og komið til forgarða hans. Tilbiðjið Drottin í helgum forgarði hans.[1]

**Secreta.** Protéctor noster, áspice, Deus, et réspice in fáciem Christi tui, qui dedit redemptiónem semetípsum pro ómnibus: et fac; ut ab ortu solis usque ad occásum magnificétur nomen tuum in géntibus, ac in omni loco sacrificétur et offerátur nómini tuo oblátio munda. Per eúndem Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Guð, verndari vor, lít þú oss og ásjónu þíns Smurða, sem gaf sjálfan sig öllum til endurlausnar, og veit þú, að frá sólarupprás til sólseturs verði nafn þitt vegsamað hjá öllum þjóðum, og að allsstaðar verði hrein fórn framborin og færð þínu nafni. Fyrir hinn sama Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Laudáte Dóminum, omnes gentes: laudáte eum, omnes pópuli: quóniam confirmáta est super nos misericórdia ejus, et véritas Dómini manet in ætérnum.

**Kommúníuvers.** *Sálm. 116, 1-2.* Lofið Drottin, allar þjóðir, vegsamið hann, allir lýðir, því að oss er tryggð miskunn hans, og trúfesti Drottins varir að eilífu.

**Postcommunio.** Redemptiónis nostræ múnere vegetáti: quæsumus, Dómine; ut, hoc perpétuæ salútis auxílio, fides semper vera profíciat. Per Dóminum nostrum..

**Kommúníubæn.** Endurnærðir af gjöf endurlausnar vorrar biðjum vér þig, Drottinn, að fyrir þessa hjálp til eilífrar sælu megi hin sanna trú ávallt breiðast út. Fyrir Drottin vorn...

1) Í öðrum þýðingum: i helgum skrúða.

## HEILAGUR LÚKAS GUÐSPJALLAMAÐUR

18. OKTÓBER

**Introitus.** Mihi autem nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum. *Ps.* Dómine, probásti me et cognovísti me: tu cognovísti sessiónem meam et resurrectiónem meam. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Intervéniat pro nobis, quæsumus, Dómine, sanctus tuus Lucas Evangelísta: qui crucis mortificatiónem júgiter in suo córpore, pro tui nóminis honóre, portávit. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** *Sálm. 138, 17.* Vini þína hef ég mjög í hávegum, Guð, höfðingjadómur þeirra er harla efldur. *Sálm. 138, 1-2.* Drottinn, þú hefur reynt mig, og þú þekkir mig, hvort sem ég sit eða rís upp, veizt þú það. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Vér biðjum þig, Drottinn, megi heilagur Lúkas, guðspjallamaður þinn, tala máli voru, hann, sem ávallt kostgæfði fyrir krossinn deyðingu líkama síns, nafni þínu til heiðurs. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr síðara bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 8, 16-24.*

FRATRES: Grátias ago Deo, qui dedit eámdem sollicitúdinem pro vobis in corde Titi, quóniam exhortatiónem quidem suscépit: sed cum sollicítior esset, sua voluntáte proféctus est ad vos. Mísimus étiam cum illo fratrem, cujus laus est in Evangélio per omnes ecclésias: non solum autem, sed et ordinátus est ab ecclésiis comes peregrinatiónis nostræ in hanc grátiam, quæ mini-

BRÆÐUR: Þökk sé Guði, sem vakti í hjarta Títusar þennan sama áhuga vegna yðar; því að reyndar fékk hann áskorun frá mér, en áhugi hans var svo mikill, að hann fór til yðar af eigin hvötum. En með honum sendum vér þann bróður, sem orð fer af í öllum söfnuðunum fyrir starf hans í þjónustu fagnaðarerindisins; og ekki það eitt, heldur er hann og af söfnuðunum kjörinn samferðamaður vor í líknarstarfi þessu, sem vér

strátur a nobis ad Dómini glóriam et destinátam voluntátem nostram: devitántes hoc, ne quis nos vitúperet in hac plenitúdine, quæ ministrátur a nobis. Providémus enim bona non solum coram Deo, sed étiam coram homínibus. Misimus autem cum illis et fratrem nostrum, quem probávimus in multis sæpe sollicitum esse: nunc autem multo sollicitiórem, confidéntia multa in vos, sive pro Tito, qui est sócius meus, et in vos adjútor, sive fratres nostri, Apóstoli ecclesiárum, glória Christi. Ostensiónem ergo, quæ est caritátis vestræ, et nostræ glóriæ pro vobis, in illos osténdite in fáciem ecclesiárum.

höfum unnið að, til þess að efla dýrð Drottins og sýna fúsleika vorn, og höfum vér gjört þessa ráðstöfun til þess, að enginn geti lastað meðferð vora á hinni miklu gjöf[1], sem vér höfum gengizt fyrir. Því að vér ástundum hvað gott er, ekki aðeins fyrir Guði, heldur og fyrir mönnum. En með þeim sendum vér annan bróður vorn, sem vér oftsinnis og í mörgu höfum reynt kostgæfinn, en nú miklu kostgæfnari vegna síns mikla trausts til yðar. En hvort sem nú er um Títus að ræða, þá er hann félagi minn og starfsbróðir hjá yður, eða um bræður vora, þá eru þeir sendiboðar safnaðanna, vegsemd Krists. Sýnið því, svo að öllum söfnuðunum verði það ljóst, merki elsku yðar og að það var ekki að ástæðulausu, að vér hrósuðum yður við þá.

**Graduale.** In omnem terram exívit sonus eórum: et in fines orbis terræ verba eórum. ℣. Cæli enárrant glóriam Dei: et ópera mánuum ejus annúntiat firmaméntum.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 18, 5 og 2.* Raust þeirra fer um alla jörðina, og orð þeirra til endimarka heims. ℣. Himnarnir segja frá Guðs dýrð, og festingin kunngjörir verkin handa hans.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Ego vos elégi de mundo, ut eátis,

**Allelúja,** allelúja. *Jóh. 15, 16.* ℣. Ég hef útvalið yður (af heim-

1) peningaupphæð.

et fructum afferátis, et fructus vester máneat. Allelúja.

inum), til þess að þér farið og berið ávöxt og ávöxtur yðar vari við. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 10, 1-9.*

IN illo témpore: Designávit Dóminus et álios septuagínta duos: et misit illos binos ante fáciem suam in omnem civitátem et locum, quo erat ipse ventúrus. Et dicébat illis: Messis quidem multa, operárii autem pauci. Rogáte ergo Dóminum messis, ut mittat operários in messem suam. Ite: ecce, ego mitto vos sicut agnos inter lupos. Nolíte portáre sácculum neque peram neque calceaménta; et néminem per viam salutavéritis. In quamcúmque domum intravéritis, primum dícite: Pax huic dómui: et si ibi fúerit fílius pacis, requiéscet super illum pax vestra: sin autem, ad vos revertétur. In eádem autem domo manéte, edéntes et bibéntes quæ apud illos sunt: dignus est enim operárius mercéde sua. Nolíte transíre de domo in domum. Et in quamcúmque civitátem

Á þeim tíma nefndi Drottinn enn til aðra sjötíu og tvo að tölu og sendi þá á undan sér, tvo og tvo, í hverja þá borg og stað, sem hann ætlaði að koma til. Og hann sagði við þá: Uppskeran er mikil, en verkamennirnir fáir; biðjið því herra uppskerunnar, að hann sendi verkamenn til uppskeru sinnar. Farið; sjá, ég sendi yður eins og lömb á meðal úlfa. Hafið ekki með pyngju, ekki mal, ekki ilskó, og heilsið engum á veginum. En hvar sem þér komið inn í hús, þá segið fyrst: Friður sé með húsi þessu. Og sé þar nokkurt friðarins barn, mun friður yðar hvíla yfir því; en sé það ekki, mun hann hverfa til yðar aftur. Verið kyrrir í því húsi, etið og drekkið það, sem yður verður boðið, því að verður er verkamaðurinn launa sinna. Ekki skuluð þér flytja yður úr einu húsi í annað. Og hvar sem þér komið inn í borg og menn veita yður

intravéritis, et suscéperint vos, manducáte quæ apponúntur vobis: et curáte infírmos, qui in illa sunt, et dícite illis: Appropinquávit in vos regnum Dei. - **Credo.**

**Offertorium.** Mihi autem nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum.

**Secreta.** Donis cæléstibus da nobis, quæsumus, Dómine, líbera tibi mente servíre: ut múnera quæ deférimus, interveniénte beáto Evangelísta tuo Luca, et medélam nobis operéntur et glóriam. Per Dóminum nostrum . . .

viðtöku, þá neytið þess, er fyrir yður verður sett; og læknið þá, sem þar eru sjúkir, og segið þeim: Ríki Guðs er komið í nánd við yður. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Sálm. 138, 17.* Vini þína hef ég mjög í hávegum, Drottinn, höfðingjadómur þeirra er harla efldur.

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit oss fyrir þessar himnesku gjafir að þjóna þér af fúsu geði, svo að fórnargjafirnar, sem vér berum fram, komi til leiðar í oss lækningu og dýrð, sakir árnaðar hins sæla Lúkasar, guðspjallamanns þíns. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia postulanna, sjá bls. 27.*

**Communio.** Vos, qui secúti estis me, sedébitis super sedes, judicántes duódecim tribus Israel.

**Postcommunio.** Præsta, quæsumus, omnípotens Deus: ut, quod de sancto altári tuo accépimus, précibus beáti Evangelístæ tui Lucæ, sanctíficet ánimas nostras, per quod tuti esse possímus. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníuvers.** *Matt. 19, 28.* Þér, sem hafíð fylgt mér, munuð sitja í hásætum og dæma hinar tólf ættkvíslir Ísraels.

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, almáttugi Guð, gef, að það, sem vér höfum meðtekið af heilögu altari þínu, helgi sálir vorar vegna árnaðarbæna hins sæla Lúkasar, guðspjallamanns þíns, svo að með því megum vér vera öruggir. Fyrir Drottin vorn . . .

# KRISTUR KONUNGUR

## Síðasti sunnudagur í október.

**Introitus.** Dignus est Agnus, qui occísus est, accípere virtútem, et divinitátem, et sapiéntiam, et fortitúdinem, et honórem. Ipsi glória et impérium in sæcula sæculórum. *Ps.* Deus, judícium tuum Regi da: et justítiam tuam Fílio Regis. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui in diléсto Fílio tuo, universórum Rege, ómnia instauráre voluísti: concéde propítius; ut cunctæ famíliæ géntium, peccáti vúlnere disgregátæ, ejus suavíssimo subdántur império: Qui tecum vivit et regnat . . .

**Inngönguvers.** *Opinb. 5, 12: 1, 6.* Maklegt er Lambið hið slátraða að fá máttinn og ríkdóm (guðdóm) og vizku og kraft og heiður (og dýrð og lofgjörð). Honum sé dýrðin og mátturinn um aldir alda. *Sálm. 71, 1.* Guð, veit þú konunginum réttarvald þitt og syni konungsins réttlæti þitt. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, þú, sem vildir rétta allt við fyrir elskaðan Son þinn, konung allsherjar, veit náðarsamlega, að allar þjóðir, sem syndasárið hefur sundrað, megi verða undirgefnar almildum yfirráðum hans, sem með þér lifir og ríkir . . .

### Pistill.

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Kólossumanna. 1, 12-20.*

FRATRES: Grátias ágimus Deo Patri, qui dignos nos fecit in partem sortis sanctórum in lúmine: qui erípuit nos de potestáte tenebrárum, et tránstulit in regnum Fílii dilectiónis suæ, in quo habémus redemptiónem per sánguinem ejus, remissiónem peccatórum:

BRÆÐUR: Þökkum Guði Föður, sem hefur gjört oss (yður) hæfa til að fá hlutdeild í arfleifð hinna heilögu í ljósinu og hrifið oss frá valdi myrkursins og flutt oss inn í ríki síns elskaða Sonar. En í honum eigum vér fyrir blóð hans endurlausnina, fyrirgefningu syndanna. Hann er ímynd hins

qui est imágo Dei invisibilis, primogénitus omnis creatúræ: quóniam in ipso cóndita sunt univérsa in cælis et in terra, visibilia et invisibilia, sive Throni, sive Dominatiónes, sive Principátus, sive Potestátes: ómnia per ipsum, et in ipso creáta sunt: et ipse est ante omnes, et ómnia in ipso constant. Et ipse est caput córporis Ecclésiæ, qui est principium, primogénitus ex mórtuis: ut sit in ómnibus ipse primátum tenens; quia in ipso complácuit omnem plenitúdinem inhabitáre; et per eum reconciliáre ómnia in ipsum, pacíficans per sánguinem crucis ejus, sive quæ in terris, sive quæ in cælis sunt, in Christo Jesu, Dómino nostro.

**Graduale.** Dominábitur a mari usque ad mare, et a flúmine usque ad términos orbis terrárum. ℣. Et adorábunt eum omnes reges terræ: omnes gentes sérvient ei.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Potéstas ejus, potéstas ætérna, quæ non auferétur: et regnum ejus, quod non corrumpétur. Allelúja.

ósýnilega Guðs, frumburður allrar skepnu, enda var allt skapað í honum i himnunum og á jörðunni, hið sýnilega og hið ósýnilega, hvort sem eru hásæti eða herradómar eða tignir eða völd. Allir hlutir eru skapaðir fyrir hann og til hans. Og sjálfur er hann fyrri en allt, og allt á tilveru sína í honum. Og hann er höfuð líkamans, kirkjunnar, hann, sem er upphafið, frumburðurinn frá hinum dauðu, svo að hann skyldi verða sá, sem fremstur væri í öllu; því að i honum þóknaðist Guði að láta alla fyllinguna búa, og að koma fyrir hann öllu i sátt við sig, hvort heldur er það, sem er á jörðunni eða það, sem er í himnunum, og semja frið með blóðinu, úthelltu á krossinum (í Kristi Jesú, Drottni vorum).

**Þrepsöngur.** *Sálm. 71, 8 og 11.* Hann skal ríkja frá hafi til hafs og frá fljótinu til endimarka jarðar. ℣. Og allir konungar jarðarinnar munu tilbiðja hann, allar þjóðir munu þjóna honum.

**Allelúja,** allelúja. *Dan. 7, 14.* ℣. Hans vald er eilíft vald, sem ekki skal undir lok líða, og konungsríki hans skal aldrei til grunna ganga. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 18, 33-37.*

In illo témpore: Dixit Pilátus ad Jesum: Tu es Rex Judæórum? Respóndit Jesus: A temetipso hoc dicis, an álii dixérunt tibi de me? Respóndit Pilátus: Numquid ego Judæus sum? Gens tua et pontífices tradidérunt te mihi: quid fecísti? Respóndit Jesus: Regnum meum non est de hoc mundo. Si ex hoc mundo esset regnum meum, minístri mei útique decertárent, ut non tráderer Judæis: nunc autem regnum meum non est hinc. Dixit ítaque ei Pilátus: Ergo Rex es tu? Respóndit Jesus: Tu dicis, quia Rex sum ego. Ego in hoc natus sum et ad hoc veni in mundum, ut testimónium perhíbeam veritáti: omnis, qui est ex veritáte, audit vocem meam. – **Credo.**

Á þeim tíma sagði Pilatus við Jesúm: Ert þú konungur Gyðinga? Jesús svaraði: Mælir þú þetta af sjálfum þér, eða hafa aðrir sagt þér það um mig? Pílatus svaraði: Er ég þá Gyðingur? Þjóð þín og æðstu prestarnir hafa framselt mér þig; hvað hefur þú aðhafzt? Jesús svaraði: Mitt ríki er ekki af þessum heimi; væri mitt ríki af þessum heimi, þá hefðu þjónar mínir barizt, til þess að ég yrði ekki framseldur Gyðingunum; en nú er mitt ríki ekki þaðan. Pílatus sagði þá við hann: Eftir því ert þú þá konungur? Jesús svaraði: Já, ég er konungur, til þess er ég fæddur og til þess kom ég í heiminn, að ég beri sannleikanum vitni. Hver, sem er sannleikans megin, heyrir mína rödd. – **Credo.**

**Offertorium.** Póstula a me, et dabo tibi gentes hereditátem tuam, et possessiónem tuam términos terræ.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 2, 8.* Bið þú mig, og ég skal gefa þér þjóðirnar að erfð og endimörk jarðar að óðali.

**Secreta.** Hóstiam tibi, Dómine, humánæ reconciliatiónis offérimus: præsta,

**Lágabæn.** Vér færum þér, Drottinn, fórnarlambið, mannkyninu til friðþægingar; vér

quæsumus; ut, quem sacrifíciis præséntibus immolámus, ipse cunctis géntibus unitátis et pacis dona concédat, Jesus Christus Fílius tuus, Dóminus noster: Qui tecum vivit et regnat . . .

biðjum þig, veit þú, að sá, sem vér fórnum í þessari fórnarathöfn, veiti öllum þjóðum eingu og frið, Jesús Kristur, Sonur þinn, Drottinn vor, sem með þér lifir og ríkir . . .

**Prefatía Krists konungs.**

Vere dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper, et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: Qui unigénitum Fílium tuum, Dóminum nostrum Jesum Christum, Sacerdótem ætérnum et universórum Regem, óleo exsultatiónis unxísti: ut, seípsum in ara crucis hóstiam immaculátam et pacíficam ófferens, redemptiónis humánæ sacraménta perágeret: et suo subjéctis império ómnibus creatúris, ætérnum et universále regnum, imménsæ tuæ tráderet Majestáti. Regnum veritátis et vitæ: regnum sanctitátis et grátiæ: regnum justítiæ, amóris et pacis. Et ídeo cum Angelis et Archángelis, cum Thronis et Dominatiónibus cumque omni milítia cæléstis

Sannarlega er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð; sem hefur smurt eingetinn Son þinn, Drottin vorn Jesúm Krist, sem eilífan prest og konung alheimsins, með fagnaðarsmjöri; til þess að hann skyldi með því að fórna sér á altari krossins sem óflekkuðu og friðþægjandi fórnarlambi, fullna leyndardóma endurlausnar mannanna og færa þinni óendanlegu hátign, er hann hafði lagt að fótum sér allt hið skapaða, hið eilífa allsherjar ríki, ríki sannleika og lífs, ríki heilagleika og náðar, ríki réttlætis, kærleika og friðar. Því lofsyngjum vér dýrð þína, ásamt englunum og höfuðenglunum, hásætunum og herradómunum og öllum hinum himnesku hersveitum og segjum án afláts:

exércitus hymnum glóriæ tuæ cánimus, sine fine dicéntes: Sanctus . . . *p. 28.*

**Communio.** Sedébit Dóminus Rex in ætérnum: Dóminus benedícet pópulo suo in pace.

**Postcommunio.** Immortalitátis alimóniam consecúti, quæsumus, Dómine: ut, qui sub Christi Regis vexíllis militáre gloriámur, cum ipso, in cælésti sede, júgiter regnáre possímus: Qui tecum vivit et regnat . . .

Heilagur . . . *bls. 28.*

**Kommúníuvers.** *Sálm. 28, 10 og 11.* Drottinn mun sitja sem konungur að eilífu; Drottinn blessar lýð sinn með friði.

**Kommúníubæn.** Vér, sem neytt höfum fæðu ódauðleikans, biðjum þig, Drottinn, að vér, sem hrósum oss yfir því, að berjast undir gunnfána Krists konungs, megum ríkja í hinum himneska bústað um alla eilífð ásamt honum, sem með þér lifir og ríkir . . .

---

## HEILAGIR POSTULAR SÍMON OG JÚDAS

28. OKTÓBER

**Introitus.** Mihi autem nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum. *Ps.* Dómine, probásti me et cognovísti me: tu cognovísti sessiónem meam et resurrectiónem meam. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Deus, qui nos per beátos Apóstolos tuos Simónem et Judam ad agnitiónem tui nóminis veníre tribuísti: da nobis eórum glóriam sempitérnam et proficiéndo celebráre, et celebrándo pro-

**Inngönguvers.** *Sálm. 138, 17.* Vini þína hef ég mjög í hávegum, Drottinn, höfðingjadómur þeirra er harla efldur. *Sálm. 138, 1-2.* Drottinn, þú hefur reynt mig, og þú þekkir mig; hvort sem ég sit eða rís upp, veizt þú það. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Guð, þú, sem fyrir sæla postula þína, Símon og Júdas, hefur leitt oss til þekkingar á nafni þínu, veit oss, að með því að taka framförum í dyggð, megum vér heiðra eilífa dýrð þeirra, og með því að

fícere. Per Dóminum nostrum . . .

heiðra hana, taka framförum í dyggð. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr bréfi heilags Páls postula til Efesusmanna. 4, 7-13.*

FRATRES: Unicuique nostrum data est grátia secúndum mensúram donatiónis Christi. Propter quod dicit: Ascéndens in altum, captívam duxit captivitátem: dedit dona homínibus. Quod autem ascéndit, quid est, nisi quia et descéndit primum in inferióres partes terræ? Qui descéndit, ipse est et qui ascéndit super omnes cælos, ut impléret ómnia. Et ipse dedit quosdam quidem apóstolos, quosdam autem prophétas, álios vero evangelístas, álios autem pastóres et doctóres, ad consummatiónem sanctórum in opus ministérii, in ædificatiónem córporis Christi: donec occurrámus omnes in unitátem fídei, et agnitiónis Fílii Dei, in virum perféctum, in mensúram ætátis plenitúdinis Christi.

BRÆÐUR: Sérhverjum af oss er náðin veitt eftir þeim mæli, sem Kristur hefur fyrir gjöf sinni. Því segir (Ritningin): Stiginn upp til hæða hafði hann á burt með sér bandingja og gaf mönnunum gjafir; en þetta «stiginn upp» hvað er það annað en að hann líka steig niður til neðri hluta jarðarinnar? En sá, sem steig niður, er og hinn sami sem sté upp, upp yfir alla himna, til þess að fylla allt. Hann hefur og veitt sumum að vera postular, sumum spámenn, sumum trúboðar, sumum hirðar og kennarar, til þess að fullkomna hina heilögu fyrir verk þjónustunnar, líkama Krists til uppbyggingar, þangað til vér allir verðum einhuga í trúnni og þekkingunni á Guðs Syni, verðum að fullorðnum (fullkomnum) manni og náum vaxtartakmarki (fullkomleika) Krists.

**Graduale.** Constítues eos príncipes super omnem terram: mémores erunt nóminis tui, Dómine. ℣. Pro pá-

**Þrepsöngur.** *Sálm. 44, 17-18.* Þú munt gjöra þá að höfðingjum um alla jörðina. Nafn þitt mun vera þeim minnisstætt,

tribus tuis nati sunt tibi fílii: proptérea pópuli confitebúntur tibi.

**Allelúja**, allelúja. ℣. Nimis honoráti sunt amíci tui, Deus: nimis confortátus est principátus eórum. Allelúja.

Drottinn. ℣. Í stað feðranna fæðast þér synir; þess vegna skulu þjóðirnar lofa þig.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 138, 17.* Vinir þínir eru mjög í hávegum hafðir, Guð, höfðingjadómur þeirra er harla efldur. Allelúja.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 15, 17-25.*

In illo témpore: Dixit Jesus discípulis suis: Hæc mando vobis, ut diligátis ínvicem. Si mundus vos odit: scitóte, quia me priórem vobis ódio hábuit. Si de mundo fuissétis, mundus quod suum erat diligeret; quia vero de mundo non estis, sed ego elégi vos de mundo, proptérea odit vos mundus. Mementóte sermónis mei, quem ego dixi vobis: Non est servus major dómino suo. Si me persecuti sunt, et vos persequéntur: si sermónem meum servavérunt, et vestrum servábunt. Sed hæc ómnia fácient vobis propter nomen meum: quia nésciunt eum, qui misit me. Si non veníssem et locútus fuíssem eis, peccátum non ha-

Á þeim tíma sagði Jesús við lærisveina sína: Þetta býð ég yður, að þér elskið hver annan. Ef heimurinn hatar yður, þá vitið, að hann hefur hatað mig fyrri en yður. Ef þér heyrðuð heiminum til, þá mundi heimurinn láta sér þykja vænt um sitt eigið; en af því að þér heyrið ekki heiminum til, en ég hef útvalið yður af heiminum, þess vegna hatar heimurinn yður. Minnizt orðsins, sem ég hef talað til yðar: Ekki er þjónn meiri en húsbóndi hans. Hafi þeir ofsótt mig, þá munu þeir líka ofsækja yður; hafi þeir varðveitt mitt orð, munu þeir og varðveita yðar. En allt þetta munu þeir gjöra við yður vegna nafns míns, af því að þeir þekkja ekki þann, sem hefur sent mig. Hefði ég

bérent: nunc autem excusatiónem non habent de peccáto suo. Qui me odit: et Patrem meum odit. Si ópera non fecíssem in eis, quæ nemo álius fecit, peccátum non habérent: nunc autem et vidérunt et odérunt et me et Patrem meum. Sed ut adimpleátur sermo, qui in lege eórum scriptus est: Quia ódio habuérunt me gratis.

**Credo.**

ekki komið og talað til þeirra, þá hefðu þeir ekki synd, en nú hafa þeir enga afsökun synd sinni. Sá, sem hatar mig, hatar og Föður minn. Ef ég hefði ekki gjört þau verk á meðal þeirra, sem enginn annar hefur gjört, þá hefðu þeir ekki synd; en nú hafa þeir séð þau og hatað þó bæði mig og Föður minn. En orðið, sem ritað er í lögmáli þeirra, hlaut að rætast: Þeir hafa hatað mig án saka.

**Credo.**

**Offertorium.** In omnem terram exívit sonus eórum: et in fines orbis terræ verba eórum.

**Fórnunarvers.** *Sálm. 18, 5.* Raust þeirra fer um alla jörðina og orð þeirra til endimarka heims.

**Secreta.** Glóriam, Dómine, sanctórum Apostolórum tuórum Simónis et Judæ perpétuam venerántes: quæsumus; ut eam, sacris mystériis expiáti, dígnius celebrémus. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Vér, sem heiðrum eilífa dýrð heilagra postula þinna, Símonar og Júdasar, biðjum þig, Drottinn, að vér megum, hreinsaðir sakir hinna heilögu leyndardóma, heiðra dýrð þeirra enn verðuglegar. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia postulanna, sjá bls. 27.*

**Communio.** Vos, qui secúti estis me, sedébitis super sedes, judicántes duódecim tribus Israel.

**Kommúníuvers.** *Matt. 19, 28.* Þér, sem hafið fylgt mér, munuð sitja í hásætum og dæma hinar tólf ættkvíslir Ísraels.

**Postcommunio.** Percéptis, Dómine, sacraméntis, supplíciter exorámus: ut, in-

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér höfum meðtekið leyndardómana og sárbiðjum þig auð-

tercedéntibus beátis Apóstolis tuis Simóne et Juda, quæ pro illórum veneránda gérimus passióne, nobis profíciant ad medélam. Per Dóminum nostrum . . .

mjúklega, að sakir árnaðar sælla postula þinna, Símonar og Júdasar, megi það, er vér gjörðum til að heiðra píslir þeirra, verða oss að læknisdómi. Fyrir Drottin vorn . . .

## ALLRA HEILAGRA MESSA

1. NÓVEMBER

**Introitus.** Gaudeámus omnes in Dómino, diem festum celebrántes sub honóre Sanctórum ómnium: de quorum solemnitáte gaudent Angeli et colláudant Fílium Dei. *Ps.* Exsultáte, justi, in Dómino: rectos decet collaudátio. ℣. Glória Patri . . .

**Oratio.** Omnípotens sempitérne Deus, qui nos ómnium Sanctórum tuórum mérita sub una tribuísti celebritáte venerári: quæsumus; ut desiderátam nobis tuæ propitiatiónis abundántiam, multiplicátis intercessóribus, largiáris. Per Dóminum nostrum . . .

**Inngönguvers.** Gleðjumst allir í Drottni, er vér höldum þennan dag hátíðlegan til dýrðar öllum heilögum. Englarnir gleðjast á hátíð þeirra og syngja Syni Guðs lof. *Sálm. 32, 1.* Fagnið, þér réttlátir, í Drottni, hreinlyndum hæfir lofsöngur. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Kollekta.** Almáttugi, eilífi Guð, þú, sem veitir oss að heiðra verðleika allra þinna heilögu með einni og sömu hátíð, vér biðjum þig að veita oss gnægð miskunnar þinnar, er vér þráum. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr Opinberunarbók hins heilaga Jóhannesar postula.* 7, 2-12.

In diébus illis: Ecce, ego Joánnes vidi álterum Angelum ascendéntem ab ortu

Á þeim dögum, sjá, sá ég, Jóhannes, annan engil stíga upp frá sólaruppkomu-

solis, habéntem signum Dei vivi: et clamávit voce magna quátuor Angelis, quibus datum est nocére terræ et mari, dicens: Nolíte nocére terræ et mari neque arbóribus, quoadúsque signémus servos Dei nostri in fróntibus eórum. Et audívi númerum signatórum, centum quadragínta quátuor míllia signáti, ex omni tribu filiórum Israel. Ex tribu Juda duódecim míllia signáti. Ex tribu Ruben duódecim míllia signáti. Ex tribu Gad duódecim míllia signáti. Ex tribu Aser duódecim míllia signáti. Ex tribu Néphthali duódecim míllia signáti. Ex tribu Manásse duódecim míllia signáti. Ex tribu Símeon duódecim míllia signáti. Ex tribu Levi duódecim míllia signáti. Ex tribu Issachar duódecim míllia signáti. Ex tribu Zábulon duódecim míllia signáti. Ex tribu Joseph duódecim míllia signáti. Ex tribu Bénjamin duódecim míllia signáti. Post hæc vidi turbam magnam, quam dinumeráre nemo póterat, ex ómnibus géntibus et tribubus et pópulis et linguis:

stað, og hélt hann á innsigli hins lifanda Guðs, og hann hrópaði hárri röddu til englanna fjögurra, sem gefið var vald til að granda jörðunni og hafinu, og sagði: Vinnið ekki jörðunni grand og heldur ekki hafinu, né trjánum, þar til er vér höfum innsiglað þjóna Guðs vors á ennum þeirra. Og ég heyrði tölu hinna innsigluðu, hundrað og fjörutíu og fjórar þúsundir voru innsiglaðar af öllum ættkvíslum Ísraelssona: af Júda ættkvísl tólf þúsund innsiglaðir; af Rúbens ættkvísl tólf þúsund; af Gaðs ættkvísl tólf þúsund; af Assers ættkvísl tólf þúsund; af Neftali ættkvísl tólf þúsund; af Manasse ættkvísl tólf þúsund; af Símeons ættkvísl tólf þúsund; af Leví ættkvísl tólf þúsund; af Íssakars ættkvísl tólf þúsund; af Sabúlons ættkvísl tólf þúsund; af Jósefs ættkvísl tólf þúsund; af Benjamíns ættkvísl tólf þúsund innsiglaðir. Eftir þetta sá ég, og sjá: Mikill múgur, sem enginn gat tölu á komið, af alls kyns fólki og kynkvíslum og lýðum og tungum. þeir stóðu frammi fyrir hásætinu og frammi fyrir Lambinu, skrýddir hvítum skikkjum með pálma

stantes ante thronum et in conspéctu Agni, amícti stolis albis, et palmæ in mánibus eórum: et clamábant voce magna, dicéntes: Salus Deo nostro, qui sedet super thronum, et Agno. Et omnes Angeli stabant in circúitu throni et seniórum et quátuor animálium: et cecidérunt in conspéctu throni in fácies suas et adoravérunt Deum, dicéntes: Amen. Benedíctio et cláritas et sapiéntia et gratiárum áctio, honor et virtus et fortitúdo Deo nostro in sæcula sæculórum. Amen.

í höndum. Og þeir hrópa hárri röddu og segja: Heill Guði vorum, sem í hásætinu situr, og Lambinu. Og allir englarnir stóðu kring um hásætið og öldungana og verurnar fjórar, og þeir féllu fram fyrir hásætinu á ásjónur sínar og tilbáðu Guð og sögðu: Amen, lofgjörðin og dýrðin, og vizkan og þakkargjörðin og heiðurinn og mátturinn og krafturinn sé Guði vorum um aldir alda. Amen.

**Graduale.** Timéte Dóminum, omnes Sancti ejus: quóniam nihil deest timéntibus eum. ℣. Inquiréntes autem Dóminum, non defícient omni bono.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Veníte ad me, omnes, qui laborátis et oneráti estis: et ego refíciam vos. Allelúja.

**Þrepsöngur.** *Sálm. 33, 10 og 11.* Óttizt Drottin, (allir) þér, hans heilögu, því að þeir, er óttast hann, líða engan skort. ℣. Þeir, er leita Drottins, fara einskis góðs á mis.

**Allelúja,** allelúja. *Matt. 11, 28.* ℣. Komið til mín, allir þér, sem erfiðið og þunga eruð hlaðnir, og ég mun létta undir með yður. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Matteusarguðspjalls. 5, 1-12.*

In illo témpore: Videns Jesus turbas, ascéndit in montem, et cum sedísset, accessérunt ad eum discípu-

Á þeim tíma, er Jesús sá mannfjöldann, gekk hann upp á fjallið, og er hann var setztur niður, komu lærisveinar

li ejus, et apériens os suum, docébat eos, dicens: Beáti páuperes spíritu: quóniam ipsórum est regnum cælórum. Beáti mites: quóniam ipsi possidébunt terram. Beáti, qui lugent: quóniam ipsi consolabúntur. Beáti, qui esúriunt et sítiunt justítiam: quóniam ipsi saturabúntur. Beáti misericórdes: quóniam ipsi misericórdiam consequéntur. Beáti mundo corde: quóniam ipsi Deum vidébunt. Beáti pacífici: quóniam fílii Dei vocabúntur. Beáti, qui persecutiónem patiúntur propter justítiam: quóniam ipsórum est regnum cælórum. Beáti estis, cum maledíxerint vobis, et persecúti vos fúerint, et díxerint omne malum advérsum vos, mentiéntes, propter me: gaudéte et exsultáte, quóniam merces vestra copiósa est in cælis. – **Credo.**

**Offertorium.** Justórum ánimæ in manu Dei sunt, et non tanget illos torméntum malítiæ: visi sunt óculis insipiéntium mori: illi autem sunt in pace, allelúja.

**Secreta.** Múnera tibi, Dómine, nostræ devotiónis of-

hans til hans. Og hann lauk upp munni sínum, kenndi þeim og sagði: Sælir eru fátækir í anda, því að þeirra er himnaríki. Sælir eru hógværir, því að þeir munu landið erfa. Sælir eru syrgjendur, því að þeir munu huggaðir verða. Sælir eru þeir, sem hungrar og þyrstir eftir réttlætinu, því að þeir munu saddir verða. Sælir eru miskunnsamir, því að þeim mun miskunnað verða. Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá. Sælir eru þeir, er stofna til friðar, því að þeir munu Guðs synir kallaðir verða. Sælir eru þeir, sem ofsóttir verða fyrir réttlætis sakir, því að þeirra er himnaríki. Sælir eruð þér, þá er menn atyrða yður og ofsækja og tala ljúgandi allt illt um yður mín vegna. Verið glaðir og fagnið, því að laun yðar eru mikil í himnunum. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *Spek. Sal. 3, 1-2 og 3.* Sálir réttlátra eru í hendi Guðs, og engin kvöl (illskunnar) fær snortið þær. Í augum heimskingjanna sýndust þeir deyja, en þeir eru í friði, allelúja.

**Lágabæn.** Vér færum þér, Drottinn, fórnargjafir guðrækni

férimus: quæ et pro cunctórum tibi grata sint honóre justórum, et nobis salutária, te miseránte, reddántur. Per Dóminum nostrum . . .

vorrar; megi þær þóknast þér, öllum réttlátum til heiðurs og oss til heilla, sakir miskunnar þinnar. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatia, sjá bls. 28.*

**Communio.** Beáti mundo corde, quóniam ipsi Deum vidébunt; beáti pacífici, quóniam filii Dei vocabúntur: beáti, qui persecutiónem patiúntur propter justítiam, quóniam ipsórum est regnum cælórum.

**Kommúníuvers.** *Matt. 5, 8-10.* Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá. Sælir eru þeir, er stofna til friðar, því að þeir munu Guðs synir kallaðir verða. Sælir eru þeir, sem ofsóttir verða fyrir réttlætis sakir, því að þeirra er himnaríki.

**Postcommunio.** Da, quæsumus, Dómine, fidélibus pópulis ómnium Sanctórum semper veneratióne lætári: et eórum perpétua supplicatióne muníri. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér biðjum þig, veit þú hinum trúaða lýð að gleðjast ætíð yfir dýrkun allra heilagra og njóta verndar fyrir stöðugar árnaðarbænir þeirra. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## ALLRA SÁLNA MESSA (Fyrsta messa)

2. NÓVEMBER

**Introitus.** Réquiem ætérnam dona eis, Dómine: et lux perpétua lúceat eis. *Ps.* Te decet hymnus, Deus, in Sion, et tibi reddétur votum in Jerúsalem: exáudi oratiónem meam, ad te omnis caro véniet. Réquiem ætérnam . . .

**Inngönguvers.** Drottinn, veit þeim hina eilífu hvíld, og hið eilífa ljós lýsi þeim. *Sálm. 64, 2-3.* Þér, Guð, ber lofsöngur í Síon, og við þig sé heitið efnt (í Jerúsalem). Heyr bæn mína; til þín kemur allt hold. Drottinn, veit þeim . . .

**Oratio.** Fidélium, Deus,

**Kollekta.** Guð, Skapari og

ómnium Cónditor et Redémptor: animábus famulórum famularúmque tuárum remissiónem cunctórum tríbue peccatórum; ut indulgéntiam, quam semper optavérunt, piis supplicatiónibus consequántur: Qui vivis et regnas . . .

Endurlausnari allra trúaðra, veit sálum þjóna og þerna þinna fyrirgefningu allra synda, svo að þau öðlist fyrir guðrækilegar bænir þá sakaruppgjöf, sem þau hafa ávallt þráð. Þú, sem lifir og ríkir . . .

**Pistill.**

*Kafli úr fyrra bréfi heilags Páls postula til Korintumanna. 15, 51-57.*

FRATRES: Ecce, mystérium vobis dico: Omnes quidem resurgémus, sed non omnes immutábimur. In moménto, in ictu óculi, in novíssima tuba: canet enim tuba, et mórtui resúrgent incorrúpti: et nos immutábimur. Opórtet enim corruptíbile hoc indúere incorruptiónem: et mortále hoc indúere immortalitátem. Cum autem mortále hoc indúerit immortalitátem, tunc fiet sermo, qui scriptus est: Absórpta est mors in victória. Ubi est, mors, victória tua? Ubi est, mors, stímulus tuus? Stímulus autem mortis peccátum est: virtus vero pec-

BRÆÐUR: Sjá, ég segi yður leyndardóm: Vér munum allir upprísa, en ekki munum vér allir umbreytast[1] í einni svipan, á einu augabragði, við hinn síðasta lúður, því að lúðurinn mun gjalla, og hinir dauðu munu upprísa óforgengilegir, og vér munum umbreytast, því að þetta hið forgengilega á að íklæðast óforgengileikanum, og þetta hið dauðlega að íklæðast ódauðleikanum. En þegar (þetta hið forgengilega hefur íklæðzt óforgengileikanum og) þetta hið dauðlega hefur íklæðzt ódauðleikanum, þá mun rætast orð það, sem ritað er: Dauðinn er uppsvelgdur í sigur. Dauði, hvar er sigur þinn?

1) Í öðrum handritum stendur: Vér munum ekki allir sofna, en allir munum vér umbreytast.

cáti lex. Deo autem grátias, qui dedit nobis victóriam per Dóminum nostrum Jesum Christum.

Dauði, hvar er broddur þinn? En broddur dauðans er syndin, og kraftur syndarinnar lögmálið. En Guði séu þakkir, sem gefur oss sigurinn fyrir Drottin vorn Jesúm Krist.

**Graduale.** Réquiem ætérnam dona eis, Dómine: et lux perpétua lúceat eis. ℣. In memória ætérna erit justus: ab auditióne mala non timébit.

**Þrepsöngur.** Drottinn, veit þeim hina eilífu hvíld, og hið eilífa ljós lýsi þeim. *Sálm. 111, 6-7.* ℣. Hins réttláta mun minnzt um eilífð. Hann óttast ekki ill tíðindi.

**Tractus.** Absólve, Dómins, ánimas ómnium fidélium defunctórum ab omni vínculo delictórum. ℣, Et grátia tua illis succurrénte, mereántur evádere judícium ultiónis. ℣. Et lucis ætérnæ beatitúdine pérfrui.

**Aukaþrepsöngur.** Drottinn, leys sálir allra trúaðra framliðinna úr öllum syndafjötrum, og megi þær sakir náðaraðstoðar þinnar komast undan hegningardóminum og njóta sælu hins eilífa ljóss.

**Sekventía.**

Dies iræ, dies illa
Solvet sæclum in favílla:
Teste David cum Sibýlla.

Dagur reiði, dagur bræði
drekkir jörð með logaflæði,
votta jafnvel völufræði.

Quantus tremor est futúrus,
Quando judex est ventúrus,
Cuncta stricte discussúrus!

Dauðans ógn, er Drottinn alda
dóm í skýjum fer að halda,
öllum makleg gjöld að gjalda.

Tuba, mirum spargens sonum
Per sepúlcra regiónum,
Coget omnes ante thronum.

Hátt mun lúður ljóssins gjalla,
lifendur og dauða kalla
fyrir dóminn Drottins alla.

Mors stupébit et natúra,
Cum resúrget creatúra,
Judicánti responsúra.

Dauðinn mun í felur fara
framliðnum er sér hann skara
stefnt úr gröfum Guði að svara.

Liber scriptus proferétur,
In quo totum continétur,
Unde mundus judicétur.

Judex ergo cum sedébit,
Quidquid latet, apparébit:
Nil inúltum remanébit.

Quid sum miser tunc dictúrsus?
Quem patrónum rogatúrus,
Cum vix justus sit secúrus?

Rex treméndæ majestátis,
Qui salvándos salvas gratis,
Salva me, fons pietátis.

Recordáre, Jesu pie,
Quod sum causa tuæ viæ:
Ne me perdas illa die.

Quærens me, sedísti lassus:
Redemísti Crucem passus:
Tantus labor non sit cassus.

Juste judex ultiónis,
Donum fac remissiónis
Ante diem ratiónis.

Ingemísco, tamquam reus:
Culpa rubet vultus meus:
Supplicánti parce, Deus.

Qui Maríam absolvísti,
Et latrónem exaudísti,
Mihi quoque spem dedísti.

Fram er borin bókin fróða;
birta mun sú allra þjóða
vitnisburði, vonda og góða.

Drottinn síðan dæma tekur,
dulmál öll af svefni vekur,
kemst þá enginn undan sekur.

Hverju skal ég sjálfur svara,
sekur maður, hvert skal fara,
sýkn og hreinn er sig má vara?

Ógnarvaldur himins halla,
hjálpráð gefins þeim er falla;
náðarlind, til lífs mig kalla.

Minna vegna bönd þig bundu,
blíði Jesús, kvöl þá mundu,
Drottinn minn, á dómsins stundu.

Þú, sem réðst mín þreyttur leita,
þoldir kross og dauðasveita;
ó, þú mátt um náð ei neita.

Þú, sem allt vilt endurgjalda,
uppgef þú mér sekt margfalda
fyrr en dóminn ferð að halda.

Sjá, ég stúrinn styn í hljóði,
stórsyndarinn, þungum móði;
miskunn sýn mér, Guð minn góði.

Þú, sem Maríu[1] mæra reistir,
þú, sem ránsmann pindan leystir,
Þér um eilífð önd mín treystir.

1) Maria Magdalena.

Preces meæ non sunt dignæ:
Sed tu bonus fac benígne,
Ne perénni cremer igne.

Bænarorð ef ekki vega,
ein þín miskunn græðir trega,
glata oss ei eilíflega.

Inter oves locum præsta,
Et ab hædis me sequéstra,
Státuens in parte dextra.

Vísa mér til hægri handa,
höfrum fjarri, þar sem standa
sauðir þínir sviptir vanda.

Confutátis maledíctis,
Flammis ácribus addíctis:
Voca me cum benedíctis.

Blessað barn mig, Kristur, kalla,
kvöl og neyð þá grípur alla,
sem í ógnareldinn falla.

Oro supplex et acclínis,
Cor contrítum quasi cinis:
Gere curam mei finis.

Á þig, Drottinn, ég mig reiði,
aumur, kraminn styn og beiði:
Guð, þín hönd til lífs mig leiði.

Lacrimósa dies illa,
Qua resúrget ex favílla
Judicándus homo reus.

Dapurt mun þann dag á foldu,
er dróttir sekar rísa úr moldu
að líða dóm á lýtum sönnum.

Huic ergo parce, Deus:
Pie Jesu Dómine,
Dona eis réquiem. Amen.

Líkna Guð, því aumum mönnum,
Jesús, hilmir hreinn, lát þá
hvíld og endurnæring fá. Amen.

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 5, 25-29.*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis Judæórum: Amen, amen, dico vobis, quia venit hora, et nunc est, quando mórtui áudient vocem Fílii Dei, et qui audíerint, vivent. Sicut enim Pater habet vitam in semetípso, sic dedit et Fílio habére vitam in semetípso: et potestátem dedit ei judi-

Á þeim tíma sagði Jesús við mannfjölda Gyðinga: Sannlega, sannlega segir ég yður: sú stund kemur, já, er þegar komin, er hinir dauðu munu heyra raust Sonar Guðs, og þeir, sem heyra hana, munu lifa. Því að eins og Faðirinn hefur líf í sjálfum sér, þannig hefur hann einnig gefið Synin-

cium fácere, quia Fílius hóminis est. Nolíte mirári hoc, quia venit hora, in qua omnes, qui in monuméntis sunt, áudient vocem Fílii Dei: et procédent, qui bona fecérunt, in resurrectiónem vitæ: qui vero mala egérunt, in resurrectiónem judícii.

**Offertorium.** Dómine Jesu Christe, Rex glóriæ, líbera ánimas ómnium fidélium defunctórum de pœnis inférni et de profúndo lacu: líbera eas de ore leónis, ne absórbeat eas tártarus, ne cadant in obscúrum: sed sígnifer sanctus Míchael repræséntet eas in lucem sanctam: Quam olim Abrahæ promisísti et sémini ejus. ℣. Hóstias et preces tibi, Dómine, laudis offérimus: tu súscipe pro animábus illis, quarum hódie memóriam fácimus: fac eas, Dómine, de morte transíre ad vitam. Quam olim Abrahæ promisísti et sémini ejus.

**Secreta.** Hóstias, quæsumus, Dómine, quas tibi pro animábus famulórum famularúmque tuárum offérimus,

um að hafa líf í sjálfum sér; og hann hefur gefið honum vald til að halda dóm, því að hann er Mannssonurinn. Undrizt ekki þetta, því að sú stund kemur, er allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra raust hans (Guðs Sonar), og þeir munu ganga út þaðan, þeir, sem gott hafa gjört, til upprisu lífsins, en þeir, sem illt hafa aðhafzt, til upprisu dómsins.

**Fórnunarvers.** Drottinn Jesús Kristur, konungur dýrðarinnar, bjarga þú sálum allra trúaðra framliðinna frá þjáningum heljar og frá hinu mikla undirdjúpi; frelsa þær úr ljónsgininu, svo að hyldjúpið gleypi þær ekki og þær steypist ekki í myrkrið, en lát merkisbera þinn, hinn heilaga Mikael, leiða þær til hins heilaga ljóss, sem þú forðum hézt Abraham og afkvæmi hans. ℣. Drottinn, meðtak þær fórnir og lofgjörðarbænir, sem vér færum þér fyrir sálum þeim, er vér minnumst í dag. Lát þær, Drottinn, innganga frá dauðanum til lífsins, er þú forðum hézt Abraham og afkvæmi hans.

**Lágabæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, að líta náðarsamlega þær fórnargjafir, sem vér færum

propitiátus inténde: ut, quibus fídei christiánæ méritum contulísti, dones et prǽmium. Per Dóminum nostrum . . .

þér fyrir sálum þjóna þinna og þerna, svo að þú veitir þeim, sem þú gafst náðargjöf kristilegrar trúar, einnig laun hennar. Fyrir Drottin vorn . . .

**Prefatía hinna framliðnu.**

Vere dignum et justum est, æquum et salutáre, nos tibi semper et ubíque grátias ágere: Dómine sancte, Pater omnípotens, ætérne Deus: per Christum, Dóminum nostrum. In quo nobis spes beátæ resurrectiónis effúlsit, ut, quos contrístat certa moriéndi condício, eósdem consolétur futúræ immortalitátis promíssio. Tuis enim fidélibus, Dómine, vita mutátur, non tóllitur: et, dissolúta terréstris hujus incolátus domo, ætérna in cælis habitátio comparátur. Et ídeo cum Angelis et Archángelis, cum Thronis et Dominatiónibus cumque omni milítia cæléstis exércitus hymnum glóriæ tuæ cánimus, sine fine dicéntes: Sanctus . . . *p. 28.*

Sannarlega er það verðugt og rétt, sanngjarnt og heillavænlegt, að vér færum þér þakkir, ávallt og allsstaðar, heilagi Drottinn, almáttugi Faðir, eilífi Guð, fyrir Kríst, Drottin vorn. Í honum hefur vonin um sæla upprisu ljómað fyrír oss, svo að þeir, sem hryggjast af örlögum óhjákvæmilegs dauða, megi og huggast við fyrirheitið um komandi ódauðleika, því að líf þinna trúuðu, Drottinn, breytist, en er ekki frá þeim tekið; þegar bústaður jarðvistar þeirra er fallinn, er þeim fyrirbúinn eilífur bústaður á himnum. Og því lofsyngjum vér dýrð þína, ásamt englunum og höfuðenglunum, hásætunum og herradómunum og öllum hinum himnesku hersveitum og segjum án afláts: Heilagur . . . *bls. 28.*

**Communio.** Lux ætérna lúceat eis, Dómine: Cum Sanctis tuis in ætérnum: quia pius es. ℣. Réquiem

**Kommúníuvers.** Hið eilífa ljós lýsi þeim, Drottinn, ásamt með þínum heilögu um alla eilífð, því að þú ert miskunn-

ætérnam dona eis, Dómine: et lux perpétua lúceat eis. Cum Sanctis tuis in ætérnum: quia pius es.

samur. Drottinn, veit þeim hina eilífu hvíld, og hið eilífa ljós lýsi þeim, ásamt með þínum heilögu um alla eilífð, því að þú ert miskunnsamur.

**Postcommunio.** Animábus, quæsumus, Dómine, famulórum famularúmque tuárum orátio profíciat supplicántium: ut eas et a peccátis ómnibus éxuas, et tuæ redemptiónis fácias esse partícipes: Qui vivis et regnas ...

**Kommúníubæn.** Drottinn, vér biðjum þig, að bæn þeirra, sem sárbiðja þig, megi verða sálum þjóna þinna og þerna til gagnsemdar, svo að þú leysir þær frá öllum syndum og gjörir þær hluttakendur í endurlausn þinni. Þú, sem lifir og ríkir . . .

---

## ALLRA SÁLNA MESSA (Önnur messa)

2. NÓVEMBER

**Ingönguvers** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 203).*

**Oratio.** Deus, indulgentiárum Dómine: da animábus famulórum famularúmque tuárum refrigérii sedem, quiétis beatitúdinem, et lúminis claritátem. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Guð, Drottinn miskunnarinnar, veit þú sálum þjóna þinna og þerna stað svölunar, sælu hvildarinnar og dýrð ljóssins. Fyrir Drottin vorn . . .

### Pistill.

*Kafli úr annarri Makkabeabók. 12, 43-46.*

In diébus illis: Vir fortíssimus Judas, facta collatióne, duódecim míllia drachmas argénti misit Jerosólymam, offérri pro peccátis mortuórum sacrifícium, bene et religióse de resurrec-

Á þeim dögum lét Júdas, maður hugaður mjög, er hann hafði efnt til samskota, senda tvær þúsundir (tólf þúsundir) drakma silfurs til Jerúsalem, til þess að borin yrði fram syndafórn (fyrir hinum látnu).

tióne cógitans (nisi enim eos, qui ceciderant, resurrectúros speráret, supérfluum viderétur et vanum oráre pro mórtuis): et quia considerábat, quod hi, qui cum pietáte dormitiónem accéperant, óptimam habérent repósitam grátiam. Sancta ergo et salúbris est cogitátio pro defúnctis exoráre, ut a peccátis solvántur.

Var það fagurlega og guðrækilega gjört af honum, því að hann hugsaði til upprisunnar, (því að, hefði hann ekki vænt þess, að hinir föllnu mundu upp rísa, þá hefði það verið óþarft og heimskulegt að biðja fyrir þeim látnu) og vegna þess að hann áleit, að þeirra, sem hafa sofnað guðrækilega, bíði hin fegursta umbun. Sannarlega var það heilög og guðrækileg hugsun að biðja (að bera fram friðþægingarfórn) fyrir hinum látnu, að þeir fengju lausn synda sinna.

**Þrepsöngur**, **Aukaþrepsöngur** og **Sekventía** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 205)*.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 6, 37-40.*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis Judæórum: Omne, quod dat mihi Pater, ad me véniet: et eum, qui venit ad me, non ejíciam foras: quia descéndi de cælo, non ut fáciam voluntátem meam, sed voluntátem ejus, qui misit me. Hæc est autem volúntas ejus, qui misit me, Patris: ut omne, quod dedit mihi, non perdam ex eo, sed resúscitem illud in novíssimo die. Hæc est autem volúntas

Á þeim tíma sagði Jesús við mannfjölda Gyðinga: Allt, sem Faðirinn gefur mér, mun koma til mín, og þeim, sem til mín kemur, mun ég alls ekki út kasta. Því að ég hef stigið niður af himni, ekki til þess að gjöra vilja minn, heldur vilja þess, er sendi mig. En þetta er vilji hans (Föðurins), er sendi mig, að af öllu því, sem hann hefur gefið mér, skuli ég ekki láta neitt glatast, heldur uppvekja það á efsta degi. Því að

Patris mei, qui misit me: ut omnis, qui videt Filium et credit in eum, hábeat vitam ætérnam, et ego resuscitábo eum in novíssimo die.

þetta er vilji Föður míns, að hver, sem sér Soninn og trúir á hann, hafi eilíft líf, og ég mun uppvekja hann á efsta degi.

**Fórnunarvers.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 208).*

**Secreta.** Propitiáre, Dómine, supplicatiónibus nostris, pro animábus famulórum famularúmque tuárum, pro quibus tibi offérimus sacrifícium laudis: ut eas Sanctórum tuórum consórtio sociáre dignéris. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Drottinn, ver þú velviljaður auðmjúkri sárbeiðni vorri, sálum þjóna þinna og þerna til handa, sem vér færum þér þessa lofgjörðarfórn fyrir, svo að þér þóknist að taka þær í samfélag þinna heilögu. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatia hinna framliðnu, sjá bls. 209.*

**Kommúníuvers.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 209).*

**Postcommunio.** Præsta, quæsumus, Dómine: ut ánimæ famulórum famularúmque tuárum, his purgátæ sacrifíciis, indulgéntiam páriter et réquiem cápiant sempitérnam. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, Drottinn, veit þú, að sálir þjóna þinna og þerna megi, hreinsaðar fyrir þessa fórn, öðlast sakaruppgjöf og hina eilífu hvíld. Fyrir Drottin vorn . . .

---

## ALLRA SÁLNA MESSA (Þriðja messa)

2. NÓVEMBER

**Inngönguvers.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 203).*

**Oratio.** Deus, véniæ largitor et humánæ salútis amátor: quæsumus cleméntiam tuam; ut ánimas famulórum famularúmque tuárum, quæ

**Kollekta.** Guð, þú, sem veitir fyrirgefningu og vilt, að allir menn verði sáluhólpnir, vér biðjum miskunn þína að veita sálum þjóna þinna og þerna,

ex hoc sæculo transiérunt, beáta Maria semper Vírgine intercedénte cum ómnibus Sanctis tuis, ad perpétuæ beatitúdinis consórtium perveníre concédas. Per Dóminum nostrum . . .

sem farin eru úr þessum heimi, hlutdeild í hinni eilífu sælu, sakir árnaðar alsællar Maríu, ætíð meyjar, og allra þinna heilögu. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Opinberunarbók hins heilaga Jóhannesar postula. 14, 13.*

In diébus illis: Audívi vocem de cælo, dicéntem mihi: Scribe: Beáti mórtui, qui in Dómino moriúntur. Amodo jam dicit Spíritus, ut requiéscant a labóribus suis: ópera enim illórum sequúntur illos.

Á þeim dögum heyrði ég rödd af himni, sem sagði mér: Rita þú: Sælir eru dánir, þeir, sem í Drottni deyja upp frá þessu. Já, segir Andinn, hvílist þeir frá erfiði sinu, því að verk þeirra fylgja þeim.

**Þrepsöngur, aukaþrepsöngur** og **sekventía.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 205).*

**Guðspjall.**

*Framhald hins heilaga Jóhannesarguðspjalls. 6, 51-55.*

In illo témpore: Dixit Jesus turbis Judæórum: Ego sum panis vivus, qui de cælo descéndi. Si quis manducáverit ex hoc pane, vivet in ætérnum: et panis, quem ego dabo, caro mea est pro mundi vita. Litigábant ergo Judæi ad ínvicem, dicéntés: Quómodo potest hic nobis carnem suam dare ad man-

Á þeim tíma sagði Jesús við mannfjölda Gyðinga: Ég er hið lifandi brauð, sem kom niður af himni; ef nokkur etur af þessu brauði, mun hann lifa til eilífðar; og það brauð, sem ég mun gefa, er hold mitt, heiminum til lífs. Þá þráttuðu Gyðingarnir sín á milli og sögðu: Hvernig getur hann gefið oss hold sitt að eta? Því sagði Jesús

ducándum? Dixit ergo eis Jesus: Amen, amen, dico vobis: nisi manducavéritis carnem Fílii hóminis et bibéritis ejus sánguinem, non habébitis vitam in vobis. Qui mandúcat meam carnem et bibit meum sánguinem, habet vitam ætérnam: et ego resuscitábo eum in novíssimo die.

við þá: Sannlega, sannlega segi ég yður, ef þér ekki etið hold Mannssonarins og drekkið blóð hans, hafið þér ekki lífið í yður. Sá, sem etur hold mitt og drekkur blóð mitt, hefur eilíft líf, og ég mun uppvekja hann á efsta degi.

**Fórnunarvers.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 208).*

**Secreta.** Deus, cujus misericórdiæ non est númerus, súscipe propítius preces humilitátis nostræ: et animábus ómnium fidélium defunctórum, quibus tui nóminis dedísti confessiónem, per hæc sacraménta salútis nostræ, cunctórum remissiónem tríbue peccatórum. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn.** Takmarkalaus er miskunn þín, Guð, þigg þú náðarsamlega auðmjúkar bænir vorar og veit sálum allra trúaðra framliðinna, sem þú hefur gefið að játa nafn þitt, fyrirgefningu allra synda fyrir þessa leyndardóma hjálpræðis vors. Fyrir Drottin vorn . . .

*Prefatía hinna framliðnu, sjá bls. 209.*

**Kommúníuvers.** *(Eins og í fyrstu messunni, sjá bls. 209).*

**Postcommunio.** Præsta, quæsumus, omnípotens et miséricors Deus: ut ánimæ famulórum famularúmque tuárum, pro quibus hoc sacrifícium laudis tuæ obtúlimus majestáti; per hujus virtútem sacraménti a peccátis ómnibus expiátæ, lucis

**Kommúníubæn.** Vér biðjum þig, almáttugi og miskunnsami Guð, veit þú, að þessi lofgjörðarfórn, sem vér höfum fært hátign þinni í þágu sálna þjóna þinna og þerna, megi veita þeim, hreinsuðum af öllum syndum, sælu hins eilífa ljóss fyrir kraft þessa sakra-

perpétuæ, te miseránte, recípiant beatitúdinem. Per Dóminum nostrum . . .

mentis og sakir miskunnar þinnar. Fyrir Drottin vorn . . .

## KIRKJUDAGUR HÖFUÐKIRKJU, SEM HELGUÐ ER FRELSARANUM

9. NÓVEMBER

**Introitus.** Terríbilis est locus iste: hic domus Dei est et porta cæli: et vocábitur aula Dei. *Ps.* Quam diIécta tabernácula tua, Dómine virtútum! concupíscit, et déficit ánima mea in átria Dómini. ℣. Glória Patri . . .

**Inngönguvers.** *1. Mós. 28, 17.* Óttalegur er þessi staður; hér er Guðs hús og hlið himinsins; (hann mun kallast höll Guðs). *Sálm. 83, 2-3.* Hversu yndislegir eru bústaðir þínir, Drottinn hersveitanna. Sál mína langar til forgarða Drottins, já, hún örmagnast af þrá. ℣. Dýrð sé Föðurnum . . .

**Oratio.** Deus, qui nobis per síngulos annos hujus sancti templi tui consecratiónis réparas diem, et sacris semper mystériis repræséntas incólumes: exáudi preces pópuli tui, et præsta; ut, quisquis hoc templum benefícia petitúrus ingréditur, cuncta se impetrásse lætétur. Per Dóminum nostrum . . .

**Kollekta.** Á hverju ári lætur þú oss, Guð, halda hátíð til minningar um vígslu þessa heilaga musteris þíns og gjörir oss kleift að vera ávallt viðstaddir þessa helgu leyndardóma; heyr þú bænir lýðs þíns og veit, að sérhver, er sækir þetta musteri til að biðja sér velgjörða, megi gleðjast yfir því, að hafa hlotið þær allar. Fyrir Drottin vorn . . .

**Pistill.**

*Kafli úr Opinberunarbók hins heilaga Jóhannesar postula. 21, 2-5.*

In diébus illis: Vidi sanctam civitátem Jerúsalem no-

Á þeim dögum sá ég borgina helgu, nýja Jerúsalem,

vam descendéntem de cælo a Deo, parátam sicut sponsam ornátam viro suo. Et audívi vocem magnam de throno dicéntem: Ecce, tabernáculum Dei cum homínibus, et habitábit cum eis. Et ipsi pópulus ejus erunt, et ipse Deus cum eis erit eórum Deus: et abstérget Deus omnem lácrimam ab óculis eórum: et mors ultra non erit, neque luctus neque clamor neque dolor erit ultra, quia prima abiérunt. Et dixit, qui sedébat in throno: Ecce, nova fácio ómnia.

**Graduale.** Locus iste a Deo factus est, inæstimábile sacraméntum, irreprehensíbilis est. ℣. Deus, cui astat Angelórum chorus, exáudi preces servórum tuórum.

**Allelúja,** allelúja. ℣. Adorábo ad templum sanctum tuum: et confitébor nómini tuo. Allelúja.

stíga niður af himni frá Guði, búna sem brúði, er skartar fyrir manni sínum. Og ég heyrði raust mikla frá hásætinu, er sagði: Sjá, bústaður Guðs er meðal mannanna, og hann mun búa hjá þeim, og þeir munu vera lýður hans, og Guð sjálfur mun vera hjá þeim, Guð þeirra. Og hann (Guð) mun þerra hvert tár af augum þeirra, og dauðinn mun ekki framar til vera, hvorki harmur né vein, né kvöl er framar til, því að hið fyrra er farið. Og sá, sem í hásætinu sat, sagði: Sjá, ég gjöri alla hluti nýja.

**Þrepsöngur.** Þessi staður er gjörður af Guði, ómetanlegur leyndardómur, óaðfinnanlegur er hann. Guð, þú, sem kór englanna umkringir, heyr bænir þjóna þinna.

**Allelúja,** allelúja. *Sálm. 137, 2.* Ég mun falla fram fyrir þínu heilaga musteri og lofa nafn þitt. Allelúja.

## Guðspjall.

*Framhald hins heilaga Lúkasarguðspjalls. 19, 1-10.*

In illo témpore: Ingréssus Jesus perambulábat Jéricho. Et ecce, vir nómine Zachæus: et hic princeps erat

Á þeim tíma fór Jesús inn í Jeríkó og gekk í gegnum hana. Og sjá, þar var maður nokkur, er Zakkeus hét, og

publicanórum, et ipse dives: et quærébat vidére Jesum, quis esset: et non póterat præ turba, quia statúra pusíllus erat. Et præcúrrens ascéndit in árborem sycómorum, ut vidéret eum; quia inde erat transitúrus. Et cum venísset ad locum, suspíciens Jesus vidit illum, et dixit ad eum: Zachæe, festínans descénde; quia hódie in domo tua opórtet me manére. Et festínans descéndit, et excépit illum gaudens. Et cum vidérent omnes, murmurábant, dicéntes, quod ad hóminem peccatórem divertísset. Stans autem Zachæus, dixit ad Dóminum: Ecce, dimídium bonórum meórum, Dómine, do paupéribus: et si quid áliquem defraudávi, reddo quádruplum. Ait Jesus ad eum: Quia hódie salus dómui huic facta est: eo quod et ipse fílius sit Abrahæ. Venit enim Fílius hóminis quærere et salvum fácere, quod períerat. – **Credo.**

**Offertorium.** Dómine Deus, in simplicitáte cordis mei lætus óbtuli univérsa; et pópulum tuum, qui repértus est, vidi cum ingénti

hann var yfirtollheimtumaður og auðugur. Og hann leitaðist við að sjá Jesúm, hver hann væri, en hann gat það ekki fyrir mannfjöldanum, því að hann var lítill vexti. Og hann hljóp fram fyrir og steig upp í mórberjatré, til þess að hann gæti séð hann, því að leið hans lá þar fram hjá. Og er Jesús kom þangað, leit hann upp (sá hann) og sagði við hann: Zakkeus, flýt þér ofan, því að í dag ber mér að dvelja í húsi þínu. Og hann flýtti sér ofan og tók á móti honum glaður. Og er þeir sáu þetta, mögluðu þeir allir og sögðu: Hann er farinn inn til að gista hjá bersyndugum manni. En Zakkeus gekk fram og sagði við Drottin: Sjá, herra, helming eigna minna gef ég fátækum, og hafi ég haft nokkuð af nokkrum, gef ég honum ferfalt aftur. Og Jesús sagði við hann: Í dag hefur hjálpræði hlotnazt húsi þessu, þar eð einnig þessi maður er Abrahams sonur. Því að Mannssonurinn er kominn til að leita að hinu týnda og frelsa það. – **Credo.**

**Fórnunarvers.** *1. Kron. 29, 17-18.* Drottinn minn og Guð, af hreinum huga hef ég fært þér allt þetta, og ég hef með mikilli

gáudio: Deus Israel, custódi hanc voluntátem, allelúja.

gleði horft á lýð þinn, hér viðstaddan, Guð Ísraels, varðveit þú þetta góða hugarfar, allelúja.

**Secreta**. Annue, quæsumus, Dómine, précibus nostris: ut, dum hæc vota præséntia réddimus, ad ætérna præmia, te adjuvánte, perveníre mereámur. Per Dóminum nostrum . . .

**Lágabæn**. Vér biðjum þig, Drottinn, ljá eyra bænum vorum, svo að vér, sem færum þér þessar bænir, verðskuldum fyrir hjálp þína að öðlast hin eilífu laun. Fyrir Drottin vorn . . .

*Almenn prefatía, sjá bls. 28.*

**Communio**. Domus mea domus oratiónis vocábitur, dicit Dóminus: in ea omnis, qui petit, áccipit; et qui quærit, ínvenit: et pulsánti aperiétur.

**Kommúníuvers**. *Matt. 21, 13 og Lúk. 11, 10.* Hús mitt skal nefnast bænahús (segir Drottinn). (Þar) mun hver sá, sem biður, öðlast, og hver sá, sem leitar, finna, og fyrir þeim, sem knýr á, mun upplokið verða.

**Postcommunio**. Deus, qui de vivis et eléctis lapídibus ætérnum majestáti tuæ præparas habitáculum: auxiliáre pópulo tuo supplicánti; ut, quod Ecclésiæ tuæ corporálibus próficit spátiis, spirituálibus amplificétur augméntis. Per Dóminum nostrum . . .

**Kommúníubæn**. Guð, þú, sem býrð hátign þinni eilífan bústað úr lifandi og útvöldum steinum, liðsinn þínum sárbiðjandi lýði, svo að, eftir því, sem stærð kirkju þinnar eykst hið ytra, dafni hún einnig í andlegum efnum. Fyrir Drottin vorn . . .

---

# EFNISYFIRLIT



*Proprium de tempore.*



*Proprium de sanctis.*